# II. Hugmyndir manna um Ísland fyrir siðaskiptin.

## 4. Ferðir Norðmanna til Íslands og landnám þeirra.

Það er ekki gott að segja með vissu, hver fyrstur fann Ísland af norrænum mönnum, og eru deildar sagnir um það, hvor þeirra Naddaðs eða Garðars hafi fyrr komið til landsins; handritin af Landnámu greinir á í þessu efni. Um Naddað[1] segir svo

*í Landnámu Sturlu Þórðarsonar*:

Svá er sagt, at menn skyldu fara ór Noregi til Færeyja; nefna sumir til Naddoð víking; en þá rak vestr í haf, ok fundu þar land mikit; þeir gengu upp í Austfjörðum á fjall eitt hátt, ok sást um víða, ef þeir sæi reyki eða nökkur líkindi til þess at landit væri bygt; ok sá þeir þat ekki. Þeir fóru aptr um haustit til Færeyja;

*í Haukskók*:

Naddoddr hét maðr, bróðir Exna-Þóris, mágr Ölvis barna-karls; hann var víkingr mikill. Af því staðfestist hann í Færeyjum, at hann átti hvergi annarstaðar vel fritt. Hann fór or Noregi ok vildi til eyjanna, ok varð sæhafi til Garðarshólms, ok kom í Reyðarfjörð á Austfjörðum, ok gengu þeir þar á hin hæstu fjöll, at vita, ef

[1]) Réttast mun vera, að skrifa Naddaðr eða Naddoðr, en ekki Naddoddur, eins og optast er gert, sbr. grein eptir Jón rektor Þorkelsson í Baldri I., bls. 6.

ok er þeir sigldu af landinu, féll snær mikill á fjöll, ok fyrir þat kölluðu þeir landit Snæland. Þeir lofuðu mjök landit. Þar heitir nú Reyðarfjall á Austfjörðum, er þeir höfðu at komit. Svá sagði Sæmundr prestr enn fróði.

þeir sæi nokkorar manna vistir eða reyki, ok sá þeir ekki tíðinda. En er þeir sigldu frá landinu, féll snjór mikill; af því kallaði hann Snæland.

Um Garðar segir svo

*í Sturlubók*:

Maðr hét Garðarr Svavarsson, sænskr at ætt; hann fór at leita Snælands at tilvísan móður sinnar framsýnnar; hann kom at landi fyrir austan Horn it eystra; þar var þá höfn. Garðarr sigldi umhverfis landit, ok vissi at þat var eyland. Hann var um vetr norðr í Húsavík á Skjálfanda ok gjörði þar hús. Um várit, er hann var búinn til hafs, sleit frá honum mann á báti, er hét Náttfari, ok þræl ok ambátt. Hann bygði þar síðan er heitir Náttfaravík. Garðarr fór þá til Noregs, ok lofaði mjök landit. Hann var faðir Una, föður Hróars Tungugoða. Eptir þat var landit kallat Garðarshólmr,

*í Hauksbók*:

Garðarr hét maðr, sun Svavars hins svænska. Hann átti jarðir í Sjólandi, en var fœddr í Svíaríki. Hann fór til Suðreyja at heimta föðurarf konu sinnar. En er hann sigldi í gegnum Pettlandsfjörð, þá sleit hann undan veðr, ok rak hann vestr í haf. Hann kom at landi fyrir austan Horn; þar var höfn. Garðarr sigldi umhverfis landit, ok vissi at þat var eyland. Hann kom á fjörð þann, er hann kallaði Skjálfanda. Þar skutu þeir báti ok gekk á Náttfari ok þræll hans. Þá slitnaði festin, ok kom hann í Náttfaravík fyrir utan Skuggabjörg. En Garðarr kom öðru megin fjarðarins ok var þar

ok var þá skógr milli fjalls ok fjöru.

um vetrinn. Því kallaði hann þar Húsavík. Náttfari var eptir með þræl sinn ok ambátt; því heitir þar Náttfaravík. Garðarr sigldi austr aptr, ok lofaði mjök landit, ok kallaði Garðarshólm.[1]

Í Hauksbók stendur frásögnin um Garðar á undan kaflanum um Naddað. Seinna í Landnámu (IV. 4) er getið um Una Garðarsson; hann fór til Íslands með ráði Haralds konungs hárfagra og ætlaði að leggja undir sig landið; þar er hann nefndur »Uni, son Garðars, er fyrst fann Ísland,« og sýnist það benda til þess, að Garðar hafi fyrr komið til Íslands en Naddaðr; Sturla telur Sæmund fróða heimildarmann fyrir því, að Naddaðr hafi komið hér fyrstur, en Hauksbók getur engrar heimildar, og því hafa fleiri lagt meiri trúnað á orð Sturlu Þórðarsonar.

Það sýnist þó vera undarlegt, hvers vegna Haukur hefir vikið frá frásögu Sturlu lögmanns að orsakalausu, úr því hann hafði fyrir sér Sturlubók, eptir því, sem hann sjálfur segir: »Þessa bók ritaða ek Haukr Ellinzsun eptir þeirri bók, sem ritað hafði herra Sturla lögmaðr Þórðarson, hinn fróðasti maðr, ok eptir þeirri bók annari, er ritað hafði Styrmir hinn fróði, ok hafða ek þat or hverri er framar greindi, en mikill þorri var þat er þær sögdu eins báðar.» (Ldn. V. cap. 15.). I tveim gömlum latneskum ritum um sögu Noregs er getið um fund Íslands, er annað þeirra eptir Þjóðrek munk og ritað um miðja 12. öld, hins hefir áður verið getið, og heitir það »Breve Cronicon Norvegiæ», og er ritað á 15. öld; í hvorugu þessu riti er getið um Naddað víking, en á báðum stöð-

[1]) Landnáma I. cap. 1. Íslendingasögur I. 1843, bls. 22-28. Sbr. Fornmannasögur I., bls. 234-35, XI., bls. 411-412.

um er Garðar talinn hafa fyrstur fundið Ísland.[1] Í Njálu er getið um Una hinn danska í ættartölu; þar segir svo: «Arnguðr hét systir Gunnars, hana átti Hróarr Tungugoði, son Una hins úborna Garðarssonar, sá fann Ísland»; seinna er getið «Þorgerðar Mársdóttur, Runólfssonar, Naddaðarsonar hins Færeyska,»,[2] en ekki nefnt á nafn, að Naddaður hafi fyrstur fundið Ísland. Frásögnin um Garðar sýnist vera miklu eðlilegri í Hauksbók en Sturlubók, því það er sennilegra, að hann hafi farið til Suðureyja að heimta föðurarf konu sinnar, og svo hrakizt óviðbúinn norður í höf, heldur en að hann hafi farið að leita Snælands eptir fyrirsögn móður sinnar framsýnnar. Finnur Magnússon er á þeirri skoðun, að Garðar hafi fyrstur fundið Ísland, og eins Konráð Maurer.[3] Þó nú margt sýnist mæla með því, að Garðar hafi fyrstur fundið Ísland, þá er þó ómögulegt með fullri vissu að segja, hvað rétt er í þessu efni; sögurnar um hinar fyrstu sjóferðir hér í norðurhöfum eru svo óglöggar.

Eins og kunnugt er kemur Flóki Vilgerðarson næstur til sögunnar; hann fór frá Hjaltlandi til þess að leita að Garðarshólma; með honum voru á skipi bændur tveir, Þórólfur og Herjólfur, Faxi suðureyskur maður og hrafnar þrír, þá lét hann lausa í hafi; hinn fyrsti fló aptur um stafn til sama lands, annar í lopt upp og svo aptur til skips, en hinn þriðji fram um stafn í þá átt, er þeir fundu landið. Flóki kom að Austfjörðum eins og þeir Garðarr og Naddaður, og sigldi svo suður fyrir land; þegar Faxi sá mynnið á Flóanum milli Reykjaness og Snæfellsness, hélt hann að þar væri árós, og var fjörðurinn síðan kallaður Faxaós; sigldu þeir Flóki síðan norður með og inn á Breiðafjörð, og svo í Vatnsfjörð á Barðaströnd, rétt fyr-

[1]) Theodorici monachi historia de antiquitate regum Norwagiensium. cap. III. Monumenta Historica Norvegiæ. Udg. ved G. Storm. Kristiania 1880, bls. 9. Breve Cronicon Norvegiæ, bls. 7.

[2]) Njála c. 19 og 47.

[3]) Grönlands historiske Mindesmærker I., bls. 89-103. *K. Maurer*: Upphaf allsherjarríkis á Íslandi. 1882, bls. 29,

ir innan Brjánslæk. Þá var fjörðurinn fullur af veiðiskap, og gáðu þeir eigi fyrir veiðum að fá heyanna og dó allt kvikfé þeirra um veturinn; af þessari frásögn er auðséð að Flóki hefir ætlað að nema land og reisa bú, enda gat hann varla valið fallegri stað, því fjörðurinn og dalurinn inn af eru ljómandi fagrir, þar er vatn í miðjum dalnum með silungsveiði, og fellur úr því breið og vatnsmikil á til sævar, en miklir skógar eru þar enn á báða vegu hátt upp eptir hlíðum. Vorið næsta var kalt. Þá gekk Flóki upp á fjall eitt hátt og sá norður yfir fjöllin fjörð fullan af hafísum, því kölluðu þeir landið Ísland, sem það hefir síðan heitið. Ef Flóki hefir gengið upp á fjall þar í nánd sem víðsýni er af, þá hefir hann varla getað farið annað en upp á Hornatær og hefir séð yfir á Arnarfjörð og Suðurfirði, og ef til vill eitthvað á Ísafjarðardjúp; hér hefir þá verið mikið ísaár, því sjaldan rekur hafís inn á þessa firði nema þegar aftök eru. Þeir Flóki ætluðu burt um sumarið, en urðu ekki búnir fyrr en litlu fyrir vetur, þeim beit eigi fyrir Reykjanes, og sleit frá þeim bátinn, og var Herjólfur á honum; við það sneru þeir aptur og voru í Borgarfirði um veturinn, og sigldu sumarið eptir til Noregs. Þegar menn spurðu af landinu lét Flóki illa yfir, Herjólfur sagði kost og löst á því, en Þórólfur kvað drjúpa smjör af hverju strái á landi því er þeir hefðu fundið. Það varð þó úr að Flóki bar beinin á Íslandi, hann kom aptur miklu seinna til landsins og »nam Flókadal[1] milli Flókadalsár og Reykjarhóls; hann bjó á Mói«; það er norður í Fljótum í Skagafjarðarsýslu.

Landnám þeirra fóstbræðra Ingólfs og Hjörleifs er öllum kunnugt, og þarf því ekki að fjölyrða um það hér; þeir komu einnig að Austfjörðum er þeir komu fyrst til landsins, voru þar einn vetur og fóru svo aptur til Noregs; þeir komu hingað aptur árið 874, eptir því sem almennt er talið, Ingólfur tók land við Ingólfshöfða og var

[1]) Landnáma III. cap. 11, bls. 200.

þar fyrsta veturinn, en Hjörleifur við Hjörleifshöfða, og þar drápu þrælarnir hann; annan vetur dvaldi Ingólfur við Hjörleifshöfða, hinn þriðja undir Ingólfsfjalli fyrir vestan Ölfusá, en síðan settist hann að í Reykjavík, því þar voru öndvegissúlur hans reknar undir Arnarhóli. Ingólfur »nam land milli Ölfusár ok Hvalfjarðar fyrir utan Brynjudalsá milli ok Öxarár, ok öll nes út.« Eptir þetta komu óðum fleiri austan um haf, og sumir úr Suðureyjum, til þess að setjast að í hinu nýfundna landi.

Hér á ekki við á þessum stað að skýra nákvæmlega frá landnámi Íslands, enda getur hver sem vill lesið um það í Landnámu og safni til sögu Íslands.[1] Smám saman varð landið kunnara íbúum þess eptir því sem það byggðist, og er talið að landið yrði albyggt á árunum 870—930. Að vestan og sunnan varð landið fyrst numið, enda var þar einna hægast aðgöngu; Landnáma segir, að fyrst hafi Austfirðir orðið albyggðir, en þó má færa sönnur á það, að þar var síðar numið en víðasthvar annarstaðar, en samt getur verið fyrir því, að þar hafi fyrst orðið albyggt; á suðurströndinni var landtaka verst, og segir Landnáma, að síðast hafi byggzt milli Hornafjarðar og Reykjaness. »Þar réð veðr ok brim landtöku manna, fyrir hafnleysis sakir ok öræfis.« Hin fyrstu stórmenni, sem komu hér til lands, t. d. Ingólfur, Skallagrímur, Helgi magri, o. fl., tóku undir sig heil héruð, og leið opt lengi þangað til þau voru alsett mannfólki. Menn helguðu sér landið með því að fara eldi um það, og voru í fyrstu engin takmörk sett fyrir því, hvað nema mætti. »Þeim mönnum er síðar komu út þóttu hinir numit hafa of víða land er fyrri komu, en á þat sætti Haraldr konungr þá hinn hárfagri, at engi skyldi víðara nema en hann mætti eldi yfir fara á degi með skipverjum sínum. Menn skyldu elda gjöra þá er sól væri í austri; þar skyldi gjöra aðra reyki, svá at hvár sæi frá öðrum, en þeir eldar er gjörv-

[1]) *Guðbrandur Vigfússon*: Um tímatal í Íslendinga sögum í fornöld. Safn I, bls. 185-502.

ir voru þá er sól var í austri, skyldi brenna til nætr; síðan skyldu þeir ganga til þess er sól væri í vestri, ok gjöra þar aðra elda.«[1] Um konur var svo ákveðið, »at kona skyldi eigi víðara nema land en leiða mætti kvígu tvævetra várlangan dag sólsetra millim, hálfstaðit naut ok haft vel.«[2] Þeir er síðast komu urðu að kaupa sér land eða berjast til landa og vildu sumir gera það þar sem þeir komu að bygðu landi, þó nóg væri ónumið annarsstaðar, eins og t. d. Kráku-Hreiðarr. Mönnum þótti framan af mikið varið í að fara til Íslands yfir svo langt haf og mikið; það er t. d. sagt í Sturlungu, þar sem talað er um Geirmund heljarskinn, að þá var mest orð á »at engi þætti frægðarför meiri en fara til Íslands;«[3] hinir fyrstu landnámsmenn létu og mikið af landkostum, sem sjá má t. d. í Vatnsdælu: »Er mér sagt gott frá landkostum, at þar gangi sjálfala fé um vetr, en fiskr í hverju vatni, skógar miklir, en frjálsir af ágangi konunga ok illræðismanna«.[4] Það var frelsið, sem meginþorri landnámsmanna var að leita að; hér gat hver lifað og látið sem hann vildi, og þurfti eigi að hræðast ójöfnuð Haralds hárfagra eða annara konunga; menn urðu að eins að gæta þess, að fæla ekki landvætti eða styggja þá, er þeir sigldu að landinu, enda var það upphaf heiðinna laga, að menn skyldi ekki hafa höfuðskip í haf, en ef þeir hefði, þá skyldi þeir af taka höfuð áður þeir kæmu í landsýn og sigla eigi að landinu með gapandi höfðum eða gínandi trjónum, svo að landvættir fælist við.[5] Þessi kurteisi við landvættina borgaði sig vel seinna, eptir því sem þjóðsagan segir. Svo stóð á, að íslenzkt skip braut við Danmörku; Danir tóku upp fé allt og kölluðu vágrek; Birgir, bryti Dana konungs, gekkst fyrir þessu verki. Íslendingar reiddust ráni þessu, og var það í lög tekið að yrkja

[1]) Landnáma V. kap. 1, bls. 276.
[2]) Landnáma IV. kap. 10., bls. 264.
[3]) Sturlunga. Oxford-útg. I., bls. 3.
[4]) Vatnsdæla, kap. 10.; sbr. Eyrbyggja, kap. 3.
[5]) Landnáma IV. kap. 7., bls. 258 og 334.

skyldi um Harald Gormsson Dana konung níðvísu fyrir nef hvert á landinu; það eru víst einsdæmi, að slíkt hafi verið í lög tekið. Haraldur Gormsson safnaði þá liði og ætlaði að sigla til Íslands, til þess að hefna níðsins, en ekki varð af leiðangri þessum, og er það víst sönnust sögn um það, að kunnugir menn löttu hann fararinnar, og kváðu, eins og satt var, hafið ófært langskipum, »ok er Haraldr konungr varð þessa var, þá þóttist hann skilja, at þetta var hin mesta ófæra, ok ekki mátti þessu til leiðar koma«.[1] Þjóðsagan segir, að konungr hafi sent fjölkunnugan mann til Íslands, og fór hann í hvalslíki kring um landið. En er hann kom til landsins, þá fór hann vestur fyrir norðan landið; hann sá, að fjöll öll og hólar voru fullir af landvættum, stórum og smáum; en er hann ætlaði að ganga á land í Vopnafirði, þá fór ofan úr dalnum dreki mikill, og með honum ormar margir, pöddur og eðlur, og blésu eitri á hann; varð hann þar að snúa frá, og ætlaði síðan inn á Eyjafjörð, en þar kom á móti honum fugl svo mikill, að vængirnir tóku út fjöllin tveggja vegna, og fylgdu honum fjölda margir aðrir fuglar stórir og smáir; fór hann síðan vestur um land; en á Breiðafirði kom á móti honum griðungur mikill, og óð á sæinn út, og tók að gella ógurlega; fjöldi landvætta fylgdi honum; þaðan fór hann brott og suður fyrir Reykjanes, og ætlaði að ganga upp á Víkarskeiði, en þar kom á móti honum bergrisi og hafði járnstaf í hendi, og bar höfuðið hærra en fjöllin, og margir aðrir jötnar með honum. Síðan fór hann austur með öllu landi, og sá þar ekkert nema sanda og öræfi og brim mikið fyrir utan, sneri hann þá við svobúið heim til Danmerkur og sagði konungi frá ferðum sínum.[2]

Strendur landsins byggðust fyrst, en smátt og smátt færðist byggðin upp eptir landinu upp til dala; öræfi og

[1]) Knytlingasaga kap. 3. Fornmannasögur XI., bls. 181-182. Árið 1288 er þess þó getið, að langskip hafi komið til Íslands. Íslenzkir annálar. Kristiania 1888, bls. 196.

[2]) Heimskringla. Útg. G. Schönings I., bls. 227-29.

afrétti kynntu menn sér litt, og þeirra er sjaldan getið í sögunum; þó hafa til forna verið margar byggðir lengra uppi í landinu en nú eru; hafa sumar síðan eyðzt af harðindum og sumar af manndauða, þegar svartidauði gekk yfir landið, en sumar af jarðeldum, öskufalli og jökulhlaupum. Eg ætla að nefna stuttlega hinar helztu eyðibyggðir uppi í landi, sem eyðzt hafa snemma. Úlfur, son Gríms ens háleyska, nam land milli Hvítár og Suðurjökla og bjó í Geitlandi; þar er nú engin byggð, og hefir hún líklega snemma eyðzt, því í hinum elzta hluta af Reykholtsmáldaga (um 1185) er talið til Reykholtskirkju »geitland meþ scoge«;[1] sagnir eru til um það, að Geitland hafi eyðzt af jarðeldum og hraun runnið yfir bæinn, gamla Reykholt. Bersi goðlaus nam fyrstur Langavatnsdal[2] og síðar varð þar töluverð byggð, en dalurinn hefir verið í eyði síðan í svartadauða eða fyrr, því 1354 á Hítardalur afrjett á Langavatnsdal.[3] Á norðurlandi hafa ýms lönd verið byggð, sem nú eru í eyði; Grenjaður Hrappsson nam t. d. land í Þeigjandadal[4] og þar varð síðan töluverð byggð, sem nú er í eyði.[5] Upp af Kelduhverfi eru margar bæjarrústir fornar, en þar er nú engin byggð. Þá er Króksdalur upp með Skjálfandafljóti; þar hefir áður verið grösugt land og ýmsir bæir, nú er þar allt upp blásið, en merki sjást þar til rústa, og fornmenjar hafa fundizt þar nokkrar.[6] Á austurlandi hafa fjölda margir bæir farið í eyði, á Möðrudalsöræfum, efst á Jökuldal, í Hrafnkelsdal, Laugarvalladal og víðar.[7] Flestar byggðir hafa þó eyðzt á Suðurlandi; upp af Hreppunum hefir til forna verið allmikil byggð, og sjást hér og hvar gamlar bæjarrústir upp eptir heiðunum fyrir austan Hvítá. Þjórsárdalur

---

1) Íslenzkt fornbréfasafn I., bls. 280 og 471.
2) Landnáma, bls. 71-72, 160.
3) Ísl. Fornbréfasafn III., bls. 84.
4) Landnáma, bls. 230.
5) Sbr. Andvari IX. 1883, bls. 22.
6) Andvari XI. 1885, bls. 77-78.
7) Andvari 1883, bls. 43-44. Safn til sögu Íslands II., bls. 454-57.

eyddist af eldgosum og sandfoki, líklega mest af Heklugosum á 14. öld. Þórsmörk fyrir norðan Eyjafjallajökul var byggð á landnámstíð; Ásbjörn Reyrketilsson og Steinfiðr bróðir hans námu þar land fyrir ofan Krossá fyrir austan Fljót. Ásbjörn helgaði landnám sitt Þór og kallaði Þórsmörk,[1] þar er getið ýmsra bæja; sagt er að byggð hafi eyðzt þar á 14. öld, að sumra máli af eldgosum.[2] Auk þess hafa mörg önnur héruð næst sjó eyðzt af eldgosum og jökulhlaupum. Katla hefir eytt Dynskógahverfi, Nautadölum og Lágeyjarhverfi; byggðarlagið Skjaldbreið fyrir suðaustan Síðu segja menn hafi eyðzt á 14. öld, og við hlaupin miklu úr Öræfajökli á 14. öld, eyddist Litlahérað og Ingólfshöfðahverfi.[3]

Óbyggðir á hinu innra hálendi Íslands voru seint kannaðar og lítið er þeirra getið í elztu sögunum, af því þær svo sjaldan snerta viðburði, sem í frásögur eru færðir. Ein hin elzta frásögn um ferðir í öræfum Íslands er sögnin um Gnúpa-Bárð, og er hún nokkuð forneskjuleg. Bárður var líklega einn af þeim fyrstu, er nam land í Þingeyjarþingi; Guðbrandur Vigfússon heldur, að hann hafi verið fæddur um 840, og komið út hingað, þegar hann var hniginn á efra aldur. Bárður nam Bárðardal allan upp frá Kálfborgará og Eyjardalsá og bjó að Lundabrekku; hann markaði þar af veðrum, að landviðri voru betri en hafviðri, og ætlaði af því betri lönd fyrir sunnan heiði; »hann sendi sonu sína suðr um gói; þá fundu þeir góibeitla ok annan gróðr; en annat vár eptir, þá gerði Bárðr kjálka hverju kykvendi, því er gengt var, ok lét hvat draga sitt fóðr ok fjárhlut; hann fór Vonarskarð, þar er síðan heitir Bárðargata; hann nam síðan Fljótshverfi, ok bjó at Gnúpum; þá var hann kallaðr Gnúpa-Bárðr.«[4] Þetta var snemma á landnámstíð líklega fyrir

[1]) Landnáma, bls. 280.

[2]) *Eggert Ólafsson:* Reise igjennem Island II., bls. 765.

[3]) Sbr. *Th. Thoroddsen:* Oversigt over de islandske Vulkaners Historie. Kbh. 1882, bls. 26-27, 38, 47-48 og víðar.

[4]) **Landnáma III. cap. 18., bls. 225-226.**

900. Skarðið milli Tungnafellsjökuls og Vatnajökuls er kallað Vonarskarð. Fram á þessa öld vissi almenningur ekkert um þetta skarð; Pétur Brynjólfsson, sem fór Vatnajökulsveg 1794, og Pétur Pétursson frá Hákonarstöðum, sem fór sömu leið um 1830, sáu báðir í op skarðsins, en héldu að þar væri að eins lægð í jökulinn; Sveinn Pálsson er hinn fyrsti, sem getur þess til, að Tungnafellsjökull, sem hann kallar Blágnýpujökul, sé frálaus og að skarðið muni vera Vonarskarð, er Bárður fór. Björn Gunnlaugsson og Sigurður Gunnarsson fóru fyrstir gegn um skarðið 4. ágúst 1839. Sé nú þetta skarð hið sama Vonarskarð, er Bárður fór, þá hefir hann farið hérumbil beina leið upp með Skjálfandafljóti að austan, svo um Vonarskarð, suður með jökli og niður með Hverfisfljóti; og í Fljótshverfi, þó er það næsta ótrúlegt, að hann hafi getað komizt þessa leið, eptir því sem til hagar á þessu svæði.[1]

Það sést líka á Hrafnkelssögu, að menn hafa snemma hætt sér á öræfi til þess að stytta sér leið. Þegar Sámur á Leikskálum sótti vígsmálið á hendur Hrafnkeli freysgoða, fór hann um norðurendann á Ódáðahrauni; þetta hefir líklega verið um miðja 10. öld. Í Hrafnkelssögu[2] segir svo frá þessari ferð: »Hann fer norðr til brúar ok svá yfir brú, ok þaðan yfir Möðrudalsheiði, ok váru þeir í Möðrudal um nátt; þaðan riðu þeir til Herðibreiðstungu, ok svá fyrir ofan Bláfjöll, ok þaðan í Króksdal, ok svá suðr á Sand, ok koma ofan í Sauðafell ok þaðan á Þingvöll, ok var þá Hrafnkell ekki kominn«. Hrafnkell fór sunnanlands; í sögunni er sagt á öðrum stað, að þessi leið sé ekki almannavegur. Sámur hefir farið austan til um Sprengisand, úr því hann kemur í Sauðafell, því líklega er þetta fell, sem nefnt er, Sauðafell, hjá Köldukvísl. Sprengisandur hefir eflaust verið heldr sjaldfarinn til forna og hvergi er hann nefndur því nafni í sögunum, það eg veit, í Vémundarsögu[3] er Sprengi-

[1]) Andvari XVI., bls. 93-94.

[2]) Sagan af Hrafnkeli Freysgoða. Kmhöfn 1847, bls. 12 og 9.

[3]) Íslenzkar fornsögur II. 1881, bls. 25.

sandur kallaður Sandleið, en í Sturlungu eingöngu Sandur; þar er meðal annars getið um eina ferð Guðmundar góða, að hann fór upp Bárðardal, svo um Króksdal og suður Sand,[1] 1242 reið Þórður kakali »norður yfir Vöðlaheiði, ok svá ina nörðri leið á Sand,[2] og í annað sinn reið hann »norðr um heiði ok upp Bleiksmýrardal, svá suðr um land ok kom niðr at Keldum».[3] Í Njálu er Sprengisandur kallaður Gásasandur.[4]

Í Landnámu eru töluverðar frásagnir um það, hvernig Kjalvegur fannst. Hrosskell hét maður; hann nam Svartárdal allan og bjó að Írarfelli; hann sendi þræl sinn Hrærek upp eptir Mælifellsdal í landaleitun suður á fjöll; hann kom til gils þess, er suður verður frá Mælifellsdal og nú heitir Hræreksgil; þar setti hann niður staf nýbirktan og eptir það hvarf hann heim aptur. Vekell hinn hamrammi bjó að Mælifelli; hann spurði ferð Hræreks; þá fór hann litlu síðar suður á fjöll í landaleitan; hann kom til hauga þeirra, er nú heita Vekelshaugar; hann skaut milli hauganna og hvarf þaðan aptur. En er þetta spurði Eiríkur í Goðdölum, sendi hann þræl sinn suður á fjöll, er hét Raunguður; fór hann í landaleitan og kom suður til Blöndukvísla og fór síðan upp með þeirri á, er fellur fyrir vestan Vínverjadal og vestur á hraunið milli Reykjavalla og Kjalar, og kom þar á mannsspor og skildi, að þau lágu sunnan að; hann hlóð þar vörðu, sem síðan var kölluð Raungaðarvarða; þaðan fór hann aptur og gaf Eiríkur honum frelsi fyrir ferð sína, og þaðan af tókust upp ferðir um fjallið milli Sunnlendinga fjórðungs og Norðlendinga. Nokkru seinna þreyttu þeir Þórir dúfunefur og Örn nokkur, sem var fjölkunnugur landshornamaður, skeið suður um Kjöl og lögðu við hundrað silfurs; Erni gekk miður og undi hann svo illa við félát sitt, að hann vildi eigi lifa lengur og fór

[1]) Sturlunga 1878. I., bls. 243.
[2] og [3]) Sturlunga II., bls. 5; I., bls. 409.
[4]) Njála cap. 148, og 149. Íslendinga sögur III. bls. 848, 853.

upp undir fjallið, er nú heitir Arnarfell, og týndi sér þar sjálfur.[1] Það hlýtur að hafa verið nokkru eptir að ferðir hófust um Kjöl, að Þorgeir hinn hvinverski hafði vetrarsetu á Hvinverjadal með 30 manns; Haraldur konungur hárfagri sendi hann til Íslands, til þess að drepa Ásgrím Öndóttsson; en það tókst þó ekki; Ásgrímur gat með brögðum komizt undan.[2] Það er auðséð á frásögnunum í Landnámu, að ferðir hafa þá verið alltíðar norður yfir Kjöl.[3] Á Sturlungaöld var Kjalvegur opt farinn og það um hávetur, og var það opt mjög örðugt, sem nærri má geta; einkum er þess getið, hve miklar mannraunir þeir urðu að þola á Kjalvegi Oddur Þórarinsson og Þórir tottur; þeir riðu fimmta dag jóla norður á fjall með 30 manna og hrepptu mestu ófærð og illviðri, dóu sumir, en mestallt liðið komst þó í Hvinverjadal og hefir þá líklega verið þar sæluhús. Tíunda dag jóla komust þeir ofan í Svartárdal og voru þá mjög dasaðir og þrekaðir af kulda.[4] Það er sagt um Árna biskup Ólafsson hinn milda († 1430), að hann hafi riðið á dag frá Skálholti á hjarni um vetur norður Kjöl að Hólum í Hjaltadal; var hann um morguninn í Skálholti við óttusöng, en kom til Hóla fyrir aptansöng, þá hringt var til Salve Regina.[5]

Stórisandur var þegar farinn í fornöld; þar fór Þor-

---

[1]) Landnáma III. kap. 6., 7. og 8., bls. 190-191, 194-195.

[2]) Landnáma III. kap. 15., bls. 217-218.

[3]) *Guðbrandur Vigfússon* segir (Safn I., bls. 253-55), að Eiríkur í Goðdölum muni sem aðrir landnámsmenn í Skagafirði hafa komið seint út hingað (910-920), en annarstaðar (Safn I., bls. 258) telur hann, að þeir Öndóttssynir hafi setzt að í Eyjafirði 900-902; þetta getur varla samrýmzt hvað við annað, úr því Eiríkur í Goðdölum var einn af þeim hinum fyrstu, sem lét rannsaka Kjalveg, áður en ferðir hófust þar milli fjórðunga, en Ásgrímur kom út á Eyrum og reið norður Kjöl, sem þá var alfaravegur.

[4]) Sturlunga saga. Oxford 1878. II., bls. 187. Sbr. Sturlunga I., bls. 166, 362, 367, 393, II., bls. 16, 79, 218 og víðar. Grettis saga, Kmh. 1859. kap. 54., bls. 123. Biskupasögur II., bls. 32, o. s. frv.

[5]) **Árbækur Espólíns II., bls. 14.**

björn öngull, þegar hann reið til alþingis eptir víg Grettis.[1] Heiðarnar norður og vestur af Langjökli voru þá mjög vel kunnar og alfaravegur um þær; það hefir, ef til vill, nokkuð aukið þekkingu manna á upplendi Íslands, að sekir skógarmenn eins og t. d. Grettir opt urðu að hafast við í óbyggðum. Margir sekir menn lögðust út til forna og allopt í sögunum er getið um illvirkja og útileguþjófa, er lifðu af sauðaþjófnaði og ránum. Í Vígastýrs sögu er t. d. getið um Fjalla-Teit, sem var að illu einu kenndur, »því hann lá á fjöllum úti og lifði hann því líkara, sem hann væri illdýri, en hann væri maðr. Teiti voru allar leiðir kunnar«. Illar fjárheimtur voru í þá daga kenndar fjallaþjófum.[2] Í Sturlungu er getið um Geir Þóroddson; hann var sonur Þórodds Grettissonar og Þórgerðar lygnu göngukonu; »hann var hinn mesti óaldarmaðr, stuldamaðr ok útileguþjófr; hann var skjótr á fæti, svá at engi hestr tók hann»; hann var síðar hengdur.[3] Eins og aldarhátturinn opt var til forna, var eðlilegt, að margir legðust út, um skemmri og lengri tíma; er opt getið um slíkt í sögunum og hefir það eflaust aukið þekkingu manna um öræfin nokkuð. Um miðjöklana sjálfa er því nær aldrei getið, en þó hafa menn þekkt nokkuð til þeirra; það sést t. d. á frásögninni um Þórisdal í Grettlu; þó er sagan um dalinn auðsjáanlega ýkt og í sama stýl eins og útilegumannasögur frá seinni tímum.

Nú höfum vér stuttlega drepið á hin helztu byggðarlög til fjalla og fjallvegi þá, sem liggja um öræfin, og sést af því glögglega, að alþýða manna hér á landi hefir þegar á 11. og 12. öld haft hér um bil sömu þekkingu á hálendi Íslands eins og menn almennt höfðu fram undir miðja þessa öld. Það var nokkurn veginn nægileg þekking til ferða og fjallleita og meira kærðu menn sig ekki um í þá daga; vísindaleg þekking var eðlilega ekki til

[1]) Grettissaga 1859. kap. 87., bls. 191.
[2]) Íslendinga sögur II., bls. 300, 302, 289.
[3]) Sturlunga I., bls. 45-46, 47.

á þeim tímum; menn færðu ekki í letur neinar lýsingar á landinu eða náttúru þess og gátu staðanna að eins, þegar þeir snertu einhverja sögulega viðburði.

## 5. Menntun fornmanna, ferðir þeirra og landaþekking.

Áður en vér förum nánar að tala um það, sem ritað hefir verið um Ísland til forna, utanlands og innan, ætlum vér að víkja nokkuð frá aðalefninu og fara nokkrum orðum um menntunina almennt á þeim tímum, og þá sérstaklega um þekkingu manna á þjóðum og löndum; ritin eru samvaxin sínum tíma og geta ekki skilizt án hans, og framsókn til fullkomnari þekkingar er bundin við ótal ytri og innri skilyrði, samgöngur og stjórnarskipun, trúarbrögð og tilbreytingar af ýmsu tagi. Einkum þarf þó mannkynið að vera komið á töluvert þroskastig, áður en þekking á löndum og íbúum þeirra er komin í rétt horf og glögglega fram sett í ritum og ræðum, því þar er margt að athuga og marga villu að varast, einkum framan af, áður en náttúruvísindin fara að skapast og menn hafa fengið glögga hugmynd um það, að náttúra og mannlíf fylgja vissum lögum. Það er því ekki undarlegt, þó landlýsingar til forna séu fremur lélegar og blandaðar hindurvitnum og hjátrú, enda kemur varla nokkurt verulegt vísindasnið á landfræði og mannfræði fyrr en á þessari öld; mega menn því ekki dæma of harðlega það sem fornt er, þó oss sýnist það æði barnalegt og ólíkt því, sem menn mundu rita og hugsa nú á nítjándu öld.

Það voru einkum tveir þjóðflokkar, sem snemma á miðöldunum urðu frömuðir þekkingar og menningar og því nær ósjálfrátt komu hreyfingu á andlegt og líkamlegt líf norðurálfumanna í ýmsum greinum; báðar þessar þjóðir voru hraustar og harðfengar og brutu undir sig lönd og þjóðir með miskunnarlausri harðneskju. Það voru Arabar að sunnan og hinir norrænu víkingar að norðan. Báðar þessar hermannaþjóðir þutu á stuttum tíma yfir mikil landflæmi og fengu meiri þekkingu á löndum og

þjóðum en nokkrir aðrir í þá daga; það gat ekki hjá því farið, að slíkar ferðir og sambland við margar þjóðir hefðu mikil andleg áhrif á jafn gáfaða menn, þegar þeir spektust og tóku til friðsamlegra starfa. Arabar höfðu fjarska mikil áhrif á vísindin, enda voru þeir betur settir, því braut þeirra lá yfir öll hin miklu menntalönd fornaldarinnar; það varð þeirra hlutverk að kenna Európu að meta vísindi fornaldarinnar og að leggja hinn fyrsta grundvöll í verklegum fræðum, náttúruvísindum og stærðfræði. Norðurlandabúar sköruðu fram úr öllum öðrum í siglingum og sjómennsku; þeir urðu kennarar í þessari grein og forfeður hinna miklu farþjóða, er nú ráða mestu í heiminum; vísindin gátu ekki orðið jafn margbrotin hér nyrðra, af því enginn grundvöllur var á að byggja, en þó spruttu hér upp í norðrinu þau sögurit, sem bera langt af öllum sams konar ritum í þá daga, í öðrum löndum Norðurálfunnar.

Bæði Arabar og Norðmenn þekktu fleiri lönd en flestar aðrar þjóðir er þá voru uppi. Arabar þekktu mikinn hluta Asíu og Afríku; upplöndin í báðum þessum álfum þekktu þeir svo vel, að menn hafa fyrst á þessari öld fengið betri þekkingu á þeim héruðum. Norðmenn þekktu allar vesturstrandir Európu, Eystrasalt og Miðjarðarhaf; þeir herjuðu allt austur í Miðjarðarhafs botna, stofnsettu ríki á Írlandi, Skotlandi, Englandi, Frakklandi, Ítalíu og Rússlandi; þeir sigldu norður fyrir Noreg austur í Hvítahaf, fundu Færeyjar og Ísland, og svo fundu Íslendingar Grænland, Helluland og Vínland, sigldu norður á Svalbarð í Hafsbotnum norðan til á austurströndu Grænlands, fóru norður á Króksfjarðarheiði vestan við Grænland, norður í Smithssundi o. s. frv. Sýna allar þessar ferðir, hve ótrúlegt þol og dugnaður hefir búið í þessum sæförum; þeir létu ekkert á sig fá, en brutust fram gegnum ísa og klungur með illan útbúnað á smáum skipum. Landaþekking hinna fornu Íslendinga hefir því auðsjáanlega náð yfir mikið svæði, þó tiltölulega lítið

sé fært í letur um ferðir þeirra og rannsóknir; frásagnirnar um löndin eru á við og dreif innan um söguritin.

Þegar landnámsmenn voru setztir að á Íslandi, var ekkert eðlilegra, en að þeir minntust á þrekvirki sín og forfeðranna, og héldu minningu afreksmannanna á lopti í kvæðum og sögum; þegar þeir lærðu að rita, settu þeir frásagnirnar í letur. Kringumstæðurnar voru framan af, eptir að kristni var lögtekin, mjög hentugar til ritstarfa; samgöngur voru tíðar; margir heldri menn voru sífellt á ferðum hér og hvar um Norðurálfuna; þá var friður og spekt í landinu á stjórnarárum hinna fyrstu biskupa og næðið nóg á vetrum til ritstarfa, því lítið glapti fyrir. Rómverska menntunin, sem hingað fluttist, varð hér áhrifameiri en nokkurstaðar annarstaðar á Norðurlöndum, og voru sérstakar ástæður til þess. Meginþorri klerkalýðsins erlendis var annaðhvort útlendur, eða runninn upp af lægri stéttum; hann tók lítinn þátt í verklegum störfum þjóðanna, og því síður í stjórnarathöfnum, löggjöf og landsmálum; klerkastéttin teygði ræturnar til Rómaborgar, og reyndi að svæla undir sig yfirráð yfir lýðum og löndum; kirkjan skipti sér ekkert af þjóðlegum málum nema til eigin hagsmuna; hún var andstæð og fjandsamleg öllu því, sem minnti á forna frægð, og innlendar sögur og kappakvæði voru syndsamleg; endurminning um fornan átrúnað, hernað og vígaferli, varð að upprætast, svo kirkjan gæti risið hrein og fáguð á nýjum og endurbættum grundvelli. Hér á Íslandi var allt öðru máli að gegna framan af; kristnin hafði alls ekki fest neinar verulegar rætur í landinu, áður en hún var lögtekin; menn tóku hinn nýja sið eingöngu af pólitiskum ástæðum, til þess ekki yrði óöld og illdeilur í landinu; þeir höfðingjar, sem verið höfðu mestir framkvæmdamenn í stjórn landsins, tóku sjálfir að sér kirkjustjórnina, lærðu latínu, rit, söng, grammatík og aðrar klerkamenntir, fóru í prestsskrúða og sungu messur, eins og ekkert hefði í skorizt; goðarnir urðu að prestum, og hofin að kirkjum. Í Kristnisögu stendur t. d., þar sem talað

er um kirkjustjórn Gissurar biskups: »þá voru flestir virðingamenn lærðir ok vígðir til presta, þó at höfðingjar væri«.[1] Af þessu leiddi, að mestu skörungar þjóðarinnar og framkvæmdamenn, urðu lærðir og leiknir í þeim menntum, sem klerkar þá tíðkuðu; þeir fyrirlitu ekki þá þjóð og það land, sem þeir voru í; þvert á móti, þeir voru nátengdir hinum innstu taugum þjóðlífsins, og því var það eðlilegt, að þeir notuðu hæfilegleika sína og menntun, til þess að víðfrægja ættir sínar og telja upp hreystiverk forfeðranna, sem voru eptirkomendunum til heiðurs og sóma; þó þeir kynnu latínu, þá fyrirlitu þeir ekki móðurmálið, en rituðu sína eigin tungu og voru í því fremri öllum öðrum kristnum þjóðum í Európu. Hinir fyrstu biskupar voru hinir mestu ágætismenn, og studluðu að því, sem gat orðið landinu til góðs, en þetta breyttist því miður seinna, þegar kúgunarandi páfakirkjunnar var runninn hingað og búinn að festa rætur.

Það lagði hinn fyrsta grundvöll til gullaldarinnar í íslenzkum bókmenntum, að göfugustu ok mestu framkvæmdamenn landsins voru lærðir, en að fræðalystin jókst og hélzt, var mjög mikið að þakka hinu fjöruga ferðalífi. Ferðalöngunin var þjóðinni innrætt síðan á víkingaöldinni; enginn þótti sá maður með mönnum, sem ekki hafði í ungdæmi sínu verið í förum, heimsótt konunga og stórmenni og barizt í útlöndum sér til fjár og frama. Framan af áttu margir Íslendingar hafskip og stýrðu þeim sjálfir. Þegar t. d. Þangbrandur kom frá Íslandi og sagði Ólafi konungi Tryggvasyni frá árangrinum af Íslandsferðinni, þá varð konungur svo reiður, að hann lét taka íslenzka menn í Niðarósi höndum og hótaði þeim drápi og meiðslum, en lét ræna suma; þá er sagt, að þar hafi verið margir íslenzkir höfðingjasynir og stýrði hver sínu skipi.[2] Opt er getið um fjölda Íslendinga í Niðarósi; á dögum Magnúsar berfætta voru eitt sinn 300 Íslendingar

[1]) Biskupasögur I., bls. 29

[2]) Fornmannasögur II., bls. 206.

staddir í Niðarósi, enda voru Íslendingar fram eptir öllu með annan fótinn í Noregi, eins og sést í hverri sögu; þar áttu þeir ættingja og vini og stóðu í nánu sambandi við þá; margir voru af stórum ættum og jafnvel skyldir og tengdir konungum; Gissur hvíti og Ólafur Tryggvason voru t. d. þremenningar, og í þann tíma voru margir aðrir frændur Ólafs konungs á Íslandi;[1] móðir Jóns Loptssonar var Þóra dóttir Magnúsar konungs berfætts, og því var Páli Jónssyni svo mætavel tekið í Noregi, er hann kom þar til vígslu; »allir virðu hann mikils, sem von var at, ok hans frændr voru allir, þeir er göfgastir voru í landinu«.[2] Margir höfðingjar norskir voru góðir við Íslendinga; það er t. d. sagt um Gregorius Dagsson: »þat var almæli, at hann væri höfuð lendra manna í Noregi, í þeirra manna minnum, er þá voru uppi, ok verit bezt við Íslendinga, síðan Eysteinn konungr Magnússon andaðist«.[3] Miklu seinna (1407) er sagt um Erlend Filippusson, er þá var einna mestur höfðingi af bændum í Noregi, að »hann trúði betr Íslendingum en öðrum norrænum mönnum og hafði þá jafnan í þjónustu sinni«.[4] Svo mætti telja fleiri dæmi þessu lík. Í Niðarósi var stöðug Íslendingabyggð og sumir áttu þar eignir. Opt var þó Íslendingum örðugur fjárhagurinn erlendis, jafnvel þó tignir væru og ættstórir; skotsilfur hefir jafnan verið lítið á Íslandi og ekki var allt af hægt að gjöra sér peninga úr vaðmálum og öðrum íslenzkum varningi.[5] Þegar Sturla Þórðarson fór utan 1263, hafði hann »nær ekki fé«.[6] Þorgils skarði var ekki peningaríkur í Noregi og var illt til fjár;[7] sama er

[1]) Fornmannasögur II., bls. 62.

[2]) Biskupasögur I., bls. 130.

[3]) Fornmannasögur VII., bls. 273.

[4]) Lögmannsannáll. Isl. ann. 1888, bls. 289.

[5]) 1282 biður Martinus páfi IV. Jón erkibiskup að koma tíundum af Íslandi, Færeyjum og Grænlandi í peninga, því nautshúðir, selskinn, rostungstennur og hvalseymi sé ekki hentugur gjaldeyrir fyrir páfastólinn. Dipl. island. II., bls. 235-37.

[6]) Sturlunga II., bls. 269, 270.

[7]) Sturlunga II., bls. 110-111.

sagt um Gissur Þorvaldsson,[1] og Þórður kakali var eitt sinn orðinn svo penningalaus, að hann varð að selja allt er laust var og að endingu »setti hann út hinn eina grip sem hann átti, þann er fé tók; þat var skarlatsskikkja fóðruð hvítum skinnum«; Þórður var nú reyndar ekki mikill reglumaður, en sat optast á skytningi á kvöldin og barðist við drykkjunauta sína með hornum og skriðljósum.[2] Árni biskup Þorláksson komst líka í fjárklípu í Noregi, eptir því sem ráða má af sögu hans. »Herra Jörundr erkibiskup bauð þá Árna biskupi blíðlega á sinn kost; er hann þann vetr með honum ok fram á sumar, til þess er honum komu penningar«.[3]

Þó nú Íslendingar væri upprunnir frá Noregi og ætti þar svo marga vini og venslamenn, þá skoðuðu þeir sig samt sem sérstaka þjóð og hjálpuðu hver öðrum, af því þeir voru samlandar; þessa eru nokkur dæmi í sögunum, eins og t. d. er Gísl Íslendingur vá Gjafvald, hirðmann Magnúsar konungs Ólafssonar, en Íslendingar hjálpuðu honum allir, þeir er þar voru, hjuggu hann úr fjötrum, og skeyttu eigi um reiði konungs.[4] Það ber og við að Íslendingum þykir minnkun að því, að láta útlendinga sjá, að þeir eigist illt við erlendis, eins og sjá má t. d. í Eyrbyggju, þar sem Þorleifur kimbi segir við Arnbjörn, er Arnbjörn laust hann með heitri grautarsleif: »Eigi skulu Norðmenn at því hlægja, með því vér erum komnir hér tveir samlendir, at þeir þurfi at draga okkur í sundr sem hunda, en minnast skal þessa, þá við erum á Íslandi«.[5] Íslendingar taka það fram, að þeir séu íslenzkir, en eigi norrænir, eins og t. d. Hjalti Skeggjason, er hann sagði við Björn stallara og Ingibjörgu Tryggvadóttur: »ek em ekki norrænn maðr, en ek hefi spurt, at með Svíakonungi eru íslenzkir menn, kunn-

---

[1]) Sturlunga II., bls. 100.
[2]) Biskupasögur I., bls. 635-36, Sturlunga II., bls. 343-45.
[3]) Biskupasögur I., bls. 785.
[4]) Biskupasögur I., bls. 221. Fornmannasögur VII., bls. 30-40.
[5]) Eyrbyggja. kap. 39.

ingjar mínir«.[1] Hins vegar sést þó, að menn hafa á Íslandi álitið þá af sömu þjóð, er töluðu norræna tungu; þessvegna stendur í Grágás: »þann mann scal eigi í dóm nefna, er eigi hefir mál numit í barnæsku á danska tungu, áðr hann hefir iij vetr verit á Íslandi eþa lengr«.[2]

Sumir Íslendingar fóru eins og kunnugt er til annara konunga en Noregskonunga, færðu þeim drápur og þágu verðlaun fyrir; sumir gengu á mála í Miklagarði, sumir fóru austur í Garðaríki eða lögðust í víking og kynntust þá mörgum þjóðum og löndum. Hér tek eg að eins fáein dæmi, sem flest eru alkunn. Egill Skallagrímsson og Þórólfur herjuðu um Austurveg og gerðu strandhögg á Kúrlandi, sigldu kring um Danmörku, niður með Fríslandi og suður með Saxlandi og Flæmingjalandi og svo til Englands; þar létu þeir prímsignast og gengu á mála hjá Aðalsteini Englakonungi með 300 manna.[3] Gunnlaugur ormstunga fer frá Noregi til Aðalráðs konungs á Englandi, þaðan til Sigtryggs konungs í Dyflinni, svo til Sigurðar jarls Hlöðverssonar í Orkneyjum, þaðan til Konungahellu og upp í Vestragautland til Sigurðar jarls í Skörum, svo til Ólafs konungs í Eiríkssonar í Uppsölum, svo aptur til Aðalráðs konungs á Englandi, svo til Þrándheims og svo heim til Íslands með Hallfreði vandræðaskáldi.[4] Gunnar á Hlíðarenda fór í hernað með Kolskeggi og Hallvarði hvíta og herjuðu þeir um Austurveg og sigldu þaðan með tíu skipum til Heiðabæjar til þess að hitta Harald Gormsson; síðan fór Gunnar norður til Þrándheims á fund Hákonar jarls.[5] Kolskeggur fór seinna úr Noregi til Danmerkur

---

[1]) Fornmannasögur IV., bls. 133-34.

[2]) Grágás. Útg. V. Finsen. Kmh. 1852. Þingskapaþáttur 20., bls. 38.

[3]) Sagan af Agli Skallagrímssyni. Reykjavík 1856. kap. 46.-50., bls. 89-102.

[4]) Gunnlaugssaga ormstungu. kap. 6.-10. Íslendingasögur 1847. II., bls. 221-243.

[5]) Njála. Kmh. 1772. kap. 28.-31.

til Sveins konungs tjúguskeggs og tók þar skírn, fór svo austur í Garðaríki og var þar einn vetur; þá fór hann þaðan út í Miklagarð og gekk þar á mála; spurðist það síðast til hans, að hann kvongaðist þar og varð höfðingi fyrir Væringja-liði og var þar til dauðadags.[1] Helgi og og Grímur Njáls synir voru hirðmenn Sigurðar jarls í Orkneyjum, og voru í herferðum á Skotlandi og Mön.[2] Björn Breiðvíkingakappi fór suður til Danmerkur og þaðan suður til Vindlands til Jómsborgar; þá var Pálnatóki fyrir Jómsvíkingam. Björn gekk í lög þeirra og var þar kappi kallaður.[3] Þorvaldur víðförli var sem kunnugt er í bardögum með Sveini konungi tjúguskegg á Bretlandi, fór síðan með Friðreki biskupi heim til Íslands, til þess að boða kristni, og fór síðan um mestalla Evrópu og austur til Jórsala og Miklagarðs og síðan til Garðaríkis, stofnsetti þar klaustur og dó þar.[4] Hörður Grímkelsson var 15 vetur utan í einu og hafði orðið gott til fjár og virðinga; hann átti gautlenzka jarlsdóttur.[5] Bolli Bollason sagði við Ólaf konung, að það hefði verið ætlun sín, er hann fór af Íslandi, að eigi skyldi til hans spyrjast í næsta húsi; fór hann síðan austur í Miklagarð og kom sér í »Væringjasetu« og var þar mörg ár. Þegar Bolli kom aptur heim til Íslands úr utanförinni, var hann svo mikill skartsmaður, að hann vildi engin klæði bera nema skarlatsklæði og pellsklæði og öll voru vopn hans gullbúin.[6] Í Hrafnkelssögu er getið um Þorkel Þjóstarsson, sem hafði verið sjö ár utan og verið í Miklagarði og var handgenginn Garðskonungi.[7] Þorsteinn sonur Vígastyrs elti Gest Þórhallason alla leið suður í Miklagarð;[8] hið sama

1) Njála. kap. 82.
2) Njála. kap. 86.-87.
3) Eyrbyggja. Leipzig 1864. kap. 29., bls. 52.
4) Biskupasögur I., bls. 25, 48-49.
5) Íslendingasögur II., 60, 118.
6) Laxdæla. kap. 73. og 77.
7) Hrafnkelssaga. Kbh. 1847, bls. 18.
8) Íslendingasögur II., bls. 304.

er sagt um Þorstein drómund, að hann hafi elt Þorbjörn öngul til Miklagarðs og hefnt þar Grettis.[1] Í sögu Magnúsar berfætts er getið um íslenzkan mann, er Eldjárn hét; hann var þá nýkominn utan af Miklagarði.[2] Þegar Haraldur harðráði var í Miklagarði, var Halldór Snorrason með honum í herferðum til Sikileyjar og víðar; þar var þá íslenzkur maður sveitarhöfðingi meðal Væringja, Márr Húnröðarson.[3] Víga-Barði var á mála með Væringjum og féll þar,[4] og enn fleiri Íslendingar voru þar eystra. Sumir Íslendingar fóru norður á bóginn til Finnlands og Bjarmalands og sumir til Hólmgarðs, eins og t. d. Skinna-Björn Hólmgarðsfari.[5] Höfðingjasynir íslenzkir voru á sífelldu ferðalagi víðs vegar um lönd og er þess getið í hverri sögu og væri nóg efni í stóra ritgjörð að rekja það út í æsar, en hjer er þess ekki þörf. Á ferðum sínum til Grænlands og Ameríku sýndu Íslendingar hið mesta þrek og þol; og um verzlunarferðir margra Íslendinga til annara landa er opt talað í sögunum. Um lok 12. aldar eru aðkomumenn frá Íslandi jafnvel nefndir í bæjarrétti Slésvíkur,[6] og meðal útlendinga, er komi til Bergen, eru Íslendingar í fornu riti[7] líka nefndir, sem eðlilegt er.

Eptir að kristni var lögtekin á Íslandi, minnkuðu ekki utanferðir fyrir það; þá urðu suðurgöngur mjög tíðar; stundum þurftu menn að reka erindi sín í Rómaborg, stundum hétu menn að ganga suður sér til sáluhjálpar. Suðurferða er getið í flestum sögum; slíkar ferðir voru mjög örðugar í þá daga, og opt bar það við, að menn létust á leiðinni. Í þá daga gátu fátitlir pílagrímar hingað og þangað á leiðinni ókeypis fengið gistingu og beina

---

[1]) Grettissaga. Kbh. 1859. kap. 88.-89., bls. 193-94.
[2]) Fornmannasögur VII., bls. 59.
[3]) Fornmannasögur VI., bls. 135, 356.
[4]) Íslendingasögur II., bls. 394.
[5]) Landnáma III., kap. 1. Ísl.sög. I., bls. 169.
[6]) *E. Baasch:* Islandsfahrt der Deutschen. Hamburg 1889, bls. 2.
[7]) *Langenbeck:* Scriptores rer. Dan. V., 353.

í klaustrum og spítölum, er lágu við þjóðbraut, og hefir það eflaust hjálpað mörgum áfram. Í þá daga kunnu allir lærðir menn latínu og var það töluverður hægðarauki fyrir pílagríma, að geta gert sig skiljanlega fyrir lærðum mönnum í löndunum, er þeir fóru yfir, því fáir hafa verið líkir Halli Teitssyni biskupsefni, sem »mælti alstaðar þeirra máli, sem hann væri alstaðar þar barnfæddr, sem þá kom hann«.[1] Á Rínarhólma nálægt því, er fljótið fellur úr Bodenvatni, var stofnað klaustur á dögum Karlamagnúsar; þar hét Reichenau; klaustrið gjörðist auðugt og munkarnir tóku með mikilli gestrisni móti pílagrímum, er suður gengu og veittu þeim beina og hjúkrun; snemma á 9. öld tóku munkarnir upp þann sið, að rita í bók nöfn allra þeirra pílagríma, er þar gistu og héldu þessum vana fram um alla 9., 10. og 11. öld; bók þessi er enn þá til og á henni eru meðal annars talin nöfn 39 suðurgöngumanna frá Íslandi (Hislant terra).[2] Sést á þessu, hve suðurgöngur hafa verið tíðar frá Íslandi í þá daga, því víða lágu leiðir um til Rómaborgar annarstaðar en þar; hvergi í íslenzkum sögum er getið um Reichenau og ekki þekkjast nein af nöfnunum, nema ef vera skyldi eitt, enda hafa sjálfsagt margir fleiri farið suður en getið er um í sögum og annálum. Sumir Íslendingar rituðu ferðasögur, eins og t. d. Gissur Hallsson. Um hann segir svo í Sturlungu:[3] »hann var bæði vitr og málsnjallr; hann var stallari Sigurðar konungs, föður Sverris konungs. Hann var ok hinn bezti klerkr,[4] þeirra er hjer á landi hefir verit. Opt fór hann af landi í brott; ok var betur metinn í Róma, en nokkurr annarr íslenzkr maðr

[1]) Biskupasögur I., bls. 80.

[2]) *Jacob Grimm:* Om oldnordiske Egennavne i en i Reichenau skreven Necrolog fra det 9. og 10. Aarhundrede. Antiquarisk Tidsskrift 1843-45, bls. 67-75; sbr. Íslenzkt fornbréfasafn I., bls. 170-172.

[3]) Sturlunga. Oxford 1878. I., bls. 206.

[4]) Góðir klerkar voru þeir kallaðir, sem voru vel lærðir, þó ekki væru þeir prestvígðir. Í Rómverjasögum er t. d. sagt um Lúcius Sulla: »Lucius var góðr klerkr bæði á latínu ok á girzku«. Sýnisbók Konráðs Gíslasonar. Kmh. 1860, bls. 149.

hafði verit fyrir hann, af mennt sinni og framkvæmd. Hónum var víða kunnigt um Suðr-löndin. Ok þar af gjörði hann bók þá, er heitir Flos Peregrinationis«. Þessi bók er nú fyrir löngu týnd. Gissur Hallsson var mikill höfðingi og hinn mesti fróðleiks- og gleðimaður; Sæmundur Jónsson, bróðir Páls biskups, sagði um hann, að hann væri »hrókr alls fagnaðar, hvárgi er hann var staddr«.[1] Nikulás ábóti († 1158) ritaði »leiðarvísir ok borgaskipun« og segir þar frá því, hverja vegi og hverjar dagleiðir skuli fara suður til Rómar og svo út til Jórsalalands, og er það rit enn þá til.[2] Það sést bezt á sögu Páls biskups, hve tíðar utanferðir klerka hafa verið í þá daga. Páll biskup ljet telja kirkjur og klerka í sínu biskupsdæmi, sökum þess, »at hann vildi leyfa utanferðir prestum, ef ærnir væri eptir í hans sýslu; en hann vildi ok fyrir sjá, ef svá félli, at eigi væri prestafátt í hans sýslu, meðan hann væri biskup«.[3] Sumir pílagrímar fóru gangandi suður til Rómaborgar með staf og skreppu; Þorvaldur frá Vatnsfirði gekk suður og var þrjú ár í ferðinni;[4] sumir riðu og voru þá fljótari, t. d. Órækja; hann fann á suðurferð sinni Valdimar konung hinn gamla og gaf konungur honum hest þann, er hann reið suður og sunnan.[5] Sturla Sighvatsson fór til Noregs, þaðan til Danmerkur og svo suður; Valdimar konungur gaf honum líka hest. »Sturla tók stórar skriptir í Rómaborg ok var leiddr milli kirknanna allra í Rómaborg ok ráðið fyrir flestum höfuðkirkjum; bar hann þat drengilega, sem líklegt var, en flest fólk stóð úti ok undraðist, barði á brjóstit ok harmaði, er svá fríðr maðr var svá hörmulega leikinn ok mátti ekki vatni

---

[1]) Biskupasögur I., bls. 137. Sbr. Safn til sögu Íslands II., bls. 26.

[2]) *E. Chr. Werlauff:* Symbolæ ad geographiam medii ævi ex monumentis Islandicis. Hauniæ 1821. 4to.

[3]) Biskupasögur I., bls. 136.

[4]) Biskupasögur I., bls. 676.

[5]) **Sturlunga I., bls. 346.**

halda bæði konur ok karlar«.[1] Kýmileg er ferðasaga Ketils prests, sem var sendisveinn Guðmundar biskups Arasonar. Ketill var fátækur og lítt lærður, en kom þó fram erindi sínu í Rómaborg fyrir sérstaka heppni; hann fór gangandi suður og sunnan, og er hann hafði fengið páfabrjefið, segir sagan, að prestur hafi orðið fegnari en frá megi segja; »leggr land undir fót, ok hleypr svá norðr eptir löndum, at á tuttugasta degi ok þrettánda kemur hann í sjátún aptr í Rauðstokk; gengr þar þegar í kugg, er albúinn liggr fyrir bænum; fá þeir hraðbyri til Björgynjar«.[2] Menn fóru í þá daga tvær aðalleiðir til Rómaborgar; hina vestri leið fór Kári Sölmundarson frá Normandí yfir Frakkland og svo sjóleið, en Flosi fór heim frá Róm hina eystri leið um Þýzkaland og var hún tíðfarnari; þeirri leið lýsir Nikulás ábóti. Suðurferðir Íslendinga voru mjög tíðar all-langt fram eptir öldum; er þeirra mjög opt getið í Sturlungu og í mörgum öðrum sögum og annálum; yrði það allt of langt mál að segja frá suðurferðunum hér, þó eigi væri nema í ágripi; langmestar voru suðurferðirnar á 13. öldinni, en á annálum sést þó, að all-margir prestar og nokkrir leikmenn hafa gengið suður á 14. öldinni; síra Einar Hafliðason, er ritað hefir Lögmannsannál, gekk suður 1345 og kom til páfagarðs í Avignon og var þar 9 nætur; fór svo um Frankaríki fram og aptur og var í París um nokkurn tíma, og var í ferðinni rúmt ár.[3] Snorri Ketilsson andaðist á suðurvegum 1347; 1391 komu út Björn Einarsson, Þórður Sigmundarson, Þórður Árnason og síra Halldór; og höfðu allir gengið til Róms; árið eptir kom út Árni Einarsson, er hafði gengið suður,[4] o. s. frv. Á 15. öld fer mjög mikið að minnka um suðurferðir; þá hafa ekki farið nema stöku menn á strjálingi, einkum framan af öldinni; t. d. Björn Einarsson í þriðja sinn 1406, Árni biskup Ólafsson 1418,

[1]) Sturlunga I., bls. 318. Biskupasögur II., bls. 149.
[2]) Biskupasögur II., bls. 122-124.
[3]) Íslenzkir annálar 1888, bls. 274.
[4]) Íslenzkir annálar, bls. 403, 418.

eignuð er Fernando syni hans,[1] er frásögnin um ferð Columbusar til Thule, eptir því sem hann sjálfur á að hafa ritað; þar segir svo: »Eg sigldi árið 1477 í febrúarmánuði meir en 100 mílur (leghe) hinn megin við eyna Tile; suðurendi hennar er 73 stig frá miðjarðarlínu, en ekki 63 stig eins og sumir ætla; hún liggur ekki innan þeirrar línu, sem takmarkar vestrið hjá Ptolemeusi, en miklu vestar. Til þessarar eyjar, sem er jafnstór eins og England, koma Englendingar með vörur sínar, einkum frá Bristol. Á þeim tíma, sem eg fór þangað, var sjórinn ekki frosinn; sjórinn rís þar sumstaðar 26 faðma (braccia) og fellur jafnmikið aptur«. Þessi frásögn er að mörgu leyti undarleg. Columbus segist hafa siglt hinu megin við Tile, sem sjálfsagt á að vera Ísland, 100 mílur til norðurs í febrúarmánuði(!); hann hefir þá með öðrum orðum komizt lengst norður í Hafsbotna, norður með Grænlandi við Franz-Jósepsfjörð, eða upp undir Spitzbergen, og það um hávetur. Columbus færir Ísland norður á 73° n. br.; það liggur, eins og alkunnugt er, milli 63½° og 66½° n. br. Frásögnin um hæð flóðbylgjunnar hjá Íslandi nær engri átt; hún sýnist vera löguð eptir gömlu Pyþeasar sögunni; þó nú þessi frásögn sé svo merkilega ruglingsleg, þá gæti þó vel hugsazt, að Columbus hafi komið til Íslands, þó bréfið eiginlega alls ekki sanni neitt

---

[1]) Bókin heitir: »Historie del S. D. Fernando Colombo nelle quali s'han particolare et vera relatione della vita et de fatti dell' Ammiraglio D. Christoforo Colombo suo padre etc. Nuovamente di langua spagnuola tradotte nell' italiana dal S. Alfonso Ulloa. Venezia 1571«. cap. IV. Frumritið spænska hefir aldrei fundizt. Eptir nýustu rannsóknum er það óhugsanlegt, að Fernando hafi ritað þessa bók, eins og hún liggur fyrir; en þó eru miklar líkur til, að sumir kaflar séu eptir hann; hefir einhver annar mjög ófróður náð í ritbrotin, skeytt þau saman og aukið við alls konar skröksögum, sem eru þvert ofan í önnur rit Fernandos. Sbr. *H. Weitemeyer*: Fernando Colon og hans Historie. Geogr. Tidsskrift X. 1889, bls. 29-41. Fernando var launsonur Columbusar (f. 1488, d. 1539); hann var mesti fræðimaður og merkismaður.

um það; að hann hafi komið hér á höfn eða á land;[1] þar segir að eins, að hann hafi siglt hundrað mílur hinu megin við Tile (oltra Tile isola); það væri þá ekki ólíklegt, að Columbus annaðhvort hafi verið á fiskiveiðum, eins og Gustav Storm talar um,[2] eða hann hefir hrakizt á ensku skipi norður til Íslands og norður fyrir Ísland; tíminn (febrúarmánuður) sýnist helzt benda til þess, því það er mjög undarlegt, að Englendingar skyldu fara af frjálsum vilja kaupferð eða fiskiferð til Íslands í febrúarmánuði; þessi ferð hefir þá orðið að vera alveg sérstakleg aukaferð, því hinar sífelldu kvartanir Íslendinga yfir vetrarsetu kaupmanna á 15. og 16. öldinni sýna, að kaupmönnum hefir ekki verið mikið um ferðalög á vetrum.[3]

Það hefir verið mikið ritað og rætt um það, hvort Columbus hafi á Íslandi fengið nokkra vitneskju um vesturferðir Íslendinga til Vínlands hins góða. Finnur Magnússon hefir fyrstur ritað um þetta mál og byggir háa loptkastala á frásögninni um ferð Columbusar til Tile. Það er reyndar ekki alveg óhugsanlegt, að Columbus *geti* hafa fengið einhverjar fregnir um ferðir Íslendinga til Grænlands og Vínlands, en vér höfum ekki hina minnstu *vissu* fyrir því, að svo hafi verið; eptir því, sem menn nú vita, sýnist allt vera á móti þessari skoðun, en lítið eða ekkert henni til sönnunar. Fyrst og fremst er það engvan veginn víst, að Columbus hafi nokkurn tíma komið hér á land, og það ætti að vera nóg, til að fæla menn

---

[1]) Í dagbók þeirri, er Colnmbus reit á fyrstu ferð sinni til Ameriku, sem enn er til, segir hann: »Eg hefi siglt um allt Miðjarðarhafið; til norðurs hefi jeg farið allt norður til Englands og til suðurs allt suðnr í Guinea«. Hér er Íslands alls ekki getið. Sbr. *S. Ruge*: Zur 400jährigen Jubelfeier der Entdeckung einer neuen Welt (Globus Bd. 61. Braunschweig 1892, bls. 5). Þetta sýnist benda til þess, að frásögnin um Íslandsferðina sé eintómur tilbúningur, eins og svo margt annað í bókinni: »Historie del Fernando Colombo« o. s. frv.

[2]) Aarböger for nordisk Oldkyndighed 1887, bls. 370.

[3]) Sbr. *M. Ketilsson*: Forordninger I., bls. 66, 80, 248. Lovsaml. for Island I., bls. 37-38, 41-43.

frá að byggja mikið á slíkum grundvelli. Finnur Magnússon heldur, að Columbus ef til vill hafi komið í Hvalfjörð;[1] en sama ár kom Magnús biskup Eyjólfsson þangað á vísitaziuferð; nú heldur Finnur, að það geti verið, að þeir Columbus hafi talazt við, og að Magnús biskup hafi sagt Columbusi frá ferðum hinna fornu Íslendinga. Allar þessar getgátur eru eingöngu byggðar á klausunni um Tileferðina, sem vér höfum lagt út hér á undan; það er fljótséð, hvað mikið þær hafa við að styðjast, þegar menn vita ekki einu sinni með fullri vissu, hvort Columbus hefir komið inn á nokkra höfn, og ef hann hefir komið að landi, á hvaða höfn hann þá hefir komið; svo er heldur ekki víst, hvort Magnús biskup hefir vitað nokkuð um Vínlandsferðirnar, þó hann hefði áður verið ábóti á Helgafelli; auk þess er efamál, hvort þeir hafi hitzt, þó nú báðir hefðu verið staddir á sama tíma í Hvalfirði, sem heldur ekki er víst. Það hefði líka verið mjög merkilegt, hefði Columbus farið að spyrja biskup norður á Íslandi um veg til Indlands, því hann hugsaði aldrei um annað en Indland, og dó með þeirri sannfæringu, að hann hefði fundið Indland; hann hefði þá áður orðið að fá einhverja fregn um ferðir Íslendinga til Vínlands. Þó nú Columbus hafi, sem ólíklegt er, fengið einhverjar fregnir um ferðir Íslendinga, þá hefir það ekki haft nein áhrif á stefnu hans, er hann hélt frá Spáni suður og vestur í haf. Það er því auðséð, að það er ekki hægt að byggja neina vísindalega rannsókn á þeim málgögnum, sem vér nú höfum, enda væri það tilgangslaust að eltast við slíkt, þegar maður verður að vaða reyk og þoku. Þó það nú fyndist, að Columbus hefði fengið fregn um fund Vínlands á Íslandi, þá verður hvorki heiður hans né Íslendinga meiri eða minni fyrir það; það verður aldrei tekið frá Leifi Eiríkssyni, að hann fyrstur allra Európumanna kom til Ameríku, og það dettur heldur engum í hug að efast

[1]) Om de Engelskes Handel paa Island. Nordisk Tidskr. for Oldkyndighed II., bls. 129.

um, að Columbus hafi fundið Ameríku 1492; og hefði Columbus ekki fundið hinn nýja heim, þá hefði Cabral fundið hann nokkrum árum seinna. Þegar er verið að ræða um, hverja þýðingu fundur Ameríku hefir haft fyrir mannkynið, þá verða allir að játa, að ferð Columbusar, hvernig svo sem á henni stendur, er hinn merkilegasti viðburður í mannkynssögunni; þó nú ferðir Íslendinga til Vínlands séu stórkostlegt minnismerki um þrek þeirra og dugnað, þá er þó ekki því að leyna, að landafundir fornmanna höfðu því nær engin áhrif á menningarstefnu heimsins, enda var það eðlilegt eptir kringumstæðunum; ástandi Norðurlanda var svo varið á 11. öld, að uppgötvun Leifs ekki gat orðið að notum; tímans fylling var enn þá ekki komin.

Af ritum þeim, sem liggja eptir Columbus, má sjá nokkurn veginn vel, hvað það var sem hvatti hann til að leita Indlands vestur um haf. Hann segir sjálfur, að rit *Pierre d' Ailly* (Petrus de Alliaco) kardínála hafi haft mest áhrif á skoðanir sínar. Bók þessi er rituð 1410; hún heitir »Imago mundi«; þar sá Columbus skoðanir ýmsra fornra höfunda um stærð hafsins og legu landanna, og þar er hvað eptir annað tekið fram, hve stutt muni vera að sigla frá Spáni vestur til Indlands. Þessar hugmyndir koma mjög snemma fram; Aristoteles sagði t. d., að hafið væri mjótt milli Spánar og Indlands, og Seneca hélt því fram, að sigla mætti frá Európu vestur um haf til Indlands á fáum dögum með góðum byr. Um þetta leyti voru allir vísindamenn sannfærðir um, að jörðin væri hnöttótt, en mælingarnar voru svo ófullkomnar, að menn héldu, að jörðin væri töluvert minni en hún er, og auk þess héldu menn, að Indland og Kína gengu miklu lengra til austurs en seinna reyndist. Þegar Columbus er að bera mál sitt upp fyrir stórhöfðingjum, þá sannar hann mál sitt með því að vitna til þessara fornu rithöfunda. Við þetta bættist, að hinn ítalski fræðimaður *Toscanelli* hvatti Columbus ákaft til fararinnar. Toscanelli (f. 1397, d. 1482) hafði lesið rit Marco Polos og annara ferðamanna,

sem ferðast höfðu um Asíu, og hafði brennandi löngun til að stuðla til þess, að Európumenn fyndu sjóleið til þessara auðugu landa. Portúgalsmenn voru þá í ákafa að leita leiðarinnar til Indlands suður með Afríku, og því ritaði Toscanelli stjórninni í Lissabon bréf 1474 og sendi með því landabréf; hvatti hann þar mjög til vesturferða yfir hafið og kvað það stytzta leið og hentugasta. Portúgalsmenn vildu ekki sinna þessu; en er Columbus, sem þá var í Lissabon, fékk vitneskju um þetta bréf, fór hann að skrifast á við Toscanelli, og eru enn þá til bréf, sem gengið hafa þeirra í milli. Leiðbeiningar Toscanellis og frásögur hans um legu landanna, stefnu leiðarinnar sem fara þyrfti, vegalengdina o. fl., voru sennilegar og framsettar með svo mikilli vissu og svo styrkum rökum, að Columbus varð nú fullviss um, að ferðin mundi heppnast, og var nú einráðinn í að fara, ef nokkur kostur væri. Á fyrstu ferð sinni hafði hann með sér landabréf eptir Toscanelli og fór eptir því.[1]

Árið 1464 er getið um það í fornum bókum, að *Joao Vaz Cortereal*, landstjóri á eynni Terceira, hafi farið í landaleit norður í höf, og þá fann hann land, sem hann kallar Harðfiskland (terra do bacalho); halda menn, að hann hafi komið til Íslands. Árið 1500 fór sonur þessa manns, *Gaspar Cortereal*, aptur í landaleit og sigldi í norðvestur; fann hann þá land, sem hann kallar Grænaland (Terra verde), og ætla menn, að það hafi verið Grænland. Næsta ár fór hann á tveim skipum til VNV. og fann ströndina á Newfoundlandi;[2] þar urðu þeir varir við mikla gnægð fiska í sjónum og eptir það tóku fiskiskip að fara þangað hópum saman. Hinir nafnfrægu sæfarendur *John* og *Sebastian Cabot*, er fyrst rannsökuðu austurströnd Norðuramerìku, áttu heima í Bristol; þá voru

[1]) Nánar um þetta má lesa hjá *Alexander Humboldt*: Kritische Untersuchungen I og *S. Ruge*: Geschichte des Zeitalters der Entdeckungen 1881, bls. 221-31.

[2]) *O. Peschel*: Geschichte der Erdkunde. München 1865, bls. 262.

þaðan árlega miklar skipaferðir til Íslands, og er þess getið í bókum, að Sebastian Cabot hafi í annari ferð sinni komið við á Íslandi; er það því ætlun manna, að S. Cabot hafi á Íslandi fengið einhverjar fregnir um Vínlandsferðir hinna fornu Íslendinga,[1] og er það ekkert ólíklegt; að minnsta kosti siglir hann nærri sömu leið, eins og Íslendlendingar fóru til forna.

Um seinni hluta 15. aldar verzluðu Englendingar hér sem áður; var nú miklu minni fyrirstaða frá hálfu dönsku stjórnarinnar og þess vegna voru viðskiptin yfir höfuð friðsamlegri. Englendingar fluttu til landsins allar nauðsynjavörur, er Íslendingar þurftu, mjöl, járn, timbur, lérept o. fl., en fluttu út skreið og borguðu hana vel. Þó slettist einstöku sinnum upp á vinfengið, því Englendingar voru óeirnir og ódælir og fljótir til gripdeilda og rána, ef svo bar undir; 1490 rændu t. d. enskir kaupmenn í Hafnarfirði miklu fiskifangi frá ábótanum í Viðey, en ábótinn safnaði liði, réðst á Englendinga, hafði sigur og náði skreiðinni, þó við ofurefli væri að etja.[2] Í þá daga höfðu Englendingar aðalstöðvar sínar í Hafnarfirði, og þar kom á land plágan seinni (1493), í ensku klæði, að því er sagan segir. Árið 1490 hafði Hans Danakonungur 20. janúar leyft Englendingum að verzla á Íslandi eptir vild sinni og fiska við strendurnar.[3] Árið 1512 gjörðu enskir menn ýms illvirki, rændu kvikfénaði, hlóðu sér kastala og létu í veðri vaka, að þeir ætluðu að leggja landið undir sig; það er ekki gott að segja, hvort það hafa allt af verið kaupmenn enskir, sem gjörðu sig seka í þessum illvirkjum; hér í Norðurhöfum var í þá daga fullt af víkingum frá Englandi og öðrum löndum; gerðu þeir víða strandhögg og rændu jafnt frá vinum sem óvinum; sjálfsagt hafa ýmsir af þessum óaldarseggjum leitað hingað til Íslands, því hér var lítil vörnin fyrir. Árið 1514

---

[1]) *Oscar Peschel*: Geschichte der Erdkunde, bls. 260-61.
[2]) Árb. Espólíns II., bls. 115.
[3]) Lovsamling for Island, I., bls. 40.

börðust Síðumenn við Englendinga í Vestmanneyjum; urðu þeir ósáttir út úr kaupskap; þar féllu 14 Englendingar, en ekki er getið um, að aðrir hafi fallið af Íslendingum en síra Jón smjörnefur, er var prestur á Skarði í Meðallandi. Á þeim árum drápu Englendingar líka Svein Þorleifsson skrifara og ellefu menn aðra. Mörg önnur hryðjuverk frömdu Englendingar hér í þá daga, sem eigi þarf hér að telja; 1515 ritar Kristián annar Hinriki VIII. bréf og kvartar mjög undan yfirgangi Englendinga á Íslandi.[1] Þá var sendur hingað Sören Nordby, sjókappi mikill, til þess að hrekja héðan enska víkinga, og hafði hann hér um tíma hirðstjórn. Ensku kaupmennirnir voru þá hér á landi búnir að fá aðra skæðari keppinauta, nefnilega Þjóðverja, sem loks algjörlega hröktu þá á braut, og munum vér minnast á það í næsta kafla.

Í enskri bók eptir *Andrew Boorde*, sem kom út 1547, er stutt lýsing á Íslandi; lýsing þessi er mjög ómerkileg og illorð um Íslendinga, en þó verð eg að geta hennar hér; þar er sullað saman skröksögum sjómanna og öðrum lausafregnum; en þó flest sé vitlaust í lýsingunni, er þó dálítið rétt, er verzlunina snertir.[2] Andrew Boorde var fæddur um lok 15. aldar í Sussex á Englandi; hann varð á ungum aldri munkur, en losaði sig úr munkareglu og fór að stunda læknisfræði. Hann fór víða, bæði um England og meginland Európu, en þótti óknyttamaður í meira lagi og dó í dýflissu í Lundúnum 1549. Bók hans kom út 1547 og er tileinkað Maríu prinsessu, hinni alræmdu Blóð-Maríu; þar átti í fyrstu að vera yfirlit yfir öll vísindi, en aldrei kom út meira en fyrsti kaflinn, um

[1]) Sbr. Espólíns Árbækur II., bls. 115, 122, III. bls. 31, 38-39. Safn II., bls. 665-68.

[2]) Rit Andrew Boorde's heitir: The Fyrst Boke of the Introduction of Knowledge made by Andrew Borde. 1547. Bókin er aptur gefin út af F. I. Furniwall »for the early English text society. London 1870«. Eg hefi þó ekki haft þessar bækur fyrir mér, en eg hefi farið eptir útdrætti, sem prentaður er hjá *C. F. Bricka* í Danske Samlinger for Historie, Topografi, Personal- og Literaturhistorie. 2. Række, 2. Bind. Kbhavn 1872-73, bls. 135-143.

þjóðirnar í Európu. Hver kapítuli er lýsing á sérstöku landi og eru myndir af íbúum landanna fyrir ofan; við hvern kapítula eru líka nokkrar ljóðasamstæður, og eru íbúunum þar lögð orð í munn. Í 6. kapítula er lýsing á Íslandi og Noregi og vísur fyrir ofan; í ljóðunum er aðalefnið þetta, að því er Ísland snertir, og er Íslendingur látinn tala: »Eg er fæddur á Íslandi, eins heimskur eins og dýr; að eta kertisstubba er hátíð fyrir mig; eg er sólginn í tólg og hráan harðfisk; það þykir dágóður matur í mínu landi; hráan fisk og hrátt kjöt et eg, er eg þarfnast; svona matur þykir mér góður. Lítið hirði eg um morgunsöngva eða messu, og um góðan klæðnað kæri eg mig aldrei. Gott þykir mér að klæðast dýraskinnum, hvort sem það eru úlfa- eða bjarnaskinn«. Síðan kemur stutt lýsing á Noregi og þá lengri lýsing á Íslandi og er hún hér um bil á þessa leið:

»Ísland er fyrir utan Noreg; það er stórt eyland, umkringt af íshafinu; landið er furðanlega kalt; á sumum stöðum er sjórinn frosinn og fullur af ís. Þar vex ekkert korn; lítið brauð hafa þeir eða ekkert; í stað brauðs eta þeir harðfisk; þeir eru vanir að eta hráan fisk og hrátt kjöt; þeir eru dýrslegar skepnur, ósiðaðir og fákunnandi. Hús hafa þeir engin, en liggja í hellum saman eins og svín; þeir selja íslenzka hunda og gefa burt börn sín; þeir eta tólgarkerti og kertisstubba og gamla feiti, þráa tólg og annan óþverra. Þeir ganga klæddir í villidýraskinnum og eru líkir fólkinu í hinu nýfundna landi, er heitir Calyco (Kalikut). Á Íslandi eru mörg villidýr. Íslendingar eru góðir fiskimenn; mikið af fiski sínum láta þeir í skiptum við enska menn fyrir mjöl, bönd, skó og aðra smámuni. Þeir hafa enga peninga í landinu, en þeir láta einn hlut í skiptum fyrir annan. Þar eru nokkrir prestar, sem eru blásnauðir, en halda þó frillur. Á sumrum er þar að nokkru leyti engin nótt og á vetrum er þar á líkan hátt fárra stunda dagsbirta. Mál þeirra get eg ekki talað, nema eitt eða

tvö orð á stangli, og þess vegna sleppi eg að skrifa um það«.

Ef bornar eru saman hin fyrsta lýsing á Íslandi eptir Giraldus Cambrensis og þessi, þá eru þær næsta ólíkar. Giraldus hælir Íslendingum fram úr hófi; Andrew Boorde lýsir þeim eins og hinum örgustu skrælingjum; tímarnir voru nú reyndar ólíkir; en mest kemur þessi mismunur eflaust af því, að Giraldus fer eptir frásögum lærðra, heldri manna, en Andrew Boorde fer eingöngu eptir lausafregnum, sem borizt hafa með misjöfnum sjómannalýð; hann hefir líka auðsjáanlega blandað Íslendingum saman við Eskimóa eða aðrar villiþjóðir; aldrei hafa Íslendingar t. d. klæðzt í dýraskinn og aldrei hafa hér verið úlfar. Sagan um kertaátið er algeng hjá öðrum höfundum um ýmsar þjóðir, sem norðarlega búa, og brúka mikið feitmeti. Sagnirnar um, að Íslendingar búi í hellum, eru eflaust komnar af því, að útlendingar hafa séð lítilfjörlega torfbæi.

## 9. Upphaf hinnar þýzku verzlunar á Íslandi. Íslandslýsingar frá byrjun 16. aldar. Olaus Magnus.

Eins og vér fyrr höfum talað um, var aðalverzlunin á Íslandi á 15. öldinni ensk. Englendingar verzluðu reyndar optast í óleyfi, en þeim hélzt það uppi, af því stjórnarástandið í Danmörk var svo, að konungar gátu eigi snúizt við að vernda verzlun á Íslandi, sem þeir þó töldu sér einum heimila. Um miðja 15. öldina fara Þjóðverjar að venja komur sínar til Íslands; framan af er verzlun þeirra lítil, en að lokum koma þeir ár sinni svo fyrir borð, að þeir á 16. öldinni eru því nær einráðir. Fyrstu þýzku verzlunarskipin, sem komu til Íslands á árunum 1430—1440, voru frá Danzig og Lübeck; Hamborgarar fara fyrst að taka þátt í Íslandsverzluninni 1475, og fyrstu skipin eru gerð út á opinberan kostnað;[1] menn

[1]) *Ernst Baasch*: Die Islandsfahrt der Deutschen. Forschun-

vildu reyna fyrir sér, reyna að brjóta verzluninni nýjar brautir. Seinna verða Hamborgarar öllum meiri, komast langt á undan keppinautum sínum. Kristofer af Baiern (1440—48) hafði á ýmsan hátt reynt að takmarka einokunarverzlun Hansamanna á Norðurlöndum, en Kristián fyrsti (1448—1481) var allt af í svo miklum peningakröggum, að hann varð að flýja á náðir þýzkra kaupmanna, og leyfði þeim opt að sigla til Íslands; þó bannaði hann 1480 vetrarsetu útlendra kaupmanna á Íslandi.[1] Árið 1483 var nærri orðið upphlaup í Hamborg vegna kornfarma, sem fluttir höfðu verið til Íslands; þar var þá dýrtíð mikil og skríllinn kenndi þessum útflutningum um, að kornvaran væri lítil og dýr.[2] Sama ár lofaði Hans Danakonungur því í skuldbindingarskrá þeirri, er hann reit undir, að hann skyldi ekki þola, að neinir kaupmenn frá Hansastöðum sigldu til Íslands, en hann lofaði þar upp í ermina á sér. Hans konungur reyndi þó á ýmsan hátt að spilla verzlun Hansastaða á Norðurlöndum, og tókst það að sumu leyti; hann leyfði Hollendingum að sigla til Íslands, en verzlun þeirra hér á landi varð þó aldrei mjög mikil, og eins leyfði hann Englendingum 1490 að sigla til Íslands í 7 ár; þetta gerði hann allt til þess að rýra verzlun Þjóðverja. Hansamenn voru engan veginn sáttir og sammála sín í millum; Lübeckkaupmenn sáu brátt ofsjónum yfir verzlun Hamborgara á Íslandi, og reyndu á ýmsan hátt að takmarka hana; kaupmenn frá Lübeck höfðu mjög mikla verzlun í Noregi, einkum í Bergen, en þaðan höfðu verið miklar siglingar til Íslands, sem kunnugt er, svo kaupmenn þar þóttust hafa einkarétt til verzlunar á Íslandi. Kristián II. reyndi og á ýmsan hátt að hindra verzlunarferðir Hamborgara til Íslands; en þrátt fyrir allar mótspyrnur

gen zur Hamburgischen Handelsgeschichte I. Hamburg 1889, bls. 7—9.

[1]) Lovsamling for Island I., bls. 37. *Magnús Ketilsson*: Forordninger I., 59-62. Historia ecclesiastica II., bls. 241-42.

[2]) Nordisk Tidskrift for Oldkyndighed II., bls. 129.

blómgvaðist verzlun þeirra meir og meir.[1] Í byrjun 16. aldar stofnuðu Íslandsfarar í Hamborg sérstakt félag (Sunte Annen Broderscop der Islandesvarer), og eru reikningsbækur þessa félags enn þá geymdar í Hamborg.[2] Hamborgarar höfðu á 16. öldinni aðalstöðvar sínar í Hafnarfirði (Hanefiord); Brimarar verzluðu snemma á öldinni á Búðum og víðar á Vesturlandi o. s. frv..[3] Kaupmenn þeir, sem tóku þátt í Íslandsverzluninni, voru, eins og nú höfum vér sagt, flestir frá Hamborg, en sumir voru þó frá Lübeck, Bremen, Rostock, Wismar, Danzig, Stralsund og jafnvel frá Lüneburg.[4]

Þjóðverjar eltu löngum grátt silfur við Englendinga; hvor vildi bola hinum burtu, og urðu opt út úr því hinar mestu óeirðir og vígaferli. Í Píningsdómi eru Englendingar og Þjóðverjar áminntir um að hafa frið sín á milli, er þeir liggi hér á höfnum,[5] en lítið hirtu þeir um slíkar fyrirskipanir. Árið 1518 hröktu Hamborgarar Englendinga úr Hafnarfirði. Segir Jón Espólín, að Hamborgarar hafi 1518 barizt við enska um hafnarleg í Hafnarfirði, og þakið áður skip sitt með sængum; féllu 40 af Þjóðverjum, en þó, með því að þeir fóru að með ráðum, ráku þeir Englendinga burtu og fluttust síðan fram í eyri og höfðu þar höfn þaðan af.[6] Árið 1532 börðust Þjóðverjar við Englendinga í Grindavík. Enskur kaupmaður, sá er hét Jón Breiði (Johann Breye), varð missáttur við hirðstjórann, Diðrich af Bramsted, og vildi eigi gjalda toll, sem vera átti; hann átti og illt við Hamborgara, er

[1]) Nánar má lesa um allt þetta þjark og þessa verzlunarkeppni hjá E. Baasch l. c., bls. 8-30.

[2]) Jahrbuch des Vereins für niederdeutsche Sprachforschung 1883. IX., bls. 143-45.

[3]) *M. Lindemann*: Die arktische Fischerei der deutschen Seestädte 1620-1868. Petermanns Mitteilungen. Ergänzungsheft Nr. 26. Gotha 1869. 4to. bls. 5-6.

[4]) *E. Baasch*: Hamb. Handelsgesch., I., bls. 16.

[5]) *Magnús Ketilsson*: Forordninger I., bls. 79-82. Lovsamling for Island I., bls. 41-43.

[6]) Árbækur Espólíns III., bls. 55.

þar lágu á Nesjunum með kaupför sín, og hélt skreið nokkurri fyrir þeim; kom í með þeim þverúð, og fóru orð í milli; gerði Jón sér virki skammt frá búðum á Járngerðarstöðum, og bauð Hamborgurum með kalsi að sækja til sín skreiðina; tóku sig þá saman hirðstjórinn og hinir þýzku menn, og komu óvart um nótt upp í Grindavík; komust í virkið og drápu Jón og alla hans menn, en tóku skip og fé, það er þeir áttu.[1] Út úr þessu spunnust langar deilur milli Hinriks VIII. á Englandi og Hamborgarmanna og Friðriks konungs fyrsta; þó fór svo að lokum, að sáttum varð á komið og Hamborgarar þurftu ekki að borga neinar skaðabætur, því það sannaðist, að Englendingar hefðu átt upptökin. Frá byrjun 16. aldar er Þjóðverja nærri árlega getið í árbókum og annálum, og vex verzlun þeirra smátt og smátt. Af þessum verzlunarferðum Þjóðverja leiðir það aptur, að þeir eru því nær hinir einu útlendingar, er rita um Ísland á 16. öldinni. Flestar sagnir frá þeim tímum eru þó fullar af ýkjum og skröksögum, og finnst sannleikurinn opt ekki fyrr en eptir langa leit innan um allan óhroðann.

Vér höfum áður getið um landabréf *Jakobs Zieglers;* það fylgdi riti hans um Schondia, er fyrst kom út í Strassborg 1532. Í riti þessu er stutt lýsing á Íslandi. Ziegler tekur fyrst nokkrar klausur úr Saxó og bætir svo sjálfur ýmsu við. Hann segir, að Ísland sé frá norðri til suðurs nærri 200 mílur á lengd, en eyjan sé að mestu fjöllótt og óræktuð, en þar sem sléttlendi er, segir hann, að hagarnir séu svo kjarngóðir, að menn verði stundum að reka féð þaðan, svo það kafni ekki af fitu. Hann talar um eldfjöll, og segir, að í þeim sé fangelsi fyrir óhreinar sálir; hann talar líka um svipi drukknaðra manna, sem hann segir gangi ljósum logum á Íslandi. Ísnum lýsir hann líkt og Saxó. Ziegler segir, að svo stutt sé á milli Grænlands og Íslands, að farmenn þeir, sem fara þar á

[1]) Annálar Björns á Skarðsá, bls. 54-55. Árb. Espól. III., bls. 105-106.

milli, sjái Hekluhöfða öðrum megin við sundið, en Hvítserk hinum megin.[1] Í þá daga tóku menn allar frásögur gildar, hvort sem þær voru náttúrlegar eða ónáttúrlegar; menn voru ekki að hafa fyrir að sundurliða það; optast mun þó eitthvað liggja til grundvallar fyrir sögunum. Þar sem Ziegler talar um fitu sauðfjár á Íslandi, er það líklega svo til komið, að þýzkir kaupmenn hafa heyrt getið um eða séð feita sauði, þegar þeir á haustdegi voru reknir af fjalli. Sagan um píslir sálna í eldfjöllum er algeng alstaðar, og menn trúðu því fastlega á þeim tímum, að svo væri, bæði hér á landi og annarsstaðar; sagan um svipi drukknaðra manna er alíslenzk, og ekki örgrannt, að sumir menn á útkjálkum á Íslandi trúi slíku enn.[2]

Árið 1544 gefur *Sebastian Münster* út landafræði (cosmografi), sem lengi á eptir var aðalrit í þeirri grein. Sebastian Münster þótti merkismaður á sinni tíð; hann var fæddur í Ingelheim 1489 og dó í Basel 1552; hann þótti framúrskarandi guðfræðingur og stærðfræðingur; en

---

[1]) Gamlar sagnir um leiðir til Grænlands segja hið sama um fjarlægðina milli Grænlands og Íslands, en þar er reyndar talið, að Snæfellsjökull sjáist á Íslandi (en ekki Hekla). Það er sagt, að síra Einar Snorrason á Staðarstað († 1538) hafi átt tólfæring, er rak undan Öndverðarnesi og dreif í haf út, svo að þeir sáu báða jöklana senn, Snæfellsjökul og Bláserk (Grönlands hist. Mindesm. I., bls. 123, sbr. bls. 88). Á öðrum stað er sagt, að séu menn í miðju hafi, sjáist Snæfellsjökull öðru megin, en Hvítserkur hinu megin (s. st. III., bls. 490-491). Olaus Magnus segir, að Hvítserkur sé mitt á milli Íslands og Grænlands, og segir, að tveir alræmdir víkingar, Pining og Pothorst, hafi haft aðsetur þar 1494. Nánar um þetta má lesa í Grönl. hist. Mind. III., bls. 473-81.

Eg hefi haft fyrir mér útgáfu af Ziegler, sem prentuð er aptan við *Alberti Krantzii* Regnorum Aquilonarium Daniæ, Sueciæ, Noruagiæ Chronica. Francofurti ad Moenum 1575. Fol. (bls. 480-481). *Jacob Ziegler* var fæddur í Landshut 1480 og dó í Passau 1549; hann ferðaðist töluvert um Suðurevrópu, en hefir líklega aldrei komið til Norðurlanda, sbr. Norsk Historisk Tidsskrift, 2. Række VI., bls. 331-36.

[2]) Sbr. Andvari XIII. 1887, bls. 200.

frægastur varð hann fyrir »kosmografíuna«, sem sagt er, að hafi verið gefin út 24 sinnum, enda er þar samansafnaður mjög mikill fróðleikur eptir þeirra tíma sniði. Münster segir, að Ísland sé tvisvar sinnum stærra en Sikiley; nafnið sé dregið af kuldanum og ísnum; merki landsins segir hann sé krýndur fiskur, og hefir mynd af honum í byrjun kaflans um Ísland. Hann segir, að þrjú há fjöll séu á Íslandi, Hekla, Kreussberg og Helga; þau séu þakin snjó að ofan, en séu að neðan brennandi af brennisteinseldi. Hjá Heklu er stór gjá, sem enginn veit botn á; þar sjást stundum vofur drukknaðra manna og hverfa þangað aptur. Á Íslandi eru, segir hann, stórir og grimmir hvítabirnir, sem berja göt á ísinn með hrömmunum, til þess að ná í fiska og eta þá. Münster segir, að uppsprettur séu á Íslandi, sem breyti öllu í stein; hann talar um hafísinn líkt og Saxó og segir, að hann sé á ferðinni 8 mánuði kring um eyna; hann segir, að heimskir menn haldi, að það sé óp sálna í hreinsunareldinum, sem heyrist, þegar jakarnir berjast saman. Münster segir, að á Íslandi sé svo mikið af fiski, að menn gjöri af þeim húsháa hlaða undir berum himni; hann segir, að á Íslandi vaxi ekkert korn, en Íslendingar fái kornmat frá Hansastöðunum og vín frá Spáni; fyrir kornið og vínið fá kaupmenn fiskinn og hafa af honum mikinn ábata. Münster segir, að kvikfénaður á Íslandi mjólki vel, og þar fáist mjög mikið af smjöri; hann segir, að Ísland heyri undir Noregskrúnu, en af því Noregur nú lúti Danmörku, þá lúti nú líka Íslendingar Danakonungi. Á eptir lýsingunni á Íslandi kemur faðirvor á íslenzku og er ekki mjög vitlaust prentað.[1] Þó nú nokkuð sé af rangfærslum og hindurvitnum í þessari lýsingu, þá er þar þó líka töluverður fróðleikur um Ísland. Bókinni fylgja ýms landabréf og eru Norðurlönd á einu; á þessum uppdrætti er Grænland ákaflega stór eyja, laus frá heimsskauta-

[1]) Eg hefi haft fyrir mjer útgáfu gefna út í Basel 1598; bókin heitir Cosmographey: das ist Beschreibung Aller Länder o. s. frv. Lýsingin á Íslandi er í þessari útgáfu á bls. 1205-1206.

löndunum, en ekki áfast við Noreg eins og á mörgum eldri landabréfum; uppdrátturinn af Íslandi er miklu betri en áður; aðallag landsins allnærri sanni; þar er Grímsey fyrir norðan land; stóru firðirnir fyrir norðan og vestan, eru markaðir á þessu korti og eins eru á því allmörg nöfn, þó þau séu nú nokkuð undarleg flest.

Litlu síðar 1546 lýsir *Kranz* frá Hamborg Íslandi. Mestur hluti lýsingarinnar er auðsjáanlega tekinn úr fornum rithöfundum, einkum úr Adam frá Bremen; þaðan eru teknar langar klausur orðrétt, en höfundurinn hefir líka beinlínis eða óbeinlínis þekkt Giraldus Cambrensis og Saxó, en svo bætir hann ýmsu við frá eigin brjósti. Hann segir, að Íslendingar lifi á kvikfénaði og fiskiveiðum; hýbýli þeirra séu hellar eða herbergi, grafin inn í fjallshlíðar af mannahöndum. Kranz segir, að kaupmenn enskir og þýzkir leyfi þjóðinni ekki lengur að vera ánægðri með sitt; þeir fari til Íslands með vörur sínar til þess að sækja fisk, en útlendingar flytji svo líka inn lesti sína; nú blanda, segir hann, Íslendingar vatnið víni og láta sér ekki nægja eintómt uppsprettuvatn, og nú dást þeir að gulli og silfri eins og vér. Hvolpa sína og syni meta þeir jafnmikils, nema hvað hægra mun að fá son fátæklings en hvolp hans; þetta er sama sagan eins og á jarðkúlu Martin Behaims 1492. Kranz segir, að Íslendingar telji þá sæla, sem fluttir eru til útlanda; hann segist hafa séð íslenzkar konur og karla, sem fluttir hafi verið til útlanda á ungum aldri, og hafi þetta fólk gjörsamlega verið búið að gleyma móðurmáli sínu, nema nafni sínu. Kranz segir eins og Giraldus Cambrensis, að Íslendingar meti biskupa sína eins og konunga, en samt neyðist þeir til að taka á móti valdsmanni Danakonungs, því Danakonungur sendir þangað árlega höfuðsmann til þess að taka tolla af kaupmönnum. Síðast talar Kranz um það, hvernig Íslendingar hafi tekið trú og um Ísleif biskup, og tekur hann það allt orðrétt úr bók Adams frá Bremen.[1]

[1]) *Alberti Krantzii*: Regnorum aquilonarium, Daniæ, Sueciæ,

A fyrri hluta 16. aldar voru tveir bræður upp í Svíaríki, sem gjörðu meira en nokkrir aðrir til þess að fræða útlendinga um Norðurlönd. Hinn eldri, *Jóhannes Magnus* (f. 1488, d. 1544), varð erkibiskup í Uppsölum, en varð að flýja þaðan um siðaskiptin; hann ritaði seinna utanlands sögu biskupsstólsins í Uppsölum og konunga sögu Svíþjóðar. Yngri bróðirinn, *Olaus Magnus*, ritaði fræga bók um landlýsingu og þjóðir Norðurlanda, sem hafði mikil áhrif á landafræðina í þá daga, og var fyrir suðurlandabúa aðaluppspretta allrar þekkingar um Norðurlönd í meira en heila öld. Olaus Magnus fæddist í Skeninge 1490, en dó í Rómaborg 1558; hann var á yngri árum kanúki í Uppsölum og Linköping, fór síðan í erindagjörðum Gustavs konungs Vasa til Rómaborgar og í ýmsar aðrar sendiferðir, en kom aldrei aptur til Svíþjóðar. Olaus Magnus bjó lengstum á Ítalíu, fékkst þar við vísindi, umgekkst lærða landfræðinga og ferðamenn, og varð leikinn í að gjöra landabréf, eptir því sem þá var títt. Þegar Jóhannes bróðir hans dó 1544, varð Olaus erkibiskup að nafnbót til Uppsala, en aldrei kom hann þangað, enda var þá annar siður lögtekinn í landinu. Bók Olausar Magnusar um Norðurlönd[1] kom út í Róm 1555, en síðan komu út fjölda margar útgáfur aðrar, latneskar og útleggingar á önnur mál.

Olaus Magnus byrjar með því að lýsa eldfjöllum á Íslandi, og segist hann hafa sett þau á landabréf sitt yfir Norðurlönd; hann segir, að þar sé snjór á tindum eldfjallanna, en stöðugur brennisteinseldur hið neðra, án þess hann eyðist af sjálfum sér. Hann segir að það sé mikil hætta að nálgast þessi fjöll, því menn geti kafnað í öskunni, sem úr þeim gýs, og auk þess séu þar brunagjár, fullar af ösku, sem gosið hafi úr eldfjöllunum, (2. bók. 2. kap. bls. 61). Fyrir ofan þenna kapítula er mynd af

---

Noruagiæ Chronica. Francofurti ad Moenum 1575. fol., bls. 330-331.

[1]) *Olaus Magnus Gothus.* Historia de gentibus septentrionalibus . . . Romæ 1555. fol.

þrem eldfjöllum, og er eitt þeirra kallað Hekla og annað Krossfjall (eins og hjá Münster); við tindana stendur skrifað »nix« (snjór); undir miðfjallinu er skrifað »Chaos« (óskapnaður), og á það líklega að tákna jarðelda-samsullið undir fjallinu. Þetta sama orð er á landabréfinu og hefir verið flutt, sem staðarnafn, á ýms önnur landabréf. Við rætur fjallanna eru logar og út undan þeim renna lækir, og eru þrír katlar settir þar hjá, en maður er að ganga upp stiga upp í helli eða gjá undir miðfjallinu. Lækirnir eiga líklega að vera heitar uppsprettur, kerin ef til vill baðker, ef þetta ekki táknar einhverja óljósa hugmynd um brennisteinssuðu? Hið síðara er líklegra eptir uppdrættinum 1539.

Í þriðja kapítula í sömu bók (bls. 62) kemur nánari lýsing á Íslandi; segir hann frá legu landsins og tekur svo klausur úr Saxó; hann segir, að landið liggi frá norðri til suðurs, og sé 100 þýzkar mílur á lengd; eyjan er að mestu leyti fjöllótt, segir hann, og óræktuð, einkum móti norðurátt, af snörpum blæstri norðvestanvindsins, sem jafnvel ekki leyfir runnunum að vaxa að mun. Síðan tekur Olaus Magnus hér um bil orðrétta draugasöguna úr Ziegler, og hefir mynd fyrir ofan þessu til frekari skýringar. Seinna í bókinni lýsir hann Íslendingum. Íslendingar eru, segir hann, heilsugóðir, glaðværir og frjálslyndir og hafa lengstum verið án læknislyfja; lifa þeir jafnvel yfir hundrað ár; grípa þeir til vopna af litlum orsökum og heyja allgrimmar styrjaldir; þeir eru við öllum herferðum jafnt búnir, hvert þær eru á fæti eða hesti, hvernig sem á stendur. (21. bók, kap. 4. bls. 733).

Olaus Magnus segir það sé ákveðið með lögum á Íslandi, að hver sá, er drepur skaðlegt kvikindi, fái verðlaun af ríkisfé eða hjá landstjóra, og fer upphæð verðlaunanna eptir grimmd skepnunnar, sem drepin er. Hann segir, að á Íslandi séu fleiri hvítir hrafnar en í öðrum löndum, og að þeir drepi opt lömb og smágrísi, en unglingar skjóti hrafnana með boga; síðan sýni þeir fyrirmönnum eintóm nefin af hröfnunum, þrædd upp á snæri,

og fái svo að verðlaunum jafnmargar örvar eins og þeir hafa drepið marga hrafna.[1] Olaus Magnus talar og um hvítabirni á Íslandi, og segir líkt frá þeim eins og Münster; hann segir, að veiðimenn gefi vanalega bjarnarfeldina kirkjum, og standi prestar á vetrum á þeim fyrir altari, svo þeim verði ekki kalt á fótum.[2] Hann segir, að á Íslandi séu hvítir hundar loðnir, og hárin eins og ull, og hafi höfðingsfrúr og prestar sér þá til gamans, enda segir hann, að hinn helgi Chrysostomus leyfi biskupum og prestum að hafa þess konar hvolpa sér til huggunar.[3] Olaus Magnus talar allmikið um fisk og fiskiveiðar á Íslandi; hann segir, að í höfunum við Ísland sé ótölulegur grúi fiska, og telur hann upp ýmsar fiskitegundir og þar á meðal þorskinn; úrvalsfiskinn kalla Spánverjar og Ítalir »marlucz«, og flytja Spánverjar og Portúgalsmenn hann alla leið til Rómaborgar. Fiskiveiðarnar eru mest stundaðar í febrúar, marz og apríl; þegar búið er að veiða fiskana, eru þeir þurkaðir í köldum vindi og síðan hlaðið í stakka á opnu svæði eins og brenniviði; þýzkir kaupmenn kaupa síðan fiskinn fyrir korn, öl, klæði og annað þvílíkt.[4] Olaus Magnus talar mikið um, hve mikið sé til af söltuðu smjöri á Íslandi, og komi það af kvikfjárfjöldanum og hagagæðunum; hann segir, að menn hafi ekki nóg ker eða tunnur undir það, en menn drepi þá smjörinu niður í kistur úr ilmtré, sem séu 30-40 fet

[1]) IV. bók. kap. 15., bls. 149, sbr. bls. 240 og 664. Sbr. *Debes* Færöa reserata 1673, bls. 125.

[2]) Bls. 149 og 621. Það sést á mörgum máldögum frá 14. öld, að íslenzkar kirkjur hafa átt bjarnarfeldi; 1374 átti Hólakirkja »bjarnfell fim«; Sauðaneskirkja átti tvö 1360; eins er getið um bjarnfell á Presthólum, Auðkúlu, Vesturhópshólum, Höskuldsstöðum, Hvammi í Laxárdal, Holti í Önundarfirði, og víðar. Diplomatarium Islandicum III., bls. 290, 156, 157, 160, 168, 173, 324 o. s. frv. Á miðri 16. öld eru bjarnfell enn til í kirkjum; 1550 á Hólakirkja bjarnfelldi tvo; í Munkaþverárklaustri er til einn bjarnfelldur og annar á Möðruvöllum, sbr. Sigurðar-registur.

[3]) Bls. 578.

[4]) Bls. 732-733.

á lengd, en 4—5 fet á hæð; smjörið hafa menn sumt til heimabrúkunar, en selja sumt kaupmönnum;[1] hann segir, að Íslendingar smyrji fiskinn smjöri og eti hann í stað

[1]) Sumir hafa haldið, að smjörsögurnar hjá Münster og Olaus Magnus væru eintómar ýkjur, en því fer fjarri að svo sé. Eins og kunnugt er, áttu hiskupsstólar og klaustur ógrynni jarða og allar leigur guldust í smjöri; til forna voru vaðmál helzti gjaldeyrir; en þegar kemur fram á 16. öld, er vaðmálsgjörðin auðsjáanlega orðin minni, en smjör er aðalgjaldeyrir í öllum viðskiptum, enda voru kúahúin þá mikln meiri en nú. Af þessu leiddi, að ógrynni smjörva safnaðist saman á hiskupssetrunum og klaustrunum, og sést það hezt af úttektunum í Sigurðarregistri; menn höfðu þá ekki fyrir því að vega smjörið, en mældu smjörhlaðana í álnum og gizkuðu svo á, hve margar vættir væru í hlöðunum. Þessu til sönnunar set jeg hér nokkrar greinir úr Sigurðarregistri. Árið 1525 er talinn kostur heima á Hólum, þegar Jón Arason tekur við: »smjör ij. c vætter, skreið lx vætter .... x tunnur mjöls«; 1550 eru smjörbirgðirnar orðnar auknar að mun; þá stendur í úttektinni meðal annars: »Item í langa bure i kosti smior xxx alner og ij stiku há og stiku hreið. fiogra alna kalfur (sic). half aunnur alin á hreidd, á hæð ij alner minnr en kuartiel .... Reiknast þetta fyr skrifað smior vj hundruð vætter og xx vætter og kalhur at auki«. Þó var mikið smjör geymt annarsstaðar, er Hólastaður átti, meðal annars syðra 68 vættir, sem ætlaðar voru vermönnum, og auk þess var mikið af smjöri geymt á staðarhúum og annarstaðar; var það smjör, sem geymt var utangarðs, alls 197 vættir (hundraðið tólfrætt); Hólastaður hefir þá 1550 átt yfir átta hundruð (tólfræð) vættir af smjöri. 1569 var þetta í kosti á Hólum. »Item at Jonsdegi í langahúri. smior viii alna langt og viii þumlungar hetur, breitt tveggja álna neðan, en minnur kvartiel ofan, hatt ij alner, minnur iij þumlungar þar sem það er hæst, er sagt at í því sje c vætter og iij; annað ij alner og viij þumlungar, lakar ij alner á hæð og hreidd so nær xl vætter. Summa halft annað hundrað vætta. Skreið xx vætter og ein, mjol half tunna, hákallz vætt ... Item i kallda skala v. naut af öllum kjotum, xx sauðir af ollum kjotum og hofðu flestir verit vetrgamlir«. Árið 1550 var á Munkaþverá í horðhúsi »smior half þriðja alin á lengd, hálf önnur alin á breidd og stiku hátt, lausasmior ij vætter viij vætter fiska og v fjorðungar betur, eitt nautsþjó og uxa magáll«; á Reynistaðaklaustri s. á.: »smior nær hálft annað hundrað vætter, skreið áttatige vætter, skyr 1 tunnur« o. s. frv. Hér hefi eg farið eptir afskript af Sigurðarregistri, er rektor Jón Þorkelsson vinsamlegast lánaði mér, en haft til hliðsjónar frumritið, skinnbók í biskupsskjalasafninu Nr. 1. 4to.

brauðs. Mest segir hann sé af smjöri í Helgafellsklaustri, og að aðaltekjur þessa klausturs og kirknanna í Skálholti og á Hólum gjaldist í smjöri og fiski. Öl segir hann að Íslendingar fái frá útlöndum, og flyti Þjóðverjar það til landsins, og svo talar hann um ölkeldurnar á Íslandi. Á öðrum stað í bókinni (bls. 576) er mynd frá Íslandi; þar er fjall, sem heitir Helgafell, og er kirkja hjá fjallinu og þrjár smjörtunnur; skammt þaðan hjá stöðuvatni allmiklu er Hólakirkja og tveir nautgripir standa í háu grasi milli Helgafells og Hóla.

Olaus Magnus getur víða um kaupmenn og verzlun á Íslandi. Hann segir, að þýzkir kaupmenn komi til Íslands á hverju ári; séu þeir einkum frá Hamborg, Lübeck, Wismar og Bremen, og hafi þeir ótrúlega mikinn ágóða af verzluninni; af því sumir kaupmannanna eru fullir af svikum, þá segir hann, að Íslendingar og höfðingjar þeirra verði að kaupa riddara, til þess að verja menn gagnvart ágangi kaupmanna og til þess að ná hjá þeim tollum og sköttum, sem þeir ætla að svíkjast um að borga.[1] Fyrir ofan þessa frásögu er mynd af þrem brynjuðum, þeysandi riddurum með hjálmbjargir fyrir andliti og spjót í hendi. Olaus Magnus segir allmikið frá viðureign þýzkra kaupmanna á Íslandi við Englendinga og Skota, og segir, að þeir berjist um hafnir og skipalegur;[2] fyrir ofan er mynd af tveim skipum í hafi, sem eru að skjótast á. Hann segir og (á bls. 732), að miklar sjóorustur verði á milli útlendra kaupmanna, er þeir fari til Íslands, og þurfi þeir því að búa sig út eins og í bardaga, þegar þeir fara til verzlunar og fiskikaupa uppi á Íslandi. Þó eg hafi að eins stuttlega drepið á flest það, er Olaus Magnus segir um Ísland, þá sést þó, að frásögnin hjá honum er miklu meiri og fjölbreyttari en hjá hinum, sem áður hafa ritað, og þó ýmislegt sé undarlegt

---

[1]) Bls. 240 og 372.
[2]) Bls. 342-43.

innan um, þá er þó aðalefnið rétt og bendir á töluverða þekkingu á Íslandi.

Árið 1886 fann *Oscar Brenner* stórt landabréf af Norðurlöndum í landsbókasafninu í München; það var eptir Olaus Magnus Gothus, og á því ártalið 1539. Menn vissu reyndar, að Olaus Magnus hafði gert stóran uppdrátt af Norðurlöndum, en uppdráttur þessi var horfinn í meir en 300 ár; lítill uppdráttur fylgdi reyndar þeirri útgáfu af bók hans, sem út var gefin í Basel 1567, og héldu menn, að þetta litla kort væri rétt eptirmynd af hinum upprunalega uppdrætti, en því fer fjarri. Uppdráttur Olaus Magnusar er mjög merkilegur, og skýrir að mörgu leyti sögu landabréfanna á 16. öldinni. Eg verð hér að fara mjög fljótt yfir, og að eins geta þess, sem snertir Ísland beinlínis.

Á uppdrætti þessum er Ísland aflangt frá SV til NA, en inn í það ganga margir smáfirðir; þar eru margar myndir á landinu, sem eiga að tákna ýmislegt, og eru þær flestar hinar sömu eins og í bókinni (útg. 1555). Suður með landinu að austan eru að reka stórir ísjakar, og á ísnum syðst eru tveir stórir hvítabirnir; annar er að eta fisk. Á nyrzta odda landsins situr maður, sem er að leika á fiðlu, og koma fiskar og sjófuglar (álptir?) syndandi, er þeir heyra hljóminn; þar fyrir sunnan er refur að hlaupa yfir landið, og svo eru sýnd op á hellum, sem íbúarnir búa í; á ströndinni fyrir neðan eru brynjuðu riddararnir, sem myndin er af í bókinni; fyrir vestan hellana er ríðandi maður, en fyrir sunnan tvö vötn, og á hverju þeirra maður á bát. Á miðri norðvesturströndinni sitja tveir fuglar, sinn á hverju nesi, og stendur við annan þeirra orðin »hvítir fálkar«, en við hinn »hvítir hrafnar«; þar hjá er skjaldmerki Íslands, krýndur fiskur, og skjaldmerki Noregs, krýnt ljón með öxi, en þar vestur af er hvítabjörn í helli. Á suðvesturhluta landsins eru eldfjöllin, sem myndin er af í bókinni, með snjó hið efra og eldi hið neðra; þar eru klettar reglulega lagaðir með höggnu letri; þar sést Helgafell, smjörtunnurnar,

nautin, Skálholt og Hólar; þar eru brennisteinskerin, fiskhlaði og tjöld kaupmanna við ströndina. Á vestur- og suðurenda landsins eru ýms staðanöfn; Vestrabord á skaganum á norðvesturhorninu á líklega eitthvað skylt við Vestfirði; þar er Ísafjörður og akkeri fyrir utan, sem á að tákna skipaleg; sunnar er yzt á nesi nafnið Jokel (Snæfellsjökull); svo er við flóa þar fyrir sunnan Hanafiord (Hafnarfjörður), og er skip fyrir utan með landfestum; svo eru Foglasker fyrir utan nes þar suður af, og þrjár eyjar liggja suður með landinu þar austur af, og þar stendur Vespean (Vestmanneyjar?); á ströndinni nokkru austar er nafnið Ostrabord, og liggja tvö skip fyrir akkerum fyrir utan, og stendur nafnið »Bremen« hjá öðru. Í sjónum fyrir sunnan landið er fullt af skipa- og skrýmslamyndum, líkt eins og vant er á landabréfum frá þeim tímum; þar er meðal annars skip frá Hamborg að skjótast á við skozkt skip, og hefir skotið af því mastrið; á öðrum stað er skip frá Lübeck, sem er að kasta út tunnum fyrir illhveli, til að láta það glíma við; litlu austar eru Englendingar búnir að festa sig við hval, og eru að kynda eld undir potti á baki hans; þetta hefir eflaust spunnizt út úr einhverri lyngbakssögunni, sem á miðöldunum voru algengar um allan heim.[1] Sunnar eru í sjónum stórir kögglar af hvalsauka rétt fyrir norðaustan Færeyjar.[2]

Þegar vér berum þenna uppdrátt saman við uppdrátt þann, sem fylgir ferðasögu Zeni-bræðra, liggur það beint fyrir, að útgefandi þessarar sögu hefir auðsjáanlega orðið að nota uppdrátt Olaus Magnusar, og þá fara nú flestir gullhringar að detta af Zeni-uppdrættinum, sem svo mikið hefir verið um skrifað. Margir fengust við Zenikortið,

[1]) Sbr. sögurnar um Sindbað í Þúsund og einni nótt og um ferðir hins heilaga Brandanusar (*O. Peschel*: Abhandlungen I., bls. 20-28; Heilagra manna sögur I., 274-75).

[2]) *Oscar Brenner*: Die ächte Karte des Olaus Magnus von Jahre 1539 (Christiania Videnskabs Selskabs Forhandlinger 1886. Nr. 15). *O. Brenner:* Olaus Magnus und seine Karte des Nordens (Historisk Tidskrift 2. Række, 5. Bind. Christiania 1886).

af því þeir undruðust, hve þekkingin á Norðurlöndum var þar miklu meiri en á öllum kortum fyrri manna, eptir því sem menn þá bezt vissu, því þá þekktu menn ekk uppdrátt Olaus Magnusar, og höfðu enga vitneskju um, hvernig hann hefði verið; nú sjá menn aptur, að Zeno hinn yngri hefir beinlínis brúkað kort Olaus Magnusar, án þess þó að geta um það; hann hefir þó tekið sumt eptir öðrum uppdráttum og gert margar breytingar, eptir því sem honum þótti þurfa eptir ferðasögunni. Það er ekki gott að segja, hvað satt er í frásögninni um ferðir Zenibræðranna, en líklega liggur þó einhver snefill af sannleika til grundvallar; hafi þeir nú ferðazt hér um norðurhöf, þá hefir endurminningin verið orðin svo rugluð hjá Nicolo Zeno yngra, að allt hefir orðið að hrærigraut og sundurlausum molum, og hefir hann svo skáldað inn í eyðurnar, og verður líklega aldrei hægt að skilja hismið frá hveitinu. Zenikortið hefir þó haft fjarska mikil áhrif á landafræðina á 16. og 17. öld, af því menn þekktu ekki frumrit Olaus Magnusar, en notuðu að eins rangfærða og umsnúna eptirmynd, sem var eignuð öðrum. Allflest landabréf frá Suður-Európu frá 16. aldar seinni hluta og fyrri hluta 17. aldar bera þess vott, að höfundarnir hafa farið eptir Zeni-kortinu; á Zeni-kortinu eru mörg lönd í Atlantshafi, sem aldrei hafa verið til, og ganga þau aptur á hverju landabréfi eptir annað, allt fram á 18. öld. Þegar *Frobisher* var í landaleit í norðurhöfum 1576, hélt hann, að suðurhluti Grænlands væri sérstakt land, og væri það Frisland, það sem dregið er upp á Zenikortinu; lengi fram eptir héldu menn, að sund væri á milli suðurhluta Grænlands og Norður-Grænlands, og kölluðu það Frobisher-sund; þetta sýnir meðal annars, hverju ruglingurinn á Zeni-kortinu hefir komið til leiðar. Ísland er orðið æði mun afkáralegra á Zeni-kortinu, heldur en á uppdrætti Olaus Magnusar; höfundur eða útgefandi Zeniferðanna hefir misskilið frumritið stórkostlega. Hafísjakarnir austan við Ísland eru orðnir að eyjum (Bres, Mimant o. s. frv.); nöfnin eru öll meira eða minna af-

bökuð og færð úr stað, en aðallögun landsins er hin sama eins og hjá Olaus Magnus. Foglasker er orðið Flogasker, Hafnarfjörður Anaford, Chaos undir rótum Heklu orðið að staðarnafninu Ochos o. s. frv. Hvalsaukakögglarnir suður hjá Færeyjum eru orðnir að leyndardómsfullum krossum; Færeyjar eru orðnar að einu landi (Frisland) og mjög stækkaðar, og fleira er eptir þessu. Í útgáfum af landafræði Ptolemeusar, sem koma út eptir 1558, er Zenikortið tekið upp eða að minnsta kosti notað, t. d. í útgáfu eptir Girolamo Ruscelli, Venezia 1561, og víðar.

Margir rithöfundar á 16. öld tóku í bækur sínar kafla úr riti Olaus Magnusar; hinn spænski prestur Gomera er einn af hinum fyrstu, er notuðu frásagnir Olaus Magnusar um Ísland. *Francesco Lopez Gomera* var prestur í Sevilla um miðja 16. öld; hann ritaði sögu Ameríku, sem fyrst var prentuð 1553; þar eru kaflar um landaskipun þeirra landa, sem næst eru Ameríku; þar lýsir hann Norðurlöndum og er lýsing hans mjög lík frásögnunum í bók Olaus Magnusar, enda hafði Gomera hitt Olaus Magnus í Bologna og Venedig, og segir, að hann hafi frætt sig um margt, er snertir Norðurlönd. Um Ísland farast Gomera þannig orð: »Islandia er á 73. mælistigi norðlægrar breiddar og er 100 mílur á lengd; sumir halda, að ey þessi sé norðar og þar sé einn dagur jafnlangur og tveir mánuðir hjá oss. Islandia þýðir ís-ey eða ís-land; það er ekki nóg með það, að sjórinn frjósi kring um eyna, heldur hrúgast þar upp á land svo miklir ísar, að brakar í jörðinni. Útlit er til þess, að mennirnir þjáist. Þess vegna halda Íslendingar, að hreinsunareldurinn sé þar og að nokkrar sálir píníst. Þar eru þrjú undarleg fjöll, sem spúa eldi úr rótunum, því snjór er ávallt á tindum þeirra. Þar eru líka tvær merkilegar uppsprettur; í annari er rennandi vökvi, er líkist bræddu vaxi,[1] í hinni sjóðandi

[1]) Hér er átt við ölkeldur, því Gomera hefir, eins og G. Storm bendir á, misskilið orðið »cerevisia« (öl) hjá Olaus Magnus og útlagt það »cera derretida«, brætt vax.

vatn. Allt sem látið er í hina síðarnefndu uppsprettu, breytist í stein, en heldur sínu upprunalega lagi. Birnirnir eru hvítir; tóur, hérar, fálkar, hrafnar og aðrir fuglar og dýr eins. Grasið verður svo hátt, að menn verða að rífa það upp, svo kvikfénu verði eigi örðugt að bíta, og menn reka jafnvel fénaðinn burt af högunum, til þess hann springi eigi af fitu. Ullin er stórgjörð, smjörið gott og mikið; fiskur og smjör er aðalfæða manna. Þar eru margir hvalir, og þeir eru svo óðir, að þeir jafnvel ráðast á skip. Menn hafa byggt kirkju úr hvalrifjum og öðrum beinum þessara og annara stórra fiska. Íslendingar eru háir vexti og gráðugir. Sumir halda, að Islandia sé sama og Thyle, hin nyrzta ey, er Rómverjar þekktu, en svo er eigi, því það er stutt síðan, að Islandia fannst, og hún er stærri og liggur norðar. Thyle er lítil ey milli Orkneyja og Færeyja; hún er nokkru vestar og er á 77° n. br., þó Ptolemeus ekki setji hana svo norðarlega. Islandia liggur 40 mílur frá Færeyjum, 60 frá Thyle, og yfir 100 mílur frá Orkneyjum«. Þar sem Gomera talar um, að braki í jörðinni undir jöklunum, þá er eigi ómögulegt, að þar sé átt við jöklabresti. Hugmyndirnar um eld úr rótum fjallanna eru teknar eptir myndunum hjá Olaus Magnus.[1]

---

Vér höfum hér að framan athugað nokkuð hið helzta, er snertir þekkinguna um Ísland frá fyrstu tímum fram að siðabót, og höfum séð, hvernig þekkingin á landinu ávallt er nábundin menningarástandi Íslendinga sjálfra og annara þjóða í Európu. Það er eiginlega ekkert vísindasnið á þekkingunni um þá; landa- og þjóðafræði eru ekki orðnar sérstakar vísindagreinir; fræðigreinarnar hafa ekki föst takmörk; þekkingin er á ringulreið. Það er því ekki réttlátt að dæma frásagnir þeirra tíma um lönd og þjóðir eptir þeirri þekkingu, sem nú er; menn verða að

[1]) Hvað frásagnir Gomera snertir, þá hefi eg farið eptir útleggingu G. Storms í Norsk historisk Tidskrift 2. Række V., bls. 386-87.

taka tillit til tímans, sem þá var, og grennslast eptir, úr hverjum jarðvegi hugmyndirnar eru sprottnar. Fyrst framan af eru Íslendingar sjálfir fremstir í því að rita um landið og þjóðina, enda er þá gullöld íslenzkra bókmennta; samgöngurnar við útlönd eru mjög örar og algengar og við það helzt fjör og táp í menntun og framkvæmdum. Eptir að landið missir sjálfsforræði sitt, fer smátt og smátt að draga myrkva yfir íslenzkar bókmenntir og Íslendingar láta nú um langan tíma því nær ekkert til sín heyra; samgöngurnar hætta, menntir og manndáð sofna út af. Vér höfum þessu næst talað um þekkingu manna í Suður-Európu á Norðurlöndum og sérstaklega á Íslandi. Rit hinna fornu Íslendinga voru á miðöldunum lítið kunn fyrir utan þau vebönd, er hin norræna tunga setti; en er líður á miðaldirnar fer menntun, verzlun og samgöngur að vaxa í aðallöndum álfunnar; við það víkkar sjóndeildarhringurinn og blæjan lyptist af endimörkum jarðarinnar. Norðurlönd eru í fyrstu alveg ókunn, en dragast smátt og smátt út úr þokunni og eru orðin allvel kunn um miðja 16. öld. Þetta sést bezt, er menn skoða landabréf frá ýmsum tímum; þau sýna glöggt, hvernig sjóndeildarhringurinn allt af er að víkka. Vér höfum reynt að gjöra oss nokkra grein fyrir almennu ástandi menningarinnar á Islandi og annarsstaðar á þeim tímum, er hér ræðir um, og svo sett þær í samband við þær lýsingar á landinu, sem koma fram í bókum og á landabréfum. Ef rita skal sögu einhverrar sérstakrar fræðigreinar, þá verða menn jafnhliða að hafa í huga allt ástand þjóðanna, til þess að skilja framsókn vísindanna; hvað eina verður að skoðast eptir þeim hugsunarhætti og aldaranda, sem þá var, því engin þekking kemur fram snögglega, heldur vex smátt og smátt; af litlu fræi verður laufguð eik.

---

# III. Siðaskiptin. Níðrit um Ísland. Íslendingar rakna við.

## 10. Norðurferðir Englendinga og Dana. Íslandslýsingar frá seinni hluta 16. aldar.

Vér höfum áður drepið á fyrstu ferðir Englendinga til Norðurameríku. Framan af 16. öldinni og einkum seinni hluta aldarinnar lögðu menn mikið kapp á að rannsaka norðurhluta Vesturheims, því Englendingar vildu fyrir hvern mun finna leið fyrir norðan Ameríku til hinna auðugu austurlanda Asíu; var varið ærnu fé til þessara ferða; menn sýndu mikið þrek og komust í ótal mannraunir, en þó tókst mönnum ekki að finna norðvesturleiðina fyrr en á miðri 19. öld. Takmarkinu, að finna stutta og hæga leið til Indlands, varð aldrei náð, en þekking manna á landafræði og náttúrufræði jókst mjög við þessar ferðir, og sjómannalýðnum enska jókst þrek og dugur við allar þær torfærur, sem þeir áttu að glíma við. Þó Englendingar hefðu ekki neinn beinan hagnað af ferðum þessum, þá stuðluðu þær þó óbeinlínis mjög til þess, að skapa yfirburði þeirra í sæferðum og verzlun, sem brátt komu í ljós. Enskir sjómenn, sem fengizt höfðu við fiskiveiðar og verzlun á Íslandi, voru þá langkunnugastir í norðurhöfum, og því taka þeir í fyrstu mjög þátt í ferðum þessum; mörg af skipum þeim, sem gerð voru út í norðurferðir, komu við á Íslandi, og í sumum ferðasögunum er Íslands getið.

Hinrik VIII. sendi 1517 Sebastian Cabot til þess að leita norðvestur-leiðarinnar, og komst hann á þeirri ferð inn í Hudsonssundið, en varð svo frá að hverfa. Eptir það varð nokkurt hlé á norðurferðum Englendinga; en 1576 byrjuðu þeir aptur, og héldu ótrauðir á fram í 60 ár; flest af skipum þeim, sem fóru, voru gerð út með samskotum einstakra manna. Hinn fyrsti þessara norðurfara var *Martin Frobisher;* hann fór þrjár ferðir til norðurstranda Ameríku á árunum 1576, 1577 og 1578. Á fyrstu ferðinni sigldi hann á heimleið (1.—6. sept.) fram með suðurströndum Íslands, og á annari ferðinni getur hann um rekavið, sem hann sá á sjónum, og um ensk fiskiskip við Ísland; hann segir, að Íslendingar hafi nærri engan annan við til eldsneytis og bygginga heldur en rekaviðinn; ætlar hann að trén komi frá Newfoundlandi og reki með straumum frá vestri til austurs.[1]

Nokkru seinna var *John Davis* sendur á stað til landaleita; hann fór 3 ferðir 1585, 1586 og 1587. Á annari ferðinni hafði Davis 4 skip; á 60° n. br. skipti hann liði hinn 7. júní; fór sjálfur beint til Grænlands á tveim skipum, en sendi hin tvö til Íslands, til þess að kanna sundið milli Íslands og Grænlands, og áttu þau síðan að sigla norður á bóginn allt að 80° n. br., ef hægt væri. *Henry Morgan,* sem var á skipinu »Sunshine«, hefir lýst þeirri ferð. Hinn 9. júní komu þeir að fastri ísrönd, og sigldu fram með henni í 3 daga, og sáu á 3. degi fjöllótt land á 66° n. br.; það var Ísland; 12. júní komu þeir þar á höfn og köstuðu akkerum; það hefir líklega verið á Vestfjörðum. Þeir hittu marga Íslendinga, og farast söguritaranum þannig orð: »Verzlunarvörur þeirra voru fiskur, löngur, skreið og skötur, og höfðu þeir miklar birgðir af þessum fiskum. Þeir eiga einnig kýr, kindur og hross og hey handa þeim; vér sáum líka nokkra af hundum þeirra. Veggirnir á húsum þeirra voru hlaðnir úr grjóti

[1]) *R. Hakluyt:* The principal navigations, traffiques and discoveries of the english nation. London 1599. Fol. Vol. III., bls. 31, 33, 61.

og rept yfir með viði og torfi, og var þakið flatt; mörg húsin voru fast við sjóinn.[1] Bátar þeirra eru úr tré og járnspöng eptir kilinum, eins og á enskum bátum; þeir höfðu og nagla til þess að negla þá með; þeir hafa líka öngla og önnur tæki til fiskiveiða, hin sömu eins og vér notum hér á Englandi. Þeir eiga líka eirkatla og belti og punga úr leðri, með koparhnöppum, axir og önnur smától, hin sömu sem vér. Þeir þurka fisk sinn í sólskini, og þegar hann er þurr, hlaða þeir honum upp efst í húsunum. Ef vér vildum fara þangað til fiskiveiða meir en nú, þá mundum vér hafa af því mikinn ágóða; vér veiddum þar 100 þorska á einum morgni. Vér hittum þar Englendinga á skipi; höfðu þeir í ár (1586) lagt frá Englandi um páska; einn þeirra kom upp á skip vort og færði okkur tvö lömb; hann hét John Roydon og var kaupmaður frá Ipswich; hann ætlaði með skip sitt til London. Þetta er hið helzta, er eg tók eptir á Íslandi«. Þeir fóru frá Íslandi um morguninn 16. júní, flæktust svo í ís og sáu Grænland 7. júlí, en gátu ekki komizt í land fyrir ísum.[2] Lýsing þessi ber það með sér, að Englendingar hafa undrazt það, hve vel Íslendingar voru útbúnir til fiskiveiða; þeir höfðu áður verið í norðurferðum og höfðu hitt Skrælingja og hafa hálfvegis búizt við að hitta líkt fólk á Íslandi. Hinn ágæti enski farmaður, *Henry Hudson*, kom líka til Íslands 1610 í maímánuði;[3] það var á hinni síðustu ferð hans; þá fann hann Hudsons-flóann; en þar gerðu hásetar hans uppreisn móti honum og skildu hann eptir og hefir ekkert spurzt til hans síðan; mun það níðingsverk lengi í minnum haft.

Þegar Danir á 16. öld byrjuðu að leita Grænlands, fengu þeir ýmsar upplýsingar á Íslandi, og skip þau, sem gerð voru út þangað til landaleita, komu hér við. *Jacob Allday*, er fyrstur var sendur af Friðrik II. til þess

[1]) Þetta hafa líklega verið hjallar.

[2]) *R. Hakluyt:* Principal navigations and discoveries III., bls. 109.

[3]) *J. R. Forster:* Geschichte der Entdeckungen, bls. 385.

að leita Grænlands 1579, kom við á Islandi í ágústmánuði í Kirkjuvogi fyrir sunnan,[1] og Björn á Skarðsá segir, að *Mogens Heinesen* hafi á Grænlandsferð sinni 1586 komið við suður í Höfnum.[2] Árið 1607 voru gjörð út tvö skip til þess að leita austurstrandar Grænlands; *Carsten Richardsen* réð fyrir þeirri ferð; þóttust Danir vissir um, að þeir mundu hitta þar afkomendur hinna fornu landnámsmanna, og því voru nokkrir íslenzkir hásetar á skipunum, til þess að tala við Grænlendinga; skip þessi gjörðu ýmsar tilraunir til þess að komast gegn um ísinn við austurströndu Grænlands; komust í miklar hættur og hrakninga, en urðu frá að hverfa við svo búið. Á árunum 1652—54 gjörðu Danir enn þá tilraunir til þess að finna Austurbyggðina; danskur auðmaður, Hinrik Möller að nafni,[3] kostaði ferðir þessar, og hafði konungur 15. apríl 1652 gefið leyfi til þess, að skip hans mættu koma við á íslenzkum höfnum, og að þau mættu fiska við Island og fá sér íslenzka háseta, bæði til vinnu ef þyrfti og eins sem túlka; eins máttu þeir kaupa kvikfé á Íslandi, til þess að stofna nýlendur á Grænlandi;[4] í þá daga var allt smásmuglega ákveðið, því konungar þóttust einir ráða öllu, er snerti Ísland. Hinrik Möller réð til sín duglegan skipstjóra, *David Danell* að nafni; hann hefir líklega verið Hollendingur og varð hann fyrirliði þriggja sendiferða til Grænlands.[5] Fyrstu ferðina fór Danell 1652 á tveim skipum; sigldu þeir norður fyrir Ísland fram hjá Grímsey í maímánuði; þar sáu þeir fjölda margar enskar duggur, sem voru að fiska; héldu síðan vestur undir

---

[1]) Grönlands historiske Mindesmærker III., bls. 642.

[2]) Annálar Björns á Skarðsá, bls. 147. Pingel heldur, að Mogens Heinesen hafi farið til Grænlands 1581, en ártalið 1586 á betur við frásögn Lyschanders í »Den grönlandske Chronica«, sem segir, að að Friðrik konungur annar hafi dáið skömmu eptir að Mogens Heinesen kom heim, en konungur dó 4. apríl 1588.

[3]) Sonur hans var Kristján Möller til Katterup, sem var amtmaður á Íslandi 1688-1707.

[4]) Lovsamling for Island I., bls. 242-243.

[5]) Grönlands historiske Mindesmærker III., bls. 713-725.

Grænland, og voru þar í mánuð að flækjast í ís fram með ströndinni, og komust hvergi á land; sigldu svo suður fyrir landið og komu inn í firði á vesturströndinni. Í júlímánuði sneru þeir aptur til Íslands, reyndu um leið aptur að komast að austurströndinnni, en það tókst ekki; komu þeir svo 5. ágúst til Reykjavíkur og sendu boð til Brynjólfs biskups Sveinssonar, því hann þekkti þá manna bezt gamlar íslenzkar frásagnir um Grænland, og kom hann til fundar við þá. Sama ár 3. maí hafði konungur boðíð báðum biskupunum á Íslandi að láta í té allar upplýsingar, er þeir gætu um Grænland.[1] Árið 1664, 16. júlí, býður konungur einnig Eiríki biskupi í Þrándheimi, að senda stjórnarráðinu öll skjöl og bréf um Grænland og Ísland.[2] Aðra ferð til Grænlands fór Danell 1653, og kom hann þá líka við á Íslandi og lá 18 daga á Reykjarfirði, og á heimleiðinni kom hann við á Bessastöðum.

Árið 1670 sendi Kristián V. *Otta Axelsen* til Grænlands, og aðra ferð hið næsta ár á eptir. Á þeirri hinni seinni ferðinni hvarf Otti með skipi og mönnum og hefir ekkert spurzt til hans síðan. Þeir Otti komu við á Íslandi og ætlaði Þormóður Torfason að sigla með þeim um haustið; hvarf þeirra þótti kynlegt og gengu um það ýmsar sögur á Íslandi, eptir því sem Þormóður segir. Otti Axelsen varð ósáttur við hollenzkan skipstjóra á Íslandi og drap af honum nokkra menn; þá flýðu Hollendingar, en hétu, að þeir skyldu brátt hefna sín; sigldi Otti þá til Grænlands, en Hollendingar heim til sín; var það mál manna, að Hollendingar hefðu samsumars komið aptur til Íslands á stærra skipi, hitt Otta fyrir utan Garðskaga á heimleið, ráðizt á hann og skotið skipið í kaf.[3] Ekki er gott að vita, hvort nokkuð er satt í þessari sögu; það er alveg eins líklegt, að þeir Otti hafi farizt í ísum við Grænland.

---

[1]) *Magnús Ketilsson:* Forordninger III., bls. 48.

[2]) *Magnús Ketilsson:* s. st. III., bls. 117.

[3]) Grönlands historiske Mindesmærker III., bls. 726.

Ísland varð að nokkru leytí miðdepill þessara Grænlandsferða, af því Íslendingar vissu mest um hina fornu byggð á Grænlandi. Konungar og stórhöfðingjar í Danmörku voru mjög áfram um að finna hina fornu Austurbyggð og hvöttu íslenzka fræðimenn til þess að rannsaka fornar bækur og skjöl, er snertu landfræði Grænlands og norðurhafa; varð þetta líka til þess, að menn fengu nánari hugmyndir um Ísland sjálft; íslenzkir fræðimenn gjörðu uppdrætti af norðurhöfum og Íslandi og juku töluvert landfræðisþekkingu manna erlendis. Munum vér síðar geta þess nánar.

Um seinni hluta 16. aldar er Íslands opt getið í landfræðisbókum ýmsra erlendra fræðimanna; lýsingar þeirra eru optast stuttar og svipaðar þeim, sem áður hafa verið nefndar; þær bera allar vott um það, hve fjarlæg lönd enn voru ókunn og hve trúgjarnir menn voru, er þeir hugsunarlaust færðu hverja kerlingarbókina í letur, sem þeim barst. Arngrímur Jónsson hinn lærði getur um flesta þá höfunda, er ritað höfðu um Ísland á 16. öldinni. Vér höfum hér að framan getið um flesta af hinum eldri höfundum, en skulum hér að eins fljótlega minnast á nokkra aðra, er rituðu um Ísland á seinni hluta 16. aldar.

Einn af þeim höfundum, er Arngrímur lærði einna optast getur um, er *Gemma Frisius*, sem eiginlega hét *Reinerus*; hann var læknir og stærðfræðingur og í miklum metum hjá Karli keisara 5.; hann var fæddur í Dockum á Fríslandi 1508 og dó 1555 (eða 1558). Gemma Frisius lýsir landinu og eldfjöllunum líkt og Münster, og segir, að í eldi Heklu geti hör ekki brunnið; hann talar um svipi, líkt og Ziegler, og um hafísinn, og segir, að ekki sé hægt að sigla til Íslands nema 4 mánuði af árinu sökum ísa og frosta. Frisius segir, að á Íslandi séu 4 uppsprettur með undarlegri náttúru; ein sé sjóðandi heit og breyti öllu í stein; önnur er óþolandi fyrir kulda sakir; hin þriðja er sætari en hunang, en hin fjórða baneitruð; hann segir, að íslenzkir hestar sé afarfljótir og geti hvíldarlaust runnið 30 mílur í einu; Frisius segir og,

að á Íslandi séu þeir margir, er leika svo vel á hörpu, að þeir lokka til sín fiska og fugla og veiða þá svo.[1] Þetta er sama sagan, sem kemur fram í myndunum á landsuppdrætti Olaus Magnusar.

*Hieronymus Cardanus* (f. í Pavia 1501, dó í Róm 1576) var merkur vísindamaður; hann fékkst við náttúrufræði, stærðfræði, læknisfræði og heimspeki, og gjörði ýmsar ágætar uppgötvanir í stærðfræði og læknisfræði; hann var mjög einkennilegur maður, ákafur í lund og sérvitur og ekki við eina fjölina felldur; hann gjörði tilraunir til þess að útrýma ýmis konar hjátrú, en gat þó eigi alveg hafið sig yfir tíðarandann og var sjálfur í aðra röndina mjög auðtrúa.[2] Í einni af bókum sínum getur Cardanus um draugagang á Íslandi og fer þar auðsjáanlega eptir Ziegler; hann kemst svo að orði: »Íslendingar halda, að þeir sjái ættingja sína, sem dánir eru, og að þeir faðmi þá, en segja, að þeir þá hverfi. Á Íslandi er mjög mikið af jarðbiki; menn lifa þar enn á ávöxtum, rótum, möluðum fiskum og vatni; með því eyjan liggur í íshafinu, getur korn eigi þroskazt þar sökum ógurlegs kulda, hvað þá heldur vín. Þar verða svipirnir sökum mataræðisins, loptsins, jarðvegsins og kuldans einna áþreifanlegastir. Sökum þéttleika loptsins og gufunnar, sem samandregin er af kulda, reika svipirnir þar ekki síður en í skýjunum; þessum svipum, sem eru tilkomnir af villu, ótta og umhugsun, heldur hið þétta og jarðlega lopt, þar til þeir verða skynjanlegir; af því ímynda þeir

[1]) Eg hefi ekki haft fyrir mér rit eptir Gemma Frisius sjálfan, en hefi farið eptir því, er Arngrímur lærði segir um hann í »Commentarius de Islandia«. Eitt af helztu ritum hans er »Charta sive totius orbis descriptio«. Öll rit hans (opera collecta) eru gefin út í Frankfurt 1582. 8vo.

[2]) Það er sagt um Cardanus, að hann hafi reiknað út dauðadag sinn, en þegar spádómur hans ætlaði ekki að rætast, svelti hann sig til bana, svo ekki sæist, að honum skeikaði; líklega er þetta þó að eins þjóðsaga. Um æfi Cardanusar og uppgötvanir má lesa í *A. Heller:* Geschichte der Physik. Stuttgart 1882 I., bls. 323-326.

sér, að þeir sjái þá og tali við þá. Þeir ætla, að þeir sjái kunningja og framliðna menn, af því þeir vita, að lifandi menn eru þar eigi, og af því þeir hverfa, er þeir eru faðmaðir, því enginn ætlar, að ókennd mynd t. d. »chimæra« eða »hippocentaurus«, sé í skýjunum, því öll myndbreyting verður eptir þekktum hlutum. En hvers vegna svara vofur þessar, að þær ætli til Heklufjalls? Hekla er fjall á þessari ey, sem brennur við og við á sama hátt eins og Etna á Sikiley; þess vegna hafa þeir myndað sér þá sannfæringu, að sálir hreinsist þar, en aðrir bæta ósannindum við söguna, svo að þeir verði ekki álitnir óáreiðanlegir og komist i missögn. Annað eins og þetta, sem opt er sagt að gerist á Íslandi, kemur og fyrir alstaðar annarsstaðar, þó sjaldan sé«.[1] Það er ekki gott að komast fram úr þessu hálfvísindalega moldviðri, en meiningin á víst að vera sú, að svipir þeir, sem Íslendingar sjái, séu ekki annað en missýningar, er verði af eðlilegum orsökum. Nokkru seinna segir líka Cardanus: »Á sandeyðimörkum Egyptalands, Eþíópíu og Indlands, þar sem sólarbruni er mikill, leika þessar myndir og þessir svipir á ferðamenn, alveg eins og á Islandi«. Cardanus heldur því auðsjáanlega, að svipir og draugar, er menn þykjast hafa séð, séu ekki annað en missýningar og hyllingar, og er hann í því langt á undan samtíðarmönnum sínum, því allflestir trúðu því í þá daga, að þetta væru draugar og púkar, sem sloppið hefðu út úr hreinsunareldinum eða víti, en væru nú að »frilysta« sig á jörðunni og gjöra mönnum skráveifur. Í annari bók nefnir Cardanus líka Ísland og getur þess, að Islendingar gjöri brauð úr þurkuðum fiski.[2] *Caspar Peucerus* tengdasonur Melanchtons, var af allt öðru sauðahúsi en Cardanus, enda dettur honum ekki i hug að efast um, að til séu draugar og árar. C. Peucerus var læknir; hann

---

[1]) *H. Cardani:* De subtilitate libri XXI. Basileæ 1611. 8vo, bls. 952-954.

[2]) *H. Cardani:* De rerum varietate libri XVII. Basileæ 1581. 8vo., bls. 34,

var fæddur í Lausitz 1525 og dó 1602; hann hefir ritað dálítið um Heklu: »Á Íslandi er fjallið Hekla; þar er ógurleg gjá eða öllu fremur vítisdjúp; þar kveður við af eymdarlegu og grátlegu veini, svo raddir hinna kveinandi heyrast rúma mílu allt í kring. Kring um þessa gjá fljúga hópar af kolsvörtum hröfnum og gömmum, og ætla íbúarnir, að þeir verpi þar.[1] Á því fjalli spretta upp tvær lindir; er vatnið í annari svo kalt og í hinni svo óþolandi heitt, að yfirgengur allt eðli náttúrunnar. Alþýða manna er sannfærð um, að þar sé niðurgangur til helvítis, því þeir vita það af langri reynslu, að ef orustur eru háðar einhverstaðar í heiminum eða þegar blóðug víg eru framin, þá heyrist þar ógurlegur hávaði, óp og ýlfran«.[2]

*Nathan Chythræus* segir frá Íslandi hér um bil á þessa leið: »Við eyju þessa er ótölulegur grúi fiska og veiða íbúarnir þá á vetrum og þurka þá í norðanvindi og hræðilegum gaddi, því á ey þessari, sem liggur undir heimskautsbaug, er nístandi kuldi. Þegar vorar, koma þangað Englendingar, Þjóðverjar og íbúar ýmsra annara landa, til þess að kaupa þenna freðna fisk og gefa fyrir hann mjöl og öl. Fiskar þessir eru svo harðir, að það verður að berja þá á steini með járnhömrum; síðan eru þeir í tvo daga bleyttir í vatni og svo eru þeir etnir með smjöri. Fiskafjöldinn er eigi að eins mikill við þessa ey, heldur um allt »skyþiska« hafið, og eru nokkrir svo stórvaxnir, að þeir eru líkari sjóskrýmslum en fiskum. Nokkrir þeir,

---

[1]) Til samanburðar má hér setja það, sem sagt er í Flateyjarannál um Heklugosið 1341: »menn fóru til fjallsins, þar sem uppvarpit var ok heyrðist þeim sem bjargi stóru væri kastat innan um fjallit. Þeim sýndust fuglar fljúga í eldinum bæði smáir ok stórir ok með ýmsum látum; hugðu menn vera sálir«. Íslenzkir annálar. Kristiania 1888, bls. 401.

[2]) *C. Peucerus:* Commentarius de præcipuis generibus divinationum. Witebergæ 1576. 8vo. fol. 144 a-b. Í þessari bók eru langar klausur um ára og anda og öll þeirra mörgu illvirki í heiminum (sbr. t. d. fol. 30 o. s. frv.). Hugsunarháttur þátímans var svo ólíkur því, sem nú er, að oss er nærri ómögulegt að skilja í því, hve einfaldir og auðtrúa menntaðir menn í þá daga gátu verið.

sem siglt hafa um þessi höf, segja, að þar sjáist »múrenur«, svipaðar höggormum, svo stórar, að þær ráðast á, skip, grípa háseta eða farþegja og eta þá. Íbúarnir á þessari ey gjöra sér hús neðanjarðar og hlaða veggina úr hvalbeinum; þar er mikil vöntun á trjávið, því þar vaxa að eins á fáum stöðum örsmáar hríslur. Drottinn veitir þeim samt nógan trjávið árlega, því þangað reka vindar að ströndunum fjölda mörg tré eins og skipsfleka úr norðurátt; það eru margs konar stór og löng tré, og hafa hvirfilvindarnir rifið þau upp með rótum; þenna rekavið nota íbúarnir. Auk þess, segja þeir, að þar heyrist til anda, sem ávarpa hver annan og kalla hver annan eiginnöfnum; stundum birtast þeir lifandi mönnum og er sagt um andana, að þeir segi þeim til sín og hverjir þeir séu. Sumstaðar á þessari ey brýzt út hræðilegur eldur, kastast langt upp og hringsnýst; enn fremur segja íbúar eyjar þessarar, að margt annað sé þar undarlegt að sjá og heyra, en eg sleppi því, til þess ekki að verða of langorður«.[1]

Vér höfum áður getið þess, að kortagjörðin tók miklum framförum á 16. öld; voru það einkum þýzkir landfræðingar, sem fremstir voru í þeirri mennt; Þjóðverjar voru þá á undan flestum í myndagjörð og tréskurði og áttu marga framúrskarandi stærðfræðinga og stjörnufræðinga, en list og vísindi urðu að sameinast, til þess að kortagjörðin gæti komizt í viðunanlegt horf. Sextánda öldin er í vísindalegu tilliti mikil framfaraöld; innan um hjátrúna og kreddurnar sprettur upp hinn frjóvsamasti nýgræðingur lista og vísinda. *Gerhard Mercator* (1512-1594) var fremstur allra landfræðinga á þeirri öld;[2] hann kom stærðfræðisreglu á stiganet landabréfanna og var þá miklu til vegar komið. Í fyrstu komst þó einungis lag á uppdrætti þeirra landa, sem bezt voru kunn; uppdrættir

[1]) *Nathan Chythreus*: Variorum in Europa itinerum deliciæ seu inscriptionum monumenta. Ed. III. 1606. 8vo, bls. 605-606.

[2]) Gerhard Kremer genannt Mercator der deutsche Geograph von Dr. Breusing. Duisburg 1869.

Mercators af Mið-Evrópu eru ágætlega nákvæmir, en hin fjarlægari lönd á endimörkum jarðar voru enn sem fyrr dregin upp eptir óljósum fregnum og samkvæmt rugluðum hugmyndum þátímans; þar var heldur ekki hægt að styðjast við neinar mælingar. Þegar Mercator dó, eignaðist *Jodocus Hondius* (1563-1611) eirplötur þær, er Mercator hafði stungið, og gaf hann síðan út uppdráttasafn Mercators og jók ýmsu við. Um þessar mundir fór kortagjörðin að dragast til Niðurlanda, og á 17. öld komu hin stærstu og beztu kortasöfn út á Hollandi. Vinur Mercators, *Abraham Ortelius* († 1598), var framarlega í flokki þessara landfræðinga; hann gaf út safn af landsuppdráttum 1570, sem hann kallaði »Theatrum orbis«, og naut við útgáfuna styrks Mercators vinar síns. Af þessum landabréfum komu út margar útgáfur, og í 4. útgáfunni er, meðal annars, uppdráttur af Íslandi, sem ber langt af öllum þeim, sem áður höfðu verið til. Ortelius segist hafa fengið þetta Íslandskort frá *Anders Sörensen Vedel*, merkum dönskum sagnaritara, en það er fullsannað, að uppdrátturinn er eptir Guðbrand biskup Þorláksson, og munum vér síðar geta nánar um það mál. Þessi Íslands-uppdráttur endurtekst eptir þetta í öllum kortasöfnum á 17. öld, þó stundum með lítilfjörlegum breytingum. Veruleg endurbót á uppdrætti Íslands kemur ekki fyrr en 1734, þegar *Knopf* gjörði uppdrátt sinn.

Í bók Ortelíusar er allöng lýsing á Íslandi;[1] þar er ýmsu safnað saman úr bókum og líka vitnað í hið fyrsta rit Arngríms lærða (Commentarius de Islandia); þó trúir Ortelíus ýmsum skrípasögum hinna eldri höfunda; hann gjörir öllum höfundum jafnt undir höfði; frásögnin er því blendingur af röngu og réttu. Lýsing Ortelíusar er þó mikið betri en margar aðrar, er út komu um sama leyti eða jafnvel seinna, t. d. lýsing Blefkens. Í mörgum bókum og uppdráttasöfnum er Íslandslýsing Ortelíusar síðar notuð, því hver etur eptir öðrum. Fyrst getur Ortelíus

[1]) *A. Ortelii:* Theatrum orbis 1595, bls. 103.

um Aðalbert Brimabiskup og áhrif hans á kristni Íslendinga, og fer þar eptir Adam frá Bremen; síðan getur hann þess, að margir kalli Ísland Thule, en segir það sé eigi rétt, en heldur að Thule sé á Skandinavíuskaga og vitnar einkum í Prokopíus.

Ortelíus talar fyrst um nöfn Íslands og segir það sé kallað Ísland, Snæland og Garðarshólmi; hann segir, að landið sé 100 þýzkar mílur á lengd, en það sé að mestu leyti óræktað og fjöllótt, og fyrir norðan geti runnar ekki vaxið sökum harðra norðanvinda. Ísland komst undir Noregskonung um 1260 og konungur Dana og Norðmanna, sendir þangað landstjóra á ári hverju og hlýða Íslendingar þeim, eins og þeir fyrrum hlýddu biskupum sínum; Ísland byggðist fyrst á dögum Haralds hárfagra; heldur Ortelíus, að það hafi líklega verið um árið 1000, en þó getur hann þess, að Arngrímur Jónsson telji upphaf Íslands byggðar 874. Ortelíus getur þess enn fremur, að hann hafi lesið í riti Zeni-bræðra, að Zichmni Fríslandskonungur hafi ráðizt á Ísland, en orðið frá að hverfa. Því næst segir Ortelíus, að Ísland skiptist í 4 fjórðunga, og nefnir nöfn þeirra; þar eru tvö biskupsdæmi, Skálholt og Hólar, og skóli við hvorn biskupsstólinn; því næst telur hann klaustrin og eru nöfnin mjög bjöguð; segir hann, að Vedel hafi skrifað sér, að þar séu auk þess 325 kirkjur. Ortelíus getur þess, að Kranz og aðrir höfundar segi, að Íslendingar búi í hellum og holi sér híbýli inn í fjallshlíðar, en sumir byggi sér hús úr hvalbeinum; þó bætir hann við, að Arngrímur segi, að Íslendingar byggi sér hús úr tré, hnausum og grjóti, og séu sum þeirra stór og dýr. Ortelíus segir, að Íslendingar tali Cimbra-mál eða gamla þýzku, og segist hann hafa séð íslenzka biblíu prentaða á Hólum 1584. Stórgripir eru ekki aðrir á Íslandi en hestar og naut; þar eru engin tré, nema birki og einir, en gras er þar svo mikið, að því er allir höfundar segja, að það verður að reka féð af högunum, svo það ekki kafni af fitu. Á Íslandi vex ekkert korn, en menn lifa mest á fiski, er þeir þurka og berja, svo þeir

verða nærri að méli og nota þeir þá í brauðs stað. Til forna drukku Íslendingar eingöngu vatn, en síðan kaupmenn fóru að flytja þeim vín, þola þeir ekki að smakka blávatn. Hamborgarar og Brimabúar koma þar árlega og flytja til Íslands mjöl, brauð, öl, mjöð og brennt vín, en Englendingar flytja þangað ódýra ullar- og líndúka, járn, stál, tin, kopar, silfur, gull- og silfurpeninga, hnífa, skó, kvennhúfur og kápur og hatta; þeir flytja einnig við, er Íslendingar byggja úr hús sín og báta. Fyrir þetta láta Íslendingar vaðmál, ógrynni af brennisteini og fjarska mikið af hörðum fiski; kemur fiskurinn mestur að sunnan og vestan, en grasvöxtur er einna mestur fyrir norðan og austan, og því flyzt þaðan nauta- og sauðakjöt, smjör og ull. Þar fást og villidýraskinn, hvítar tóur og fálkar og hestar, sem flestir eru skeiðhestar. Naut og kýr eru allar kollóttar á Íslandi, en sauðkindur ekki. Þessu næst talar Ortelíus um Heklu, um draugasögur Zieglers, um »drollos« eða tröll og annað því líkt; hann nefnir hverina, er geri allt að steini, og ölkeldurnar, og segir, að á Íslandi sé svo eitruð uppspretta, að ef einhver smakkar á vatninu, þá dettur hann dauður niður; að lokum getur hann þess, að það sé algeng hjátrú, að sálir dauðra manna séu fluttar til Íslands (líklega til pyndingar í hreinsunareldi eldfjallanna eða innan um hafísinn, eins og sumir segja).

Skýringar þær, sem fylgja uppdrætti Ortelíusar, eru mest um illhveli og skrýmsli; það var tízka í þá daga, að prýða landabréfin með myndum af alls konar óvættum og ófreskjum. Það er auðséð á skýringum þessum, að aðalefni þeirra er komið beina leið frá Íslandi. Fyrst er talað um náhvalinn; hver sem etur kjöt hans, deyr strax; hann hefir 7 álna langa tönn standandi fram úr höfðinu og hafa sumir selt hana sem einhyrningshorn;[1]

[1]) Náhvalstennur voru í þá daga seldar dýrum dómum sem lyf gegn eitri, og héldu menn þær væri horn af dýri nokkru eða skrýmsli, sem kallað var einhyrningur, og rituðu lærðir menn opt um þetta dýr. Hér er í fyrsta sinni skýrt rétt frá því, úr hvaða dýri hornið

menn halda, að hún sé góð móti eitri; skepna þessi er 40 álna löng. Reyðarhvalir eru 130 álna langir og tannlausir; kjöt þeirra er gott til átu og spikið læknar marga sjúkdóma; á búrhvelinu er hausinn stærri en skrokkurinn allur; það hefir margar og sterkar tennur; enn fremur getur hann um sverðfiska, hrosshveli, skötuhval, sænaut, steypireyði, stökkul, rostung o. fl., nefnir öll þessi dýr með íslenzkum nöfnum og er íslenzkur blær á frásögninni um þau; að lokum getur hann um rekaviðinn, hafísinn og hvítabirni, og endar með kvæði um Ísland eptir Erasmus Michaëlis. Ennfremur eru þar nokkrar útskýringar á íslenzkum nöfnum, er á uppdrættinum standa; er af þessu og öðru augljóst, að uppdrátturinn er kominn frá Íslandi, og í þá daga var enginn Íslendingur nema Guðbrandur biskup fær um að búa til landabréf. Í »Atlas minor« eptir Gerard Mercator, er I. Hondíus gaf út,[1] er þessi lýsing Orteliusar prentuð því nær orðrétt; þessi bók var mjög mikið notuð og margir tóku kafla um Ísland aptur úr henni.

## II. Enn um viðskipti Íslendinga við Þjóðverja. Gories Peerse, Blefkenius, Fabricius.

Á fjórða áratugi 15. aldar stóð verzlun Þjóðverja á Íslandi með sem mestum blóma. Um það leyti var ófriður mikill í Danmörku (greifastríðið) og tóku Hansamenn, sem kunnugt er, mikinn þátt í þessari styrjöld,

er, og að það er ekki horn, heldur tönn, og er sá fróðleikur eflaust kominn frá Guðbrandi biskupi til Orteliusar. Árið 1638 skrifaði Oli Worm ritgjörð um þetta efni: »An os illud quod vulgo pro cornu monocerotis venditatur verum sit unicornu«? og seinna gaf Thomas Bartholin út bók: »De unicornu 1645«; höfðu þeir báðir áður spurzt fyrir á Íslandi um hvali þessa og fengið þaðan lýsingar, tennur, hauskúpur o. fl. (sbr. Epistolæ O. Wormii I., bls. 104-105, 106, 113-14; 117-18).

[1]) Atlas minor *Gerardi Mercatoris* a I. Hondio plurimis æneis tabulis auctus atque illustratus. Amstelodami 1607. Grallarabrot, án blaða- eða blaðsíðutals.

enda var verzlunarkeppni ein af aðalorsökum ófriðarins; höfðingjar Dana höfðu þá við öðru að snúast en að skipta sér af verzlun á Íslandi, svo Þjóðverjar gátu stundað hana eins og þeir vildu; Kristofer greifi af Oldenburg gaf jafnvel Markus Meyer einum af foringjum Hansamanna Ísland að léni,[1] en ekki entist Meyer hamingja né aldur til að hagnýta sér þetta embætti. Þjóðverjar höfðu þá opt vetrarsetu á Íslandi, án þess nokkuð væri amazt við þeim af stjórnarinnar hálfu, en brösótt áttu þeir enn sem fyrrum við Englendinga.

Verzlun Englendinga hafði þá mjög hnignað, en fiskiveiðar þeirra voru í uppgangi; Þjóðverjar fengust mikið minna við þilskipaveiðar. Í byrjun aldarinnar (árið 1500) er það ákveðið með dómi, að taka skuli þá Englendinga fasta, sem fiski með lóðum við strendurnar, en eigi verzli;[2] en slíkt hefir eflaust aldrei verið framkvæmt. Flestir Englendingar hafa eflaust fiskað leyfislaust við Ísland; þó eru þess dæmi, að sumir sækja um leyfi til Danakonungs; 1592 fær t. d. Remund Ringe frá Harrwich eptir beiðni Elisabethar drottningar leyfi Danakonungs til þess að fiska við Ísland í 7 ár, og koma inn á hverja höfn, sem hann vill.[3] 1532 13. október ritar Friðrik I. Danakonungur Hinriki VIII. Englakonungi, og kvartar undan yfirgangi enskra fiskimanna á fiskistöðvum við Ísland, og er af því bréfi auðséð, að fiskiveiðar Englendinga hafa þá þegar verið orðnar mjög miklar.[4] Englendingar hafa úr þessu miklu minni verzlunarviðskipti við Íslendinga en fyrr, en halda sér á duggum fyrir utan strendur landsins, og koma að eins við og við inn á hafnir. Enska stjórnin reyndi á ýmsan hátt að styðja þenna atvinnuveg; 1548 var með lögum bannað að leggja nokkurn skatt á atvinnu þeirra skipstjóra og háseta, sem fiskuðu við New-

[1]) *E. Baasch:* Forschungen zur hamburgischen Handelsgeschichte I., bls. 31 og 135. Sbr. Safn til sögu Íslands II., bls. 675.

[2]) *Finnur Jónsson:* Historia ecclesiastica II., bls. 247.

[3]) *Magnús Ketilsson:* Forordninger II., bls. 148-50.

[4]) *E. Baasch:* Hamb. Handelsgesch. I., bls. 59.

foundland og Island.[1] Eflaust hafa fiskiskip ýmsra annara þjóða í þá daga fiskað við Island, þó lítt sé þess getið í íslenzkum bókum; Englendingar voru á 16. öld enganveginn einir um hituna hér norður í höfum.[2] 1613 er getið um 18 gaskónsk hvalveiðaskip, er komu fyrir vestan, og 1614 og 1615 gerðu Spánverjar strandhögg og rændu á Vestfjörðum, og hefndu Íslendingar sín grimmilega;[3] eins eru til sagnir um Spánverja á Austfjörðum.[4]

Þjóðverjar höfðu litla þilskipaútgjörð, en þeir héldu opt úti róðrarskipum í verstöðunum, uns það var bannað 1544; um það leyti var farið að festast ýmislegt ófrelsi, hvað snerti útgjörð skipa og kvaðir kotunganna, og hafði það sem kunnugt er hin verstu áhrif á sjóþorpin; 1511 lét Stefán biskup dæma róðrarkvaðir á landseta staðarins;[5] höfuðsmenn, kaupmenn og jarðeigendur tóku fljótt í sama strenginn.

Þegar Kristián III. var orðinn fastur í sessi í Danmörku, tók brátt að sverfa að verzlunarfrelsi Þjóðverja á Islandi, enda átti konungur þeim grátt að gjalda fyrir óvináttu þá, sem þeir höfðu sýnt honum í greifastríðinu; Norðurlandabúar voru og orðnir leiðir á verzlunarofríki Hansastaðanna, og fóru nú að reyna að bjarga sér sjálf-

---

[1]) *J. R. Forster*: Geschichte der Entdeckungen und Schiffahrten im Norden. Frankfurt a. O. 1784, bls. 338.

[2]) Til samanburðar má geta þess, að *Anton Parkhurst*, skipstjóri frá Bristol, segir í skýrslu um fiskiveiðar við New-foundland 1578, að þar hafi þá árlega komið til fiskiveiða 50 skip ensk, 100 skip spönsk (5-6000 smálestir) og 20-30 skip baskisk, er eingöngu fengust við hvalaveiðar; auk þess komu þar 50 skip frá Portúgal (3,000 smálestir) og 150 skip frá Frakklandi, einkum Bretagne (7000 smálestir) sbr. *J. R. Forster*: Geschichte der Entdeckungen, bls. 339.

[3]) Espólíns árbækur V., bls. 129, 132, 135-37. Fróðleg frásögn um rán Spánverja á Vestfjörðum og um dráp þeirra er í þætti Jóns Guðmundssonar lærða eptir Gísla Konráðsson í hdrs. J. S. nr. 291. 4to, bls. 5-43. Sbr. Æfidrápa Jóns Guðmundssonar hdrs. J. S. Fol. nr. 92. Síra Ólafur Jónsson á Söndum kvað líka drápu um rán Spánverja.

[4]) Andvari IX. 1883, bls. 74-75.

[5]) Árbækur Espólíns III., bls. 30-31.

ir. Um langan tíma höfðu Þjóðverjar óátalið rekið verzlun á Íslandi, haft þar vetrarsetu og útgjörð til fiskiveiða; en nú fer danska stjórnin, er henni vex fiskur um hrygg, að vitna í forn bréf og fornar lagavenjur, er banna útlendum verzlun á Íslandi; konungur skoðar verzlunina sem eign krúnunnar, sem hann hafi einn yfirráð yfir, og vill nú aptur ná rétti þeim, sem undan var genginn. Árið 1542 gefur konungur út bréf, er bannar eptirliggjurum og útlendum kaupskap á Íslandi, og hið sama er endurtekið í alþingisdómi 1545.[1] Ennfremur ræðst stjórnin á fiskiútgjörð Þjóðverja; 1544 krafði Otti Stígsson höfuðsmaður lögmenn báða, Erlend Þorvarðarson og Þorleif Pálsson, til að dæma um fiskiskip útlendra kaupmanna, er þeir höfðu mót lögum, en drógu landsmenn til að eiga hlut í til hilmingar sér; dæmdu lögmenn, að hvað skipa sem útlendir ætti þannig, skyldu falla hálft undir konung, en hálft undir hirðstjórann, en Íslendingar haldi því, er þeir eiga; þetta kölluðu kaupmenn ójöfnuð, og báru fyrir konung, en hann skaut því til landslaga. Lauk svo þeim málum, að hirðstjórinn lét dæma konungi fiskiskip þeirra öll, hálfan fimmta tug, en banna þeim vetrarlegu að mestu; sagt er, að Danir hafi haldið skipum þeirra í tvö ár eða þrjú.[2] Hið sama var endurtekið á þingi næsta ár, og voru þá viðstaddir 7 skipstjórar þýzkir og 5 kaupmenn.[3] Danir færa sig nú meira og meira upp á skaptið, og 1547 gjöra þeir fyrstu atrennuna til þess að steypa verzlun Þjóðverja; þá leigir Kristián konungur 4. janúar borgarstjórn Kaupmannahafnar alla tolla og tekjur af Íslandi um 10 ár;[4] þetta hafði þó minni áhrif en til var ætlazt; Danir höfðu enn eigi nóg afl til að keppa við Þjóðverja.

Um miðbik aldarinnar, þegar ófriðurinn var milli

---

[1]) Espólíns árbækur IV., bls. 11. Magnús Ketilsson: Forordninger I., bls. 248-49. Lovsamling for Island I., bls. 63.

[2]) Espólíns árbækur IV., bls. 17. Safn II., bls. 686-87.

[3]) Lovsamling for Island I., bls. 60-63.

[4]) *Magnús Ketilsson:* Forordninger *I.*, bls. 255-56, 320-322.

Jóns Arasonar og konungsmanna, veittu þýzkir kaupmenn kaþólskum mönnum ýmsan styrk, þó þeir sjálfir væru lútherskir, og opt voru þýzkir menn í ferðum með Jóni Arasyni; hefðu Þjóðverjar eflaust ekki harmað það, þó landið hefði gengið undan Dönum. Í bréfi 15. sept. 1550 til bæjarráðsins í Hamborg ber Danakonungur Þjóðverjum á brýn, að þeir hvetji Íslendinga til uppreisnar og trúarvillu;[1] Danir héldu jafnvel, að Hamborgarar hefðu verið milligöngumenn milli Jóns biskups og Karls keisara, til þess að reyna að ráða land undan konungi.[2] Kristján skrifari bar upp á Jón Arason, að hann hefði »lofað og tilsagt þeim Hamborgar-kaupmönnum, að hann og hans synir skyldu svo leika og spila við þá Danska, að hér skyldi ekki einn finnast eptir lifandi að vori komandi«.[3] Víst er það og sést á mörgu, að óvinátta mikil hefir þá verið milli Þjóðverja og Dana hér á landi, þó ekki væri opinber ófriður,[4] enda var eðlilegt, þó Hamborgarar reyndu að spyrna á móti, þegar reynt var að bola þá burt úr landinu. Var sífellt þref út úr þessu milli Hamborgara og Danakonungs, en þó gátu kaupmenn frá Kaupmannahöfn lítið á unnið; Íslendingar voru orðnir svo vanir þýzku verzluninni, að þeir eigi sinntu Dönum, meðan verzlunarkeppnin var nokkurn veginn frjáls; seinna var verzlunin með valdboðum dregin úr höndum Þjóðverja, enda voru þeir sjálfir sundurþykkir sín á millum, því Hamborgarar vildu vera einir um ágóðann og ömuðust t. d. við verzlun Lübeck-manna,[5] og svo var afl og vald Hansamanna þá stórum að réna.

---

1) *E. Baasch:* Hamb. Handelsgeschichte I., bls. 35.

2) *Finnur Jónsson:* Historia ecclesiastica II., bls. 674.

3) Biskupasögur II., bls. 466.

4) Af konungsbréfi til Eske Bilde 1551 um sendiför þeirra Axel Jul og Kristofer Trondssen til Íslands sést meðal annars, að Hamborgarar hafa átt í brösum við Dani út úr verzluninni, hafa tekið frá Dönum fisk o. s. frv. *Magn. Ketilsson:* Forordn. I., bls. 270. Sbr. Kancelliets Brevböger 1551-55. Kbh. 1885-86, bls. 18. Safn til sögu Íslands II., bls. 691.

5) *E. Baasch:* Hamb. Handelsgesch. I., bls. 38-39.

Friðrik annar (1559—88) tók þar við, er Kristián III. hafði hætt; hann skoðar Ísland sem séreign krúnunnar og reynir sjálfur að hafa sem mestan arð af þeim verzlunvörum, sem mest voru verðar á Íslandi. Fyrst tekur hann undir sig brennisteinsverzlunina á Norðurlandi; 15. ág. 1563 keyptu þeir Hans Nielsen og Franz Lauritsson brennisteinsnámurnar nyrðra af þeim Nikulási og Vigfúsi Þorsteinssonum fyrir konung.[1] Áður hafði Finnbogaætt frá Ási í Kelduhverfi átt brennisteinsnámurnar, og þeir Vigfús og Nikulás höfðu erft þær eptir Þorstein Finnbogason föður sinn. Hamborgarar höfðu fyrrum keypt brennisteininn og haft mikinn hagnað af því; þóttust þeir þar missa mikil hlunnindi; sendu þeir þá sendimenn til Danakonungs 1560, er þeir fréttu, að hann ætlaði að taka af þeim brennisteinsverzlunina, en það kom fyrir ekki. Samt sóktu nokkur skip frá Hamborg brennistein til Íslands, en konungur lét þá taka nokkur skip fyrir Hamborgurum í Eyrarsundi og annarsstaðar, og 4. maí 1562 neyðast Hamborgarmenn til þess að taka þeim kostum, er konungur býður, og urðu þeir þá að afsala sér brennisteinsverzluninni á Íslandi.[2] Konungur hafði síðan mikinn ágóða af brennisteinsnáminu á Íslandi.[3] Um sama leyti fór konungur að draga undir sig verzlun með ýmsar aðrar vörur, þær sem mestan hagnað veittu; fjárhagur Dana var mjög bágur um byrjun sjöárastríðsins, svo konungi veitti ekki af að reita saman allt er hann gat. 23. marz 1562 auglýsir konungur, að hann ætli framvegis sjálfur að kaupa allt lýsi, er fáist á Íslandi, og bannar að selja það útlendingum,[4] og ári seinna (20. marz) kemur út konungsbréf, er bannar Íslendingum að selja út-

---

[1]) Espólíns árbækur IV., bls. 132-33. *Bogi Benediktsson*: Sýslumanna æfir I., bls. 64, 70-71.

[2]) *E. Baasch:* Hamb. Handelsgesch., bls. 39-42.

[3]) Í ritum lærdómslistafélagsins IV. 1783. Kmh. 1784, bls. 1-48 hefir Hannes biskup Finnsson ritað ágæta ritgjörð um brennisteinsverzlun á Íslandi.

[4]) *Magnús Ketilsson:* Forordninger II., bls. 10.

lendingum hesta, skinnavöru, rostungstennur og hvaltennur, nema þeir hafi áður boðið þær lénsmanni konungs og hann hafi eigi viljað kaupa; hver sem braut þetta boðorð, átti að gjalda jafnmikið og vörurnar voru verðar, »og þar til straffast sem við ber«.[1] Sama árið (1563) krefst konungur þess, að Hamborgarar borgi sér 30,000 dali, er áttu að vera heimanmundur systur hans; en þegar þeir eigi vilja borga, hótar konungur þeim að banna alla þýzka verzlun á Íslandi; samt varð ekki af því, þó peningarnir ekki fengjust.[2] Það er auðséð á öllu, að konungur finnur svo styrk sinn, að hann þykist geta boðið Hamborgarmönnum byrginn, enda var vald þeirra þá mjög að þrotum komið.

Næsta stig sem konungur stígur er það, að hann ekki leyfir ótakmarkaða verzlun á Íslandi, heldur leyfir sérstökum mönnum, þýzkum eða dönskum, að verzla á einstökum höfnum, en eigi annarstaðar; þessi siður hélzt út öldina og eru enn þá til mörg slík leyfisbréf fyrir einstaka menn. Íslenzka verzlunin hlýtur í þá daga að hafa verið mjög arðsöm; það sést á því, hve ólmir Hamborgarar eru í að halda henni og vilja heldur allt til vinna en missa hana, og á því, að ýmsir stórhöfðingjar fá leyfi til þess að láta verzla á ýmsum höfnum; 1585 fær t. d. Hans greifi af Oldenburg leyfi til þess að láta verzla á Kumbaravogi, og 1584 fær Hinrik erkibiskup í Bremen leyfi til þess að verzla á Grundarfirði. Þetta útlán á einstökum höfnum líkaði Íslendingum miður, og báðu stjórnina 1593 að leyfa kaupmönnum að sigla á hverjar hafnir, er þeir vildu, en landsmenn fengu eigi áheyrn. Viðvíkjandi þessu atriði komst ríkisráðið svo að orði (Christian IV. var þá á barnsaldri): »Epter því það kann að finnaz landinu og þess Innbyggiurum að vera til hins mesta skaða og fordiörfunar, að það skule vera hvörium manne heimilt að sigla til landsins án vorra Passabrefa, því

[1]) *Magnús Ketilsson*: Forordninger II., bls. 18-20. Lovsamling for Island I., bls. 78-79.

[2]) *E. Baasch:* Hamb. Handelsgesch. I., bls. 42-43.

kann það í aungvann máta tilláta eðr til vilia giöraz«.[1] Ríkisráðið bannar 23. apríl 1596 að selja útlendum nokkurn fisk eða aðrar vörur, fyrr en búið sé að borga landskuldir til konungs, og alla aðra skatta og álögur.[2] Þá var hart í ári og hefir líklega gengið illa að ná inn sköttum; samt átelur Jón lögmaður 1595 á Ökrum í Skagafirði almenning fyrir það, að þeir selji naut, sauði, vaðmál, prjónles, smjör, lýsi og fisk út úr landinu, en taki aptur hjá Þjóðverjum eintóman óþarfa, svo sem strútsfjaðrir, borðabönd, þunnflókahatta og konupunga;[3] hér eru Þjóðverjar ásakaðir fyrir að flytja óþarfa, líkt og Sverrir konungur bar þeim á brýn forðum daga.[4]

Árið 1601 hinn 24. júlí ritar Kristián konungur 4. borgarráðunum í Hamborg og Bremen og kunngjörir þeim, að framvegis vilji hann láta sína eigin undirsáta eingöngu njóta hagnaðar af verzlun á Íslandi, og árið eptir, 1602 20. apríl, er hin alræmda einokunarverzlun leidd í lög; með því er verzlun Þjóðverja á Íslandi dauðrotuð í einu höggi. Árið 1602 var útrunnið það tímatakmark, sem ákveðið var í leyfisbréfunum flestum, og því komst einokunin einmitt á þetta ár; þó var leyfistíminn ekki alstaðar útrunninn; í Hafnarfirði máttu Þjóðverjar t.d. enn þá verzla í tvö ár. Verzlun Dana varð fljótt mjög illa þokkuð, og var þegar í fyrstu byrjun almenn óánægja og kvartanir um land allt. Sumrin 1602 og 1603 fengu Þjóðverjar leyfi til að sigla til þeirra hafna, sem þeir höfðu áður haft, til þess að ná inn skuldum, en enga verzlun máttu þeir reka; 1608 voru verzlunarhús Þjóðverja, þau er eptir stóðu, rifin eða brotin niður. Þannig lauk verzlun Þjóðverja á Íslandi; samt komu mörg þýzk skip hingað eptir það árlega um langt árabil, því borgarar í Málmey, Kaupmannahöfn og Helsingjaeyri, er leigt höfðu verzlun á Íslandi, urðu að taka á leigu þýzk skip

[1]) *Magnús Ketilsson*: Forordninger II., bls. 157.
[2]) Lovsamling for Island I., bls. 135.
[3]) Árbækur Espólíns V., bls. 80-81.
[4]) Fornmannasögur VIII., bls. 250-51.

og þýzkar skipshafnir, af því þeir gátu ekki rekið verzlun til Íslands af eigin rammleik, og auk þess urðu þeir að selja vörur sínar í Hamborg eða með milligöngu þýzkra kaupmanna; þannig gekk arðurinn af íslenzku verzluninni ekki úr greipum Þjóðverja, þó þeir misstu réttinn til beinnar verzlunar; skellirnir mestu lentu á íslenzkri alþýðu; hún varð að borga beinlínis og óbeinlínis allan þann kostnað, sem þessi nýi danski verzlunarmilliliður hafði í för með sér; hún fékk verri og dýrari vörur, og varð að þola hið þrælslegasta ófrelsi í öllum viðskiptum.

Hér höfum vér ritað þetta stutta ágrip um verzlun Þjóðverja,[1] til þess að gera ljóst það samband, sem í þá daga var milli Þjóðverja og Íslendinga; það lítið sem ritað er um Ísland á 16. öld, á rót sína að rekja til þessara verzlunarviðskipta; Þjóðverjar komu hingað að eins til þess að græða fé, og því er sönn þekking þeirra á landinu ekki mikil; Þjóðverjar áttu mest saman að sælda við sjómannalýðinn í sæþorpunum, og því bera þeir Íslendingum optast illa söguna, og lýsa þeim eins og skrælingjum. Íslendingar af betra taginu kynntust í þá daga líka töluvert háttum og siðum hinna æðri stétta á Þýzkalandi, enda ferðuðust margir til Þýzkalands og Hollands. Um siðbótartímann voru hin beinu áhrif frá Þjóðverjum á menntun Íslendinga töluverð. Á 16. öld stunduðu ýmsir Íslendingar bóknám á Þýzkalandi, og bæði á þeirri öld og hinni næstu fóru Íslendingar miklu meir til annara landa í Európu, heldur en seinna varð; samband Íslendinga við meginland Európu og ferðir þeirra þangað hafa eflaust mjög stutt að endurreisn íslenzkra bókmennta eptir siðabótina. Í latnesku sögubroti um Jón biskup Arason er þess getið, að íslenzkir biskupar og ábótar hafi sumir fengizt við bóknám á Englandi, Frakklandi og Þýzkalandi.[2] Eins og kunnugt er, var Ögmundur biskup

[1]) Um verzlun Þjóðverja eru til ótal skjöl og skilríki, prentuð og óprentuð og væri vonandi, að þess væri ekki langt að bíða, að vér fengjum fullkomna verzlunarsögu íslenzka.

[2]) Biskupasögur II., bls. 427.

Pálsson á yngri árum við bóknám á Hollandi og Englandi; Gissur biskup Einarsson var 3 ár við nám á Þýzkalandi, og Oddur Gottskálksson menntaðist í Noregi, Danmörku og Þýzkalandi; Marteinn Einarsson var 9 vetur samfleytt á Englandi, enda var systir hans gipt enskum manni; síra Pétur, bróðir Marteins biskups (Gleraugna-Pétur), ferðaðist um Þýzkaland. Sigurður Jónsson, er varð skólameistari á Hólum 1573, hafði verið lengi í Kaupmannahöfn og Rostock; hann hafði fyrstur Íslendinga lært hebresku.[1] Síra Jón Guðmundsson,[2] sem var skólameistari í Skálholti 1585—89, var 3 ár í skóla í Bremen, og sonur hans Guðmundur lærði líka í Bremen. Gísli biskup Jónsson fór 3 eða 4 ferðir til útlanda; er sagt um hann: »ekki hafði hann kunnað latínu, en var góður þýzkur«.[3] Um Gissur biskup Einarsson segir Jón Gissurarson: »í þýzkri tungu var hann svo fimur og ferðugur, að þýzkir höfðu opt sagt, að hver hann þekkti ekki, mætti hyggja að hann væri fæddur þýzkur«.[4] Á dögum Guðbrands biskups var það talið til almennrar menntunar að kunna þýzku, og því lét hann dætur sínar læra þetta mál.[5] Framan af öldinni, meðan hinn forni siður drottnaði, fóru stöku menn lengra suður; Helgi Höskuldsson ábóti á Þingeyrum († 1561) gekk t. d. þrisvar til Róm að taka lausn af páfa; »hann átti börn við meinalausum konum«.[6]

[1]) Sigurður Jónsson var haltur frá öndverðu, þótti harður og refsingasamur við pilta; hann varð líkþrár og dó á jörð sinni Hóli í Kinn. Árb. Espólíns V., bls. 14-16, 57.

[2]) Jón Guðmundsson var fæddur á Hvoli í Saurbæ 1558, var 3 ár í Bremen, 5 ár í Höfn; hann var nefndur til að vera í biskupskjöri með Oddi Einarssyni 1588, en af því menn grunaði, að hann væri eigi nógu mótfallinn Kalvíns kenningu (hann hafði lært í kalvínsmanna-skóla í Bremen), var eigi mjög fram fylgt hans kosningu; hann var vel lærður og röggsamlegur; 1590 vígðist hann til Hítardals og dó þar 7. sept. 1634. Hdrs. J. S. nr. 380 og 323. 4to.

[3]) Biskupasögur II., bls. 636. Safn I., bls. 134.

[4]) Safn til sögu Íslands I., bls. 676.

[5]) Árbækur Espólíns V., bls. 72.

[6]) Annálar Björns á Skarðsá. Hrappsey 1774, bls. 109.

Peerse og Blefken og dregur saman aðalefnið úr skröksögum þeirra. Lýsingin á híbýlum Íslendinga er betri en hjá hinum höfundunum; hann segir, að kofar Íslendinga séu á víð og dreif um allt land, eins og bæir Þjóðverja á dögum Tacitusar; úr ferhyrndum moldarhnausum og tré byggja Íslendingar hús sín og prýða þau fagurlega að innan; á hverju vori sprettur nýtt gras á bæjunum; gluggarnir eru á þakinu, til þess að lopt og ljós geti komizt inn. Húsaviðinn fá þeir mest á rekum, því þar vaxa að eins smárunnar og fáein kræklótt tré, sem að eins er hægt að nota í eldinn; mó brúka þeir líka til eldsneytis. Akuryrkja er þar lítil sökum kuldans, en menn lifa mest á fiskiveiðum. Íslendingar verzla við Þjóðverja og aðrar þjóðir og skiptast á vörum við þá; ekki álíta þeir nein kaup né sölu fullgilda, nema þeir fái sér í staupinu um leið. Íslendingar halda enn hinni gömlu norrænu tungu, því útlendingar hafa haft mjög lítil áhrif á mál og siðu landsmanna. Fabricius tekur þá vitleysu eptir Blefken, að Íslendingar hafi eigi tekið kristni fyrr en 1398; hann getur um siðabótina, sleppir úr skröksögum Blefkens, en getur þess, að biblían hafi verið gefin út á íslenzku og margar aðrar góðar guðsorðabækur. Fabricius talar líka um beitilöndin á Íslandi, hve þau séu góð, og kemur með gömlu söguna um kvikféð, sem springur af ofáti; hann segir, að svo mikill ilmur sé af íslenzka grasinu, að sjómenn láti það milli fata í kistum sínum, til þess af þeim leggi sætan ilm.[1] Af smjöri er svo mikið til á Íslandi, að menn troða því alstaðar í horn og smugur í húsum til uppfyllingar. Því næst talar Fabricius um dýrin á Íslandi, fuglana, hvalina o. s. frv., og leggur þar beinlínis út bók Blefkens; kapítulinn um þingið er líka því nær orðrétt útlagður, og eins frásagnirnar um hverina, eldfjöllin og hafísinn. Að endingu talar Fabricius (í 11. kap.) um lengd dagsins og þar er hann of fróður til þess

[1]) Hér er átt við reyrgresið *(hierochloa borealis)*, sem kvennfólkið í sveitinni enn þá leggur í fatakistur sínar.

að elta vitleysur Blefkens. Stytzti dagur er sunnan á landinu um vetrarsólhvörf 2 stundir, hinn lengsti á sumrum 22 stundir; nyrðst á landinu er á vetrum nokkra daga engin birta og á sumrum engin nótt; sólin gengur þá aldrei til viðar, svo þá er bjart dag og nótt. Seinasti kapitulinn, hinn tólfti, er um Grænland.

Árið eptir að Fabricius dó kom út nýr bæklingur eptir Arngrím lærða;[1] þar sýnir hann ljóslega, að mest allt rit Fabriciusar er útlegging úr Blefken; í þessu riti er hann mjög kurteis og hógvær í máli, enda hefir Arngrímur líklega vitað, að Fabricius var merkur maður, þó honum tækist svo illa ritsmíðið um Ísland.

## 12. Menntun á Íslandi um siðaskiptin. Íslenzkar bókmenntir rakna við. Guðbrandur Þorláksson, Arngrímur Jónsson.

Á fimmtándu öld hnignaði íslenzkum bókmenntum stórkostlega, eins og alkunnugt er; þó dóu þær aldrei gjörsamlega út; allt af lifði einhver neisti í eisunni; það þurfti ekki nema eina almenna utanaðkomandi hreyfingu til þess að glæða hið andlega líf, sem svo lengi hafði verið falið. Hin andlega endurlífgun Európu gerði hér á landi fyrst vart við sig um siðaskiptin; um smáar æðar streymdi menntunin hingað furðu fljótt, einkum um seinni hluta 16. aldar; á 17. öld var jarðvegurinn undirbúinn, svo bókmenntirnar komust hér á það stig, sem menn frekast gátu búizt við, því kringumstæðurnar voru í alla staði örðugar; einokun og einveldi sugu merg og blóð úr þjóðinni. Endurlífgun íslenzkra bókmennta var einkum falin í því, að menn nú tóku að snúa sér að hinum fornu fræðum, fóru að fást við sögu forfeðranna og önnur rit, er fornmenn höfðu eptir sig látið. Það var ekki við því að búast, að hér vaknaði mikið sjálfstætt vísindalíf; til þess var þjóðin allt of fámenn og fjarlæg. Náttúruvís-

---

[1]) *Arngrimi Jonæ* epistola pro patria defensoria scripta ad Davidem Fabritium. Hamburgi 1618. 4to.

indin voru þá að myndast í hinum suðrænu löndum; þau hafa síðan umskapað mannlífið og rutt mannsandanum nýjar brautir; þegar á 17. öld, og jafnvel fyrr, voru þó allmargir Íslendingar farnir að hnýsast í þess konar fræði; það nám leiddi reyndar ekki af sér mikla sjálfstæða rannsókn á eðli og náttúru Íslands, en hafði þó dálitla þýðingu fyrir þekkingu innlendra og útlendra manna um landið. Samhliða hinum fyrstu frjóöngum náttúruvísindanna óx líka upp hin rammasta hjátrú í skauti kirkjunnar og kæfði hún og kyrkti margan góðan vísi, sem annars hefði getað orðið að notum. Lengi framan af eru það því nær eingöngu fornritin, sem gjöra Ísland kunnugt í öðrum löndum.

Á undan siðabótinni, í byrjun 16. aldar, var lærdómurinn lítill á Íslandi; að eins örfáir prestar höfðu menntast að nokkrum mun. Í sögubroti um Jón Arason segir svo:[1] »Engir sinntu bóknámi, hvorki latínufræðum né öðrum tungum, nema einstöku biskupar eða ábótar, einna helzt þeir, sem nokkuð höfðu dvalið erlendis«. »Þeir sem eigi fóru utan til náms, lærðu naumast eða ekki Dónatinn. Einar ábóti í Munkaþverárklaustri kunni þá hartnær einn í Hólabiskupsdæmi latínulærdóm og í Skálholtsbiskupsdæmi Sigvarður ábóti«. »Í þá daga urðu foreldrar að fá múnka eða aðra klerka af hinum lægri vígslum eða einhverja aðra, sem fróðari voru en almenningur, til þess að kenna piltum að lesa og skrifa íslenzku, þó ekki væri meira; og kvað eigi hafa verið kostnaðarminna en nú að halda pilt í skóla«. »Svo þótti mönnum, að hver sá væri fullfær til að taka allar vígslur og gegna öllum kirkjulegum embættum, er skammlítt kynni lestur og saung að tíðum, sem til var sett«. Þó hér sé ef til vill tekið nokkuð djúpt í árinni, þá er það þó víst, að lærdómurinn var lítill í latínu fyrir siðaskiptin; en latína var í þá daga lykill að öllum vísindum, og allir vegir til æðri menntunar voru þeim lokaðir, sem ekki

[1]) Biskupasögur II., bls. 427-28.

kunnu það mál. Dálítil skólamynd hefir þó eflaust verið í Skálholti um 1500; séra Jón Egilsson segir um Stefán biskup Jónsson (1491—1518):« hann var vel lærður og hans iðja ekki annað en kenna«,[1] og um 1493 var Ásbjörn Sigurðsson skólameistari í Skálholti;[2] á Hólum er einnig sagt, að hafi verið skóli á dögum Gottskálks biskups Nikulássonar (1498—1520).[3] Við klaustrin hélzt nokkur menntun og fróðleikur; á Helgafelli ætla menn t. d., að Narfi ábóti hafi haft skóla á árunum 1512—27; þar lærði Magnús Eyjólfs son mókolls;[4] og á Munkaþverá lærði Jón Arason hjá Einari ábóta Benidiktssyni.[5] Í Þykkvabæjarklaustri er getið um nokkurn lærdóm framan af 16. öldinni og þar var töluvert af bókum, sem Gissur Einarsson naut góðs af, meðan hann dvaldi þar.[6] Það er sagt um síra Sigurð Jónsson á Grenjaðarstað, að hann hafi opt haft ríkra manna syni til kennslu hjá sér.[7] Gísli biskup Jónsson lærði og að lesa, skrifa og syngja hjá Alexíusi Pálssyni presti á Þingvöllum;[8] Alexíus varð seinna ábóti í Viðey sem kunnugt er. Klaustralærdómurinn hefir í þá daga verið mjög lítill í samanburði við það sem áður var, enda voru munkarnir fáir rétt fyrir siðaskiptin.[9] Þó nú prestlingar gætu fengið örlitla fræðslu í hinum fyrstu frumfræðum hjá einstökum mönnum eða á klaustrunum, þá var menntunin í heild sinni á mjög lágu stigi og bók-

[1]) Safn til sögu Íslands I., bls. 50.

[2]) Safn I., bls. 656. Árb. Espólíns III., bls. 8.

[3]) *Jón Þorkelsson*: Digtningen paa Island, bls. 9.

[4]) Árbækur Espólíns III., bls. 37.

[5]) Biskupasögur II., bls. 326. Í Sigurðarregistri er 1550 nefnd »skólabaðstofa« á Munkaþverá.

[6]) Safn til sögu Íslands I., bls. 676.

[7]) Annálar Björns á Skarðsá, bls. 56.

[8]) *Finnur Jónsson*: Historia ecclesiastica Islandiæ III., bls. 297.

[9]) Árið 1542 voru í Skálholtsbiskupsdæmi 150 prestar alls og í öllum (5) klaustrunum þar 18 munkar og 7 nunnur. Í Skriðuklaustri var prior og 3 bræður, á Þykkvabæ ábóti og 5 bræður, í Viðey 4 bræður, á Helgafelli ábóti og 3 bræður og í Kirkjubæ abbadís og 6 systur. Bréfabók Gissurar biskups Einarssonar. Sbr. J. S. hdrs. nr. 375. 4to.

menntirnar engvar. Þó hefir eflaust ýmislegt verið skrifað upp af hinu forna, en flestir hafa skrifararnir líklega fengizt við að rita tíðabækur; Jón Egilsson segir um Jón nokkurn Þorláksson, sem var afbragðs skrifari, að hann hefði skrifað flestar messubækur á Vestfjörðum.[1] Síra Sveinn sá, sem líf fékk á Kirkjubóli, er Kristián skrifari var veginn, var kallaður »meistaramaður upp á skrif og latínu«;[2] sýnir þetta með öðru, að stöku menn hafa haldið við fornri kunnáttu.

Í lok fimmtándu aldar voru prestar og biskupar því nær einvaldir á Íslandi; alþýðan var hneppt í hina hörðustu fjötra hjátrúar og vankunnáttu, og hefir prestum líklega varla þótt taka því að mennta sjálfa sig; engin hvöt var til þess og ekkert tækifæri; það var álitinn nógur lærdómur fyrir prest að kunna að lesa, skrifa og syngja,[3] og með slíkum lærdómi gat hann náð æðstu völdum kirkjunnar, ef kringumstæðurnar voru heppilegar og maðurinn nógu einarður og ásælinn. Klerkarnir voru búnir að ná undir sig öllum beztu fasteignum landsins og áttu alstaðar ítök, þar sem eitthvað var fémætt að fá; leikmanna-höfðingjar voru fáir, þeir er nokkurn styrk höfðu, svo kirkjan gat hæglega ráðið við þá, og skömmu fyrir siðaskiptin höfðu biskuparnir eigi að eins allt kirkjuvaldið, heldur voru jafnvel hirðstjórar og umboðsmenn konungs yfir öllu hinu veraldlega. Í þá daga leyfðu prestar sér allt, og má færa til þess mörg dæmi, hve miklir ofstopar þeir voru; sumir urðu jafnvel uppvísir að glæpum; Jón prestur Snorrason hafði drepið tvo menn, sært annan prest og farið með rán og gripdeildir, en samt messaði hann og hélt embætti sínu óskertu; en þá varð honum það á, að hann rændi tveim köplum úr lest Hólastaðar suður á Suðurnesjum og valdi Hólabiskupi mörg vond orð; það þoldi Ólafur biskup Rögnvaldsson

---

[1]) Safn til sögu Íslands I., bls. 57.

[2]) S. st. I., bls. 98.

[3]) *Finnur Jónsson:* Historia ecclesiastica III., bls. 129.

ekki, en setti hann af og hótaði honum bannfæringu.[1] Prestur sá, er Þorkell hét, lét í tíð Stefáns biskups smíða sér lykla að Skálholtskirkju og stal þaðan gulli og silfri.[2] Þórður prestur Einarsson í Hítardal hafði átt 5 börn í frillulífi, flogizt á við annan prest, og margt fleira saknæmt bar Ögmundur biskup honum á brýn. Siðleysi prestanna var mikið í þá daga; kaþólskir klerkar máttu ekki giptast, en mjög margir þeirra höfðu frillur og gátu við þeim börn. Á 15. öld er getið um tvo merkispresta, Þorkel prest Guðbjartsson og Sveinbjörn Þórðarson officialis; átti hinn fyrri 30 börn, hinn síðari átti 50 börn, er hann kannaðist við, og að auk alla hálfrefi.[3] Fyrir siðaskiptin urðu prestar að borga biskupi tvö eða hálft þriðja hundrað fyrir hverja barneign;[4] þó var því ekki allt af fram fylgt. Siðir leikmanna voru ekki betri, og löguðust ekki fyrr en löngu seinna.

Lítt gátu leikmenn bugað ofstopa klerkanna, og ekki voru margir, sem sýndu aðra eins röggsemi eins og Björn Guðnason, er hann lét afhýða Jörund prest,[5] sem Stefán biskup hafði sent til hans með bannfæringarbréf. Árið 1517 gera leikmenn loks samtök í Leiðarhólmi, til þess að hepta ágang biskupa og presta; segjast þeir þar vilja »vort frelsi sjálfra og alls vors afsprengis styðja og styrkja undan því ánauðaroki, sem yfir oss er komið og álagt af kirkjunnar valdi. Vér viljum öllum kunnugt gera, að vér höfum yfirséð og undirstaðið, samjafnað og sannan skilning yfirborið, sumir af raun reyndri og framkomnu verki, og þann stóra skaða fjártjóna, fjármissu og fastra eigna og annars ósvarlegs ágangs og ofbeldis, er almúgi

---

[1] Árbækur Espólíns II., bls. 80.

[2] S. st. III., bls. 7-8.

[3] Árbækur Espólíns II., bls. 104, 112.

[4] Safn til sögu Íslands I., bls. 690.

[5] Jörundur prestur bar sig karlmannlega; var hann fyrst hýddur af tveim mönnum, en er þeir voru þreyttir, fékk Björn hinn þriðja, er hét Loptur og var tveggja manna maki; sagði prestur þó við hann: »ljúga höggin þín, langi Loptur:« Safn I., bls. 55.

alls þessa umdæmis fær af biskupum, prestum, klerkum og þeirra meðfylgjurum, eru fyrir orðnir, sumir af harðligum hótum og heitum· umsagninganna, en flestir með framkomnu ofbeldisverki þeirra rangs og langs ágangs, sem forboðs útsetningar af heilagri kirkju og skriptarmála og þjónustutekju, graptar heilags legstaðar, synjan allrar slíkrar þjónustu, hvað litið sem til ber; hér með banns áfelli, ef nokkur synjar þeim þess, er þeir beiðast, og bönnun samneytis alls kristins fólks, kúgaðir með þessu áfelli og ágangi frá sínum görðum, gripum og gangandi fé, reknir síðan í armóð, eymd og útlegð og þeirra afsprengi móti lögum og tilsettum guðs rétti«.[1] Þó samþykkt þessi sé grautarlega orðuð, sýnir hún þó ágætlega, hvernig ástandið hefir verið. Þar sem klerkalýðurinn var orðinn svo spilltur, ágjarn og hrokafullur, var ekki að búast við mikilli menntun eða andlegum framförum.

Um miðja 16. öldina fór menntunarlöngunin að glæðast, og þá fór að færast fjör í lærða menn við nýbreytni þá í trúarbrögðum, sem breiddist út frá Þýzkalandi. Nú fóru margir Íslendingar að leita sér menntunar erlendis, einkum á Þýzkalandi, og höfum vér fyrr stuttlega drepið á þessar utanferðir, er urðu svo þýðingarmiklar fyrir menntalífið á Íslandi. Jón Arason stofnar fyrstur prentsmiðju á Islandi, 60 árum áður en nokkur prentsmiðja var komin í Noregi; prentverkið varð síðar, sem kunnugt er, mjög þýðingarmikið fyrir siðabótina og guðfræðina, en lengi framan af voru sárfáar aðrar bækur prentaðar en guðsorðabækur. Um miðja öldina eru stofnaðir skólar á Hólum og í Skálholti, og hafa þeir eflaust gert mikið gagn til þess að fræða prestastéttina, sem fyrir siðabótina var svo fákunnandi.[2] Fyrst urðu menn að fá

[1]) *Finnur Jónsson*: Historia ecclesiastica II., bls. 511-12.

[2]) Það sést á Sigurðarregistri, að ekki hefir skólamenntunin 1569 verið víðtæk; þar eru (bls. 32b-33a) taldar bækur þær, er skólinn á Hólum þá átti; þar er ekki um auðugan garð að gresja; ekkert var til nema örfáar ómerkilegar latneskar orðabækur og málfræðisbækur og nokkrar guðsorðabækur latneskar; skólinn átti enga

danska skólameistara til skólanna; var Ólafur nokkur, danskur maður, fyrst skólameistari í Skálholti; hann drukknaði í Brúará 1555; á Hólum var Lárentius danskur og fyrstur skólameistari, og þá Marteinn, líka danskur. Þetta lagaðist þó skjótt; ýmsir ungir Íslendingar urðu brátt svo færir, að þeir gátu með heiðri og sóma veitt skólunum forstöðu; þó var kvartað undan því, að sumir væri lítt lærðir, eins og t. d. Ólafur Ólafsson lærðikarl. Í Skálholti fór lærdómurinn að rétta við á dögum Gísla biskups (1558—1587); Gissur Einarsson og Marteinn Einarsson höfðu að eins stutta stund setið á biskupsstóli, og gátu því ekki mikið framkvæmt, þó báðir væru lærðir vel. Marteinn var líka mesti listamaður í málverki; hafði hann lært það í Englandi. Um Gísla biskup segir Jón prestur Egilsson: »Frá því herra Gísli kom í Skálholt, þá jókst lærdómurinn, en lagðist af víða sú pápiska vísa; fram dróg hann í öllu eptir megni guðs orð, bæði í útlagningu og skrifi alla sína daga, á hvers dögum að kennilýður fjölgaði mjög, og hann styrkti þá marga um bækur, postillur og pappír, og um hvað þeir vildu biðja, og hvar hann fann nokkurn þann, sem iðinn var að lesa og skrifa og læra, á honum hafði hann þóknan. Eg má það meðkenna; hann varð mér bæði faðir og móðir í þeim greinum alla tíma, og svo mega flestir segja, sem hér voru í Skálholti á hans dögum, hvers margir hafa enn not«.[1] Um seinni hluta 16. aldar fjölgar mjög guðsorðabókum í landinu, eptir að Guðbrandur biskup Þorláksson kemur til sögunnar, og fer þá kaþólskan, sem lengi var fastgróin í mönnum eptir siðaskiptin, að láta undan; þá fór að myndast íslenzkur, lútherskur sálmakveðskapur, og trúarlífið glæðist meir og meir. Á seinni hluta 16. aldar voru og uppi á Íslandi ágæt skáld, t. d. eins og þeir bræður, Magnús prúði og Staðarhóls-Páll, o.

---

vísindabók. Þess má geta, að þá er til í skólastofunni á Hólum »stundaklucka lítil og er spillt«. Sig.reg., bl. 33a.

[1]) Safn til sögu Íslands I., bls. 106.

m. fl.[1] Fyrst um siðaskiptin var hin mesta prestafæð á Íslandi; gömlu prestarnir vildu ekki taka upp nýja siðinn og sögðu af sér, en engir vildu vígjast, sem foreldra áttu á lífi, því þeir bönnuðu þeim það, en þeir, sem enga áttu að, vígðust; biskupar urðu að vígja hvern, er þeir náðu í, ef hann að eins var læs. Þetta breyttist ekki fyrr en gamla fólkið, prestar og leikmenn, voru dánir, en ungir menn komnir í þeirra stað.[2] Til þess að bæta úr þessari prestafæð og mennta klerkana, hafa skólarnir verið einkar hentugir,[3] en einkum hafa þó utanferðir hinna heldri manna aukið þekkinguna í landinu beinlínis og óbeinlínis.

Eptir að stjórnin um siðaskiptin fór að hafa meiri afskipti af innlendum málum á Íslandi en áður hafði verið, var eðlilegt, að hún þyrfti beinlínis eða óbeinlínis að fá skýrslur um landið og ástand þess, og því eru til frá þeim tíma dálitlar lýsingar hagfræðilegs efnis. Á háskólabókasafninu í Kaupmannahöfn eru til tvö handrit af stuttum Íslandslýsingum frá seinni hluta 16. aldar;[4] í þeim er lítið landfræðislegs efnis, en ýmislegt, er lýtur að hagfræði landsins. Hin meiri lýsingin[5] er rituð 1569 á Bessastöðum, og heldur Dr. Kålund, að höfundur hennar muni vera *Ólafur Jónsson Bagge*; hann hafði verið þjónn Páls Stígssonar; var fyrst umboðsmaður á Bessastöðum 1566 og svo aptur 1569 fyrir Christopher Walkendorph; 1579 var hann sendur til konungs með bænarskrá lög-

[1]) Um þetta má má margt lesa í hinni einkar-fróðlegu bók Jóns Þorkelssonar: Om Digtningen paa Island i det 15. og 16. Århundrede. Kbhvn 1888. 8vo.

[2]) Sbr. Espólíns árbækur IV, bls. 18, 100-101.

[3]) Á dögum Guðbrands biskups voru sumir prestar enn lítt lærðir; einn var settur af fyrir afglöp í embættisverkum, en hann var líka illa læs og kunni ekki fræðin. Hist. eccles. III., bls. 389-390.

[4]) Hér fer eg eptir *K. Kålund*: Historisk topografisk Beskrivelse af Island II., bls. 378-79.

[5]) Addit. 120. fol. »En liden Beretning og Undervisning om Islandt och Islandtz Handell«. 11 blöð.

manna og annara fyrirmanna á Islandi um nauðsynjar landsins og bágindi. Ólafur bjó á Nesi við Seltjörn fram til 1600, en sigldi síðan og var borgari í Málmey.[1] Í lýsingu þessari er talað um legu landsins, um skiptingu þess í fjórðunga og sýslur, og um klaustrin, um afrakstur héraðanna, um hafnir, um brennistein og útgerð konungs til fiskiveiða á Suðurlandi, um tekjur konungs af Íslandi og loks um kirkjustjórn og tekjur presta. Í hinu handritinu,[2] sem ritað er um 1600, er efnið svipað, en þar er þó bætt við nokkru um landaura-reikning á Íslandi. Þriðja handritið er í Upsala á háskólabókasafninu;[3] þar er efnið líkt og í hinum handritunum, nema hvað þar eru einnig taldir firðir á Íslandi.

Hér að framan höfum vér getið um viðskipti útlendinga við Íslendinga og um frásögur þeirra um landið og þjóðina. Seint á 16. öld verður sú breyting til hins betra, að Íslendingar sjálfir fara að rita um landið og leitast við að fræða útlendinga um landafræði þess, um þjóðina og bókmenntirnar; þar eru tveir íslenzkir fræðimenn í broddi fylkingar, Guðbrandur biskup Þorláksson og Arngrímur Jónsson hinn lærði; Sigurð skólameistara Stefánsson má og telja framarlega, því hann fékkst einna fyrstur við landfræði Islands, þótt fátt liggi eptir hann. Mun eg hér stuttlega og eptir föngum geta um æfi þessara manna og um ritstörf þeirra, og þá fyrst um Sigurð Stefánsson, af því hann kemur einna fyrstur til sögunnar.

*Sigurður Stefánsson.* Um æfiferil Sigurðar vita menn mjög lítið; faðir hans var síra Stefán Gíslason biskups Jónssonar, prestur í Odda. Sigurður Stefánsson var við nám ytra, líklega mest í Kaupmannahöfn, og lærði meðal annars málverk; kom svo til Íslands og varð skólameistari í Skálholti 1594, en var að eins búinn að vera nokkrar vikur í þeirri stöðu, þegar hann drukknaði í Brúará. Rithöfundar eldri tíma geta lítið um annað en

[1]) Safn til sögu Íslands II., bls. 225 og 710.
[2]) Addit. 147. 4to.
[3]) Coll. Delagard. 24. fol.

æfilok hans, því dauða hans bar að á sérstakan hátt. Sigurður skólameistari reið á öndverðum vetri nokkuð ölvaður frá Mosfelli heimleiðis með sveini sínum Ormi Narfasyni; við Brúará dvaldist ferjumanni, svo þeir urðu að bíða; lögðust þeir þá til svefns við ána og veltist Sigurður sofandi í ána og drukknaði; Ormur fylgdarmaður hans gat þó lítið sagt um, hvernig þetta atvikaðist, því hann svaf líka.[1] Var mönnum mjög tíðrætt um þenna atburð, og var það trú alþýðumanna, að álfar mundu hafa orðið honum að bana. Sigurður hafði ritað um álfa og sögðu menn, að álfarnir mundu hafa hefnt sín á honum fyrir það, að hann hefði ljóstrað upp leyndarmálum þeirra. Líkami Sigurðar fannst síðar hjá Laugum við Brúará, og var hann grafinn í forkirkjunni í Skálholti.[2]

Sigurður Stefánsson var ágætt latínuskáld, söngmaður og málari; hann hafði meðal annars snúið Samúelsbókum í latnesk ljóð, og orti latínskt kvæði til Arngríms lærða, sem prentað er aptan við »Brevis Commentarius de Islandia«. Sigurður hafði einnig skrifað um íslenzka réttritun, og 1591 reit hann bók um álfa, drauga, svipi, vættir og forynjur;[3] hefir þetta rit líklega verið sniðið eptir útlendum bókum, því í þá daga var álfa- og draugatrúin víða erlendis, af sumum beinlínis, skoðuð sem vísindagrein, og svipum og draugum lýst eins og áþreifanlegum hlutum. Sigurður Stefánsson ritaði líka Íslandslýsingu og gjörði uppdrátt af Norðurhöfum. Íslandslýsingin er líklega týnd; Þórður Þorláksson segir, að lýsing þessi hafi verið í eigu Þormóðar Torfasonar, en hvað síðan

---

[1]) Ormur Narfason var sonur Narfa bónda Ormssonar í Reykjavík; hann vígðist 1600 og fékk Borg á Mýrum og svo Breiðabólsstað á Skógarströnd 1620.

[2]) Æfi Skálholtsrektora eptir Jón Halldórsson í Jóns Sigurðssonar handritasafni nr. 380 og 323. 4to og víðar. Sbr. J. Thorchillii Specimen Islandiæ non barbaræ. J. S. hdrs. nr. 333. 4to, bls. 161.

[3]) *Hálfdán Einarsson*: Sciagraphia historiæ literariæ islandicæ. Havniæ 1777, bls. 15, 61, 148, 163-64. *Finnur Jónsson*: Historia ecclesiastica III., bls. 176.

hefir orðið af henni, vita menn ekki.[1] Uppdrátturinn er enn þá til[2] og stendur á honum, að hann sé gjörður af Sigurði Stefánssyni 1570. Uppdrátturinn nær yfir Norðurhafið frá 40° til 75° n. br.; er á honum að vestanverðu Grænland, Helluland, Markland og Vínland, og eru þessi lönd öll samföst, og að norðan gengur frá Grænlandi strönd mikil austur undir Noreg, og á henni nöfnin Risaland og Jötunheimur, en að austan sést Bjarmaland, Noregur, Bretland og Írland; í hafinu eru Orkneyjar, Hetland, Færeyjar, Frísland og Ísland. Ísland er á þessum uppdrætti með miklu betra lagi en áður tíðkaðist, og nærri á réttum stað; þar sjást Vestfirðir, Breiðifjörður, Faxaflói, Grímsey og Langanes, og er lögun alls þessa allnærri sanni. Það hefir leikið töluverður efi á því, hvert uppdráttur þessi er eptir Sigurð Stefánsson; sé ártalið rétt, getur uppdrátturinn ekki verið eptir hann.[3] Árni Magnússon getur þess til, að Sigurður Jónsson skólameistari í Skálholti (um 1580) sé ef til vill höfundur þessa uppdráttar, en það þykir mér ólíklegt; miklu líklegra er, að hann sé eptir Sigurð Stefánsson, en ártalið hafi misskrifazt (1570 fyrir 1590); Sigurður Stefánsson ritar bæði Íslandslýsingu, og skarar fram úr í dráttlist, enda er nafn hans glöggt á uppdrættinum. Það er hugsanlegt, að landabréf það, sem vér nú höfum, sé að eins eptirmynd

---

[1]) Sbr. Schachtii Collectanea de Grönlandia. Cap. VIII. A. M. 364. fol. og Árni Magnússon í nr. 772a. A. M. 4to. Dr. Kålund hefir vinsamlegast gefið mér afskript af því, sem talað er um uppdrátt Sigurðar Stefánssonar í þessum handritum.

[2]) Uppdrátt þenna hefir K. J. V. Steenstrup látið prenta í Meddelelser om Grönland IX., bls. 7 og í Geografisk Tidskrift VIII., bls. 124.

[3]) Eins og sagt er hér að framan, var Siguıður skólameistari sonur síra Stefáns Gíslasonar í Odda. Dr. Jón Þorkelsson í Kaupmannahöfn skrifar mér: »Síra Stefán fékk Odda 1576. Eptir árstíðaskrá einni hér, þá deyr síra Stefán 28. febrúar 1615 og er þá 69 ára. Eptir því er hann fæddur 1546 og hefir þá verið 24 ára gamall árið 1570, og er það auðsætt, að sonur hans gat þá ekki verið kominn til háskólans. Það er víst óhætt að segja það, að Sigurður muni varla vera fæddur fyrr en 1570 eða litlu áður«.

eptir frumbréfinu; fyrirsögnin sýnist benda til þess; hefir ártalið ruglazt hjá þeim, er dró upp myndina, enda hefir það ef til vill verið óglöggt í frumritinu.[1]

*Guðbrandur* biskup *Þorláksson* fékkst töluvert við landfræði Íslands, og er hinn fyrsti, sem gjörir vísindalegar athuganir þar að lútandi; þetta er almenningi síður kunnugt en önnur störf hans, er snerta kristindóm og siðabót, enda er Guðbrandur biskup margra hluta vegna einn að hinum merkustu mönnum, sem uppi hafa verið á Íslandi. Hér skal að eins geta æfiatriða hans lauslega.[2] Guðbrandur biskup Þorláksson var fæddur að Staðarbakka í Miðfirði árið 1542; faðir hans var Þorlákur prestur Hallgrímsson, er seinna varð prestur að Þingeyraklaustri; móðir hans var Helga Jónsdóttir lögmanns Sigmundarsonar. Ellefu vetra fór Guðbrandur í Hólaskóla og var þar 6 ár; eptir það var hann tvo vetur heyrari við Hólaskóla, og sigldi síðan til Kaupmannahafnar vestur á Patriksfirði; var hann að eins tvo vetur við háskólann, og sneri svo heim aptur 1564, og varð skólameistari í Skálholti um haustið; var hann hinn fyrsti Íslendingur, er sökum latínulærdóms var álitinn fær til þess embættis, þó eigi væri hann þá nema 22 ára gamall. Þessu embætti gegndi hann í 3 ár, en vígðist 1567 til

[1]) Á 16. öld hafa líklega fáir átt landabréf á Íslandi; í Sigurðarregistri eru taldar bækur á Hólum við ýmsar úttektir, en hvergi eru þar nefndir landsuppdrættir nema á einum stað: á Munkaþverárklaustri var til 1550 »eitt landablað« (bl. 14a).

[2]) Af ritum þeim, sem eg hefi stuðzt við, eru, auk árbóka Jóns Espólíns, þessi hin helztu: *Finnur Jónsson:* Historia ecclesiastica III., bls. 368-443. *P. Pjetursson:* Æfiágrip Guðbrandar biskups í Ársriti prestaskólans 1850, bls. 123-84. *Arngrímur Jónsson:* ἀθανασία Gudbrandi Thorlacii. Hamburgi 1630. 4to. Æfi Hólabiskupa eptir Jón Halldórsson, og auk þess ýmislegt um æfi Guðbrands biskups í handritasafni Jóns Sigurðssonar t. d. í nr. 380, 333, 523, 494, 485. 4to og víðar. Jón Halldórsson segir, að Árni Magnússon hafi ritað æfisögu Guðbrands biskups, en hún brann 1728. Það væri mjög æskilegt, að einhver ritaði ýtarlega æfisögu Guðbrands biskups; til þess eru mörg skjöl og skilríki bæði í söfnum hér og erlendis.

prests að Breiðabólsstað í Vesturhópi. Um það leyti komst Guðbrandur í málaferli út úr ójöfnuði þeim, er Gottskálk Hólabiskup Nikulásson hafði sýnt afa hans Jóni Sigmundssyni lögmanni; hafði Gottskálk biskup ranglega dregið undan Jóni Sigmundssyni miklar jarðeignir. Út úr þessu spunnust miklar þrætur og málaferli, sem Guðbrandur biskup átti í alla æfi, og mun eg lauslega drepa á þau málaferli í æfiágripi Arngríms lærða. Út úr þessum málum fór Guðbrandur utan 1568, en þegar hann kom aptur, tókst hann á hendur skólameistaraembætti á Hólum. Um veturinn 1569 andaðist Ólafur biskup Hjaltason og var þá síra Sigurður Jónsson á Grenjaðarstað kjörinn til biskups, en konungur vildi eigi sinna þeirri kosningu, og vildi eigi annað, en að Guðbrandur Þorláksson færi utan til biskupsvígslu. Danskur maður Hans Gillebrun var þá settur í skólameistaraembættið á Hólum. Guðbrandur Þorláksson var vígður til biskups af Dr. Páli Matthíassyni Sjálandsbiskupi; var hann mikill vinur Guðbrands og dró hans taum alla æfi. Um sumarið 1571 kom Guðbrandur biskup út hingað, og tók þegar til starfa með hinum mesta dugnaði og röggsemi; bætti hann kjör presta á margan hátt og lagði meðal annars fátækum prestum sex af Hólastólsjörðum til uppeldis, þær er hann sjálfur átti að hafa tekjur af.

Guðbrandur biskup lét sér mjög annt um að bæta menntun klerka, og þó einkum að fræða alþýðu manna í kristindóminum; enn þá var páfatrúin allrík í hjörtum manna, og ýmsar hégiljur höfðu haldizt í kirkjusiðum og kristindómi. Guðbrandur biskup sá, að eigi var hægt að laga kristindómsþekkinguna og betra siðferðið með öðru en því, að útvega alþýðumönnum góðar guðsorðabækur á þeirra tungu. Fyrir því stofnaði hann prentsmiðju eða bætti þó fyrst og endurnýjaði hina fornu prentsmiðju, er Jón Arason hafði fengið út hingað, en keypti sér svo ný áhöld til prentunar 1578. Jón sonur Jóns prests Matthíassonar hins sænska, sem komið hafði hingað með prentsmiðju Jóns Arasonar, tókst á hendur prentverkið og

kenndi öðrum iðnina, og var nú farið að prenta íslenzkar guðsorðabækur af hinu mesta kappi; lét Guðbrandur biskup sér mjög annt um, að prentun og annar frágangur bókanna væri sem bezt af hendi leystur, og smíðaði og gróf sjálfur bókahnúta, rósir og myndir til þess að prýða bækurnar; bókbindara fékk hann frá Hamborg, og lét hann kenna Íslendingum að binda bækur. Guðbrandur ritaði sjálfur ýmsar guðsorðabækur, en lagði sumar út úr latínu, þýzku og dönsku, eða fékk aðra góða menn til þess; slíka framúrskarandi atorku sýndi hann í þessu, að hann lét prenta 80—90 bækur og var það í þá daga með jafnlitlum tökum og tilfærum hið mesta þrekvirki. Hið mesta verk hans var þó, að hann að miklu leyti sjálfur lagði út og lét prenta alla heilaga ritningu á íslenzku, og var því verki lokið 29. júní 1584.

Allan seinni hluta æfi sinnar átti Guðbrandur biskup í sífelldu stímabraki við Jón lögmann Jónsson og aðra höfðingja, bæði út úr máli Jóns Sigmundssonar og ýmsu öðru; hann gjörði sér far um að innkalla undir Hólakirkju jarðir þær, er honum þóttu ranglega hafa gengið undan af völdum Gottskálks biskups; fékk hann af þessu óvild margra manna, enda var hann ráðríkur og óeirinn, er því var að skipta. Guðbrandur biskup leitaði opt með mál sín beinlínis til konungs, og hefir verið sagt um hann, að hann víða hafi komið fram sem talsmaður konungsvaldsins danska, en honum er varla frekar gefandi sök á þessu en öðrum höfðingjum á Íslandi í þá daga, enda hafði danska stjórnin um siðaskiptin náð því tangarhaldi á Íslendingum, sem hún ekki hefir sleppt síðan. Guðbrandi biskupi sárnaði, að biskupsvaldið skyldi allt vera gengið undan í hendur konungs, en hann fékk ekki að gjört, enda veittu íslenzkir höfðingjar honum hina römmustu mótspyrnu. Í hinum afar þýðingarmiklu verzlunarmálum, sem síðan á 16. öld hafa verið kjarninn í allri íslenzki pólitik, var Guðbrandur biskup miklu frjálslyndari en íslenzkir höfðingjar, er þá voru uppi; þeir voru í því efni ótrúlega skammsýnir, og hjálpuðu sjálfir til þess

að draga á sig einokunar-snarvölinn, þrátt fyrir mótspyrnu Guðbrands biskups.

Guðbrandur biskup hafði hin mestu áhrif á uppfræðingu lærðra og leikra; hann efldi bókmenntir og fróðleiksást og upprætti páfadóminn; verða allir að dázt að þreki hans og atorku. Þrátt fyrir öll málaferlin, ritstörfin og bókagjörðina, hafði Guðbrandur biskup tíma til þess að gjöra margar endurbætar á stjórn kirkjunnar og kjörum prestanna; hann var röggsamlegur í kirkjustjórn og vandlætingasamur; hann var gagnorður og sléttorður, kappsamur og viljamikill, í hverju sem hann tók sér fyrir, og berorður var hann í meira lagi við mótstöðumenn sína. Eptir dauða Jóns lögmanns 1606 slotaði nokkuð ófriði þeim, er biskup hafði svo lengi átt í, en þó átti hann lengst af í málaferlum, meðan hann stóð uppréttur, því óvinir hans voru margir og reyndu að finna hvern höggstað á honum, sem þeir gátu. Guðbrandur biskup var búsýslumaður mikill og fésæll, og varð mjög auðugur; hann var mjög gestrisinn og veitingasamur og hélt vinum sínum árlega nýjársveizlu, enda var hann flugríkur, örlátur og vinfastur.

Árið 1572 eignaðist Guðbrandur biskup laundóttur, er Steinunn hét, með Guðrúnu dóttur Gísla prests Finnbogasonar;[1] hún giptist Skúla bónda Einarssyni á Eiríksstöðum í Svartárdal; þeirra sonur var Þorlákur Skúlason, sem biskup varð á Hólum eptir afa sinn; synir Þorláks voru þeir Gísli og Þórður, er báðir urðu biskupar, Gísli á Hólum og Þórður í Skálholti, og voru þeir allir merkismenn. Sama árið (1572) gekk Guðbrandur að eiga Halldóru dóttur Árna Gíslasonar á Hlíðarenda, og átti við henni þrjú börn, 2 dætur og einn son. Halldóra Árnadóttir var hin mesta merkiskona; hun dó 1585. Ept-

[1]) Gísli Finnbogason var með Jóni biskupi Arasyni í Sauðafellsreið og bauðst til að skjóta Daða, en biskup vildi ekki (Biskupasögur II., bls. 447-48). Síra Gísli hafði áður vegið mann, Þórarin Steindórsson, en fékk aptur prestsembætti hjá Jóni Arasyni 1544.

ir dauða hennar fór Guðbrandur biskup að verða heilsutæpur, en sýndi þó hina sömu ástundun við öll sín margbrotnu störf; hann varð þó 1596 að taka Arngrím Jónsson frænda sinn sér til aðstoðarmanns. Árið 1624 sýktist Guðbrandur biskup af hálfvisnun, missti að mestu málið og lá í kör síðan, þangað til hann dó 20. júlí 1627.[1] Um þessi sjúkdómsár þjónaði Arngrímur Jónsson biskupsembættinu, en Halldóra dóttir biskups stýrði búinu með frábærum skörungsskap.[2]

Guðbrandur biskup var hinn mesti lærdómsmaður og unni fróðleik og vísindum; hafði hann mikil áhrif á heimamenn sína, því jafnan vakti hann samtal um andleg og veraldleg vísindi, einkum undir borðum; af því urðu heimamenn hans, þeir sem höfðu skynsemi til þess að færa sér fróðleik hans í nyt, fróðari og betur menntaðir en aðrir menn; má meðal þeirra telja Arngrím Jónsson, Þorlák Skúlason, Guðmund prest Einarsson að Stað og Magnús prest Ólafsson í Laufási. Guðbrandur biskup var í miklum metum hjá lærðum mönnum erlendis, og skrifaðist á við marga útlenda fræðimenn. Meðal vina hans erlendis voru þessir helztir: Páll Matthíasson, Pjetur Winstrup og Jóhann Páll Resenius, er urðu Sjálandsbiskupar hver eptir annan; í Hamborg var hann einkum í vinfengi við Nicolaus Hemming og Philipp Nicolai; hinn síðarnefndi tileinkaði honum bók eina og fer í tileinkunarorðunum mörgum fögrum orðum um Guðbrand biskup og þann

[1]) Sveinn Pálsson segir, að Guðbrandur biskup hafi sjálfur höggvið legstein þann, sem yfir hann var lagður, og þetta letur á hann: »Gudbrandus episcopus, Jesu Christi peccator, exspecto resurrectionem carnis et vitam æternam«. Journal holden paa en Naturforskerreise i Island I., bls. 267 (hndrs. bókmf. Kmh. nr. 1-3. Fol.).

[2]) Hólabúið var í þá daga ekki lítið. Þegar Guðbrandur biskup tók við staðnum (28. júní 1571), voru á heimabúinu á Hólum 50 kýr, 282 ær, tvævetur naut og eldri 95, veturgömul 13, ungkálfar 6, tvævetrir sauðir og eldri 243, veturgamlir 126, hestar fullorðnir 9, hross 13; hin höfðu dáið veturinn fyrir (úr hor?). Sigurðarregistur, bl. 41a.

blessunarríka ávöxt, sem leitt hafi af störfum hans, og kallar hann meðal annars »máttarstoð hinna íslenzku safnaða« og »leiðarstjörnu kristins lýðs undir norðurheimsskauti«. Guðbrandur biskup skrifaðist á við enn fleiri útlendinga; í safni Hackluyt's er t. d. bréf frá honum (1595) til Hugo Branhams prests í Harwich á Englandi.[1] Branham þessi hefir skrifað Guðbrandi og spurt hann um fornmenjar á Íslandi, líklega sökum þess að Olaus Magnus, Kranz o. fl. höfðu ritað, að á Íslandi hjyggu menn letur á steina um afreksverk forfeðranna; Guðbrandur ber þetta til baka og vísar honum í »Brevis Commentarius de Islandia« eptir Arngrim Jónsson, sem þá var fyrir skömmu kominn út. Branham hefir einnig spurt um nálæg lönd, einkum um Grænland. Segir Guðbrandur að menn ætli, að Grænlandsóbyggðir nái kring um Hafsbotna alla leið til yztu endimarka Noregs, en þar heitir Bjarmaland; því næst nefnir hann, að Íslendingar fyrrum hafi numið land á Grænlandi. Enn fremur segir hann að orð liggi á, að Bretar árlega muni eiga viðskipti við Grænlendinga, og segir hann, að sér væri kært, ef Branham vildi fræða sig eitthvað um þá hluti. Það er auðséð af þessu, að einhverjar fregnir um ferðir Frobishers og annara Englendinga til Grænlands hafa þá gengið milli manna á Íslandi.

Guðbrandur biskup var hinn mesti hugvitsmaður og svo mikill þjóðhagi á smíðar, að hann gat nálega smíðað eptir öllu því er hann sá, en upp á mörgu fann hann sjálfur. Meðan hann var skólameistari í Skálholti, smíði hann litla smiðju austur á hlaði og smíðaði þar og gróf látún; á Hólum gróf hann eins og fyrr var frá sagt trémyndir, er prentaðar voru í biblíu hans; eru sumar þeirra enn geymdar á forngripasafninu í Reykjavík. Guðbrandur Þorláksson var ágætlega að sér í stjörnufræði og

[1]) *Hackluyt:* Principal navigations I., bls. 590. Í »Libellus epistolarum Jac. Coleri. Francf. 1587« kvað vera prentað bréf frá Guðbrandi biskupi til Joh. Staunich í Hamborg, en þá bók hefi eg ekki séð.

stjörnulist (astronomia og astrologia) og stærðfræði; fékkst auk þess við rímfræði og gaf tvisvar út íslenzkt rím 1576 og 1611; hann var vinur Tycho Brahes og skrifaðist á við hann. Guðbrandur biskup átti og las bækur hinna helztu stjörnu- og stærðfræðinga, er þá voru uppi; segist Arngrímur lærði hafa séð hjá honum bækur í stjörnufræði og stærðfræði eptir Purbach, Reinhold o. m. fl., er Guðbrandur hafði bætt ýmsu inn í með eigin hendi. Við skólalærdóm var Guðbrandur, að því er hann sagði sjálfur, í fyrstu nokkuð tornæmur, en hann hafði ágætt minni.

Guðbrandur biskup smíðaði himinhnött, sem lagaður var eptir hnattstöðu Íslands og gaf hann Jóhanni Bucholt höfuðsmanni, sem líka var lærður maður og þá í vinfengi við Guðbrand biskup, þó annað yrði seinna. Hann byrjaði líka að smíða jarðarhnött og ætlaði þar að sýna mynd og stöðu Íslands betur og augljósar en þá var á landabréfum, en ekki gat hann lokið því starfi sökum sífellds annríkis og veikleika á seinni árum. Við þetta starf notaði hann verk Apianusar og Orontiusar[1] og voru það hin beztu heimildarrit í þeirri grein, er þá voru til. Í landfræði, stjörnufræði og stærðfræði hefir Guðbrandur biskup verið langfremstur allra Íslendinga í þá daga og miklu framar en Arngrímur Jónsson, sem lítið eða ekkert skyn sýnist hafa borið á þær fræðigreinir. Það mætti kalla Guðbrand biskup ættföður vísindalegrar landfræði á Íslandi, en Arngrímur vekur hina íslenzku sagnfræði úr löngum dvala. Guðbrandur hefði eflaust látið mikið fleira eptir sig viðvíkjandi landfræði og stjörnufræði, hefði hann ekki ávallt haft við svo mörgu öðru að snúast, en það er nóg, þó eigi væri annað, til þess að halda á lopti

---

[1]) *Apianus* (Peter Bienewitz) var háskólakennari í Ingolstadt og orðlagður fræðimaður (f. 1495 d. 1552); hann gaf út »Cosmographia. Landeshuti 1524. 4to«; í því riti eru töflur yfir hnattstöðu margra staða, og voru breidda- og lengdaákvarðanir hans furðu nákvæmar. *Orontius Finæus* gaf út bók »De mundi sphæra«. Paris 1555, og í henni gefur hann góðar reglur til þess að ákveða jarðlengdir staða af gangi tunglsins gegn um hádegisbauginn.

landfræðisþekkingu hans, að hann fyrstur mældi hnattstöðu Íslands 1585.[1] Eins og fyrr hefir verið frá sagt, var hnattstaða Íslands á landabréfum miðaldanna mjög skökk og landinu var hringlað fram og aptur í allar áttir, en Guðbrandur biskup tók af öll tvímæli með því að mæla hnattstöðu Hóla og reiknaðist honum breiddarstig biskupssetursins 65° 44'. Ekki er greint frá því, hvaða verkfæri Guðbrandur biskup hefir notað við athuganir sínar; rithöfundarnir nefna það ekki, enda hafa líklega fáir eða engvir í þá daga aðrir en Guðbrandur sjálfur borið skynbragð á slíka hluti.

Vér höfum hér að framan í 7. kapítula getið um mynd Íslands á landabréfum miðaldanna; hið síðasta og bezta kort af Íslandi var uppdrátturinn eptir Olaus Magnus 1539 og þó er hann mjög fjarri sanni. Þá kemur þessu næst út uppdráttur Íslands í kortasafni *Orteliusar* 1595 og ber hann eins og gull af eiri af því sem áður var til, Ortelius segist hafa fengið þenna uppdrátt frá hinum danska sagnaritara *Anders Sörensen Vedel* (f. 1542, d. 1616) og hafa jafnvel sumir ætlað, að uppdráttur þessi væri eptir Vedel sjálfan,[2] en það nær engri átt; Vedel hafði engin tæki til slíks starfa; hann hafði aldrei komið til Íslands og þekkti ekki Ísland betur en aðrir Danir í þá daga. Á uppdrættinum stendur reyndar, að A. S. Vedel (Andreas Vellejus) hafi gjört hann og tileinkað hann Friðriki konungi öðrum, en aðrir höfundar, sem voru uppi um sama leyti, taka það skýrt fram, að uppdrátturinn sé eptir Guðbrand biskup Þorláksson, enda gat enginn þá gjört slíkan uppdrátt annar en hann. Þórður biskup Þorláksson segir á Íslands-uppdrætti sínum 1668, að hann sé gjörður eptir breidda og lengdarmælingum Guðbrands biskups Þorlákssonar. Enginn hafði fyrr en Guðbrandur mælt hnattstöðu Íslands og á mæl-

[1]) *Arngrímur Jónsson*: Brevis Commentarius de Islandia. fol. 7a.

[2]) *C. F. Wegener*: Om Anders Sörensen Vedel. Kjöbenhavn 1846, bls. 235.

ingum hans og uppdrætti eru allir þeir uppdrættir af Íslandi byggðir, sem gjörðir voru á 17. öldinni. Guðbrandi ber því með réttu sá heiður að hafa verið hinn fyrsti, er gjörði vísindalegar athuganir, er snertu landfræði Íslands, og mælingar hans gera það að verkum, að upp frá þessu þurfti ekki lengur neinn efi að vera á því, hvar setja skyldi Ísland á jarðarhnettinum, þó sumir útlendingar af vankunnáttu ekki seti það á réttan stað að heldur. Með Guðbrandi Þorlákssyni byrjar nýtt tímabil í landfræðissögu Íslands; hann stígur eitt hið þýðingarmesta spor í því efni, sem stigið er, áður en þeir Eggert Ólafsson og Sveinn Pálsson koma til sögunnar.

Lögun Íslands er á öllum þeim landabréfum, er eiga ætt sína að rekja til uppdráttar Guðbrands Þorlákssonar, að mestu leyti rétt; þó er landið heldur langt og hornótt og meginlandið ekki eins breitt til suðurs eins og það á að vera. Allir helztu firðir landsins sjást á uppdrættinum og eru nöfnin sett við, einna flest á Vestfjörðum. Landinu er skipt í fjórðunga og víða eru héraðanöfn; þar eru og nöfn biskupsstólanna, klaustranna, verzlunarstaða og helztu bæja og einnig nöfn á nokkrum fjöllum og jöklum. Á eptirmyndunum eptir frumriti Guðbrands eru þó nöfnin allflest nokkuð afbökuð; þau hafa gengið í gegn um margar hendur þeirra manna, er ekki skildu orð í málinu. Guðbrandur biskup lét sér mjög annt um, að útlendingar fengi rétta hugmynd um landið; honum grömdust skröksögurnar og þvættingurinn í útlendum bókum, sem minntust á Ísland, og þess vegna hvatti hann Arngrím lærða til þess að rita »Commentarius« o. fl. bækur, og skrifaði sjálfur formála og inngangsorð fyrir ýmsum ritum Arngríms, og eru þessir stuttu formálar opt fróðlegir.

Árið 1588 leituðu Sunnlendingar ráða til Guðbrands biskups um biskupskosningu; hann gat eigi sjálfur sökum lasleika farið til alþingis, en hann ritaði þeim bréf og mælir í því mjög fram með Oddi Einarssyni og hrósar honum mjög fyrir lærdóm, enda var Oddur bæði stjörnufróður og vel að sér í öðrum þeim menntum, er Guð-

brandur unni. Guðbrandur biskup segir meðal annars í bréfinu, að það sé mjög nauðsynlegt að hafa sem lærðastan biskup, bæði til þess hann geti hrakið villulærdóma, veitt skólanum góða forstöðu og aukið menntunina; hann segir, að það sé sómi og heiður fyrir landið að hafa sem lærðastan mann í slíku embætti, »sem bæði hefir mennt og lærdóm guðsorð að kenna og svo mörgum lastskriptum svar að gefa, sem út eru gengnar um vort föðurland eða ganga kunna«.

Um daga Guðbrands biskups fóru menn, sem fyrr hefir verið frá sagt, bæði Englendingar og Danir, að forvitnast um Grænland og fornbyggðir þar; leituðu menn þá frétta til Íslands, því Íslendingar voru hinir einu er nokkuð vissu um landnám fornmanna á Grænlandi. Guðbrandur biskup gjörði sitt til að fræða menn um Grænland, því 1606 gjörir hann uppdrátt af Norðurhöfum,[1] sem enn þá er til, og fylgdi riti Arngríms Jónssonar um Grænland. Uppdráttur þessi er allmerkilegur og sýnir, hve vel Guðbrandur hefir þekkt fornritin um Grænland. Hér á ekki við að lýsa nákvæmlega því, er Grænland snertir; þó má geta þess, að Grænland er látið ná norður fyrir Hafsbotna, norðaustur undir Noreg; eins sýnir Guðbrandur skipaleiðina fornu til Grænlands og lætur hana liggja fyrir suðurodda landsins inn í stóra firði suðvestan í landinu; sést af þessu, að hann hefir ekki hugsað sér austurbyggðina á austurströnd Grænlands eins og margir gerðu í þá daga og eins á seinni tímum. Zenikortið hefir haft nokkur áhrif á uppdráttinn, því Frísland er látið vera mikil ey suður og vestur af Íslandi, og heldur Guðbrandur það sé sama og Nýjaland. Mynd Íslands er á þessum uppdrætti í öllum aðalefnum rétt, en uppdrátturinn er auðsjáanlega fljótlega gerður, að eins til þess að sýna almenna legu landanna, og er því hið einstaka ekki

[1]) Í stóru konunglegu bókhlöðunni í Kmhöfn. Gl. kgl. Saml. 4to, nr. 2876. *K. I. V. Steenstrup* hefir út gefið uppdrátt þennan í Meddelelser om Grönland IX. Tab. 2, og fylgja honum ýmsar skýringargreinar á s. st., bls. 11, 16-18 og 42-44.

nákvæmlega teiknað. Flóarnir vestan á landinu og Ísafjarðardjúp eru rétt sett; hinir aðrir firðir fyrir norðan og austan eru fremur settir af handahófi, og Langanes er oflangt í samanburði við önnur útnes; fyrir norðan land er Grímsey sett á réttum stað og Vestmanneyjar fyrir sunnan land; Snæfellsnes er of breitt og á því geysimikil hrúga, sem á að tákna Snæfellsjökul.[1]

Guðbrandur biskup hafði mikla löngun til þess að fræðast um Ísland og höfin þar í kring; þess vegna fékk hann þá Hvanndalabræður, Bjarna, Jón og Einar Tómassyni, 1580 til þess að leita að Kolbeinseyju (Mevenklint),[2] og hafði biskup boðið þeim til þess mikið fé, að því er Jón Einarsson segir. Þessi ferð er allmerkileg meðal annars vegna þess, að hún er hin eina rannsóknarferð, er Íslendingar fóru í þá daga. Tveir þeirra bræðra voru yngri en tvítugir, en Bjarni var 28 ára, en allir voru þeir knálegir menn og kunnu vel til á sjó, sterkir og hugaðir vel. Þeir fóru til Kolbeinseyjar þrír á áttæringi og rákust í haf í hinni fyrstu ferð, en náðu þó landi að tveggja daga fresti. Í annað sinn náðu þeir eynni með hinum sama útbúnaði og var hún full af fugli; meðan þeir gengu upp á eyna, voru þeir svo óheppnir að missa skipið út, svo það rak frá eynni, en svo lygndi og skipið færðist nær, svo þeir fengu kastað steini undir stafnlokið og dregið það síðan að sér; gátu þeir síðan í makindum safnað fugli og eggjum og voru alls 7 daga við eyna. Ferð þessi þótti hin mesta frægðarför og var mikið orð gjört af karlmennsku og þreki þeirra bræðra sem von-

[1]) Hinn danski ferðamaður *Graah* skírði mjótt nes með háum höfða á Austurströndu Grænlands *Cap Gudbrand* til heiðurs við Guðbrand Þorláksson; höfða þennan kalla Grænlendingar Tornarsik; hann liggur á 65° 14' n. br. og er 1310 fet á hæð, sbr. Meddelelser om Grönland IX., bls. 202; í sömu bók, bls. 245 er jarðfræðisuppdráttur (prófil) af höfða þessum. Á hinum nýjustu uppdráttum er nafninu Cap Gudbrand enn þá haldið. Það mun einsdæmi nú á tímum í útlöndum, að örnefni séu kennd við Íslendinga.

[2]) Árbækur Espólíns V., bls. 85; *Jón Árnason*: Íslenzkar Þjóðsögur II„ 125-127.

legt var. Séra Jón Einarson orti brag um ferðina, er byrjar svo:

Rituðust forðum rímur og sögur
um röskva drengi og hreystimennn o. s. frv.

Þriðja erindið er svo:

Kunnir voru að karlmannshörku
kapparnir um æfistund,
ekki fjarri eyðimörku
uppólust við síldargrund;
vantaði hvorki afl né orku
ofurhuga í sinni lund.

Og seinast í bragnum stendur:

Ekkert náði eptirliggja.
unga menn sem prýddi þá.

Kolbeinsey er að eins sker eða lítill hólmi og segir í bragnum, að þeir Hvanndalabræður hafi mælt það með vað, og reyndist þeim hólminn 400 faðmar á lengd og 60 á breidd; grastó var þar engin, en skerið var hrjóstrugt með hólum og gjótum, en allt hvítt af fugli. Þegar þeir fyrst sáu eyna í fjarska, héldu þeir, að þar væri hafskip á siglingu, en svo var eigi:

Eylands var það efsti balinn,
alhvítur af bjargfýling;
augun fengu hann ekki talinn,
eins og sæi á lífubyng.

Frá Kolbeinsey var land allt horfið nema þrjár þúfur. Þegar þeir fóru frá eynni, fengu þeir hagstæðan byr, farnaðist vel og tóku land á Maríumessu.[1] Seinna hafa menn opt farið til Kolbeinseyjar; Olavius getur þess,[2] að menn hafi farið þangað á vorin á áttæringum eptir dún,

[1]) Jón Espólín segir, að þeir Hvanndalabræður hafi farið þrjár ferðir til Kolbeinseyjar, en Jón Einarsson getur eigi nema tveggja. Bjarni Tómasson drukknaði 1617 með annan mann á Skagafirði: »þeir fóru fram á haf til fiskjar tveir, sem Bjarni hafði svo opt leikið á stórum dirfsku sjóferðum«. Annálar Björns á Skarðsá, bls. 196.

[2]) Oeconomisk Reise, bls. 323.

sel og fugli. Jón stólpi, bóndi í Grímsey, fór þangað síðastur. Á þessari öld hafa hákarlaskip opt komið þar og 1853, er Ari Eyfirðingur kom þar, var eyjan svo þakin af fugli og sel, að eigi sá til jarðar.[1]

*Arngrímur Jónsson* var fæddur 1568 á Auðunarstöðum í Víðidal;[2] þar bjó faðir hans Jón Jónsson Hallvarðssonar; Jón Hallvarðsson átti Guðrúnu Jónsdóttur Sigmundarsonar, systur Helgu, móður Guðbrands biskups; Guðbrandur biskup og Arngrímur voru þannig náskyldir, að öðrum og þriðja; móðir Arngríms var Ingibjörg, dóttir Lopts prests Þorkelssonar. Árið 1576 fór Arngrímur Jónsson til Guðbrands biskups frænda síns, fór brátt að stunda skólanám og naut tilsagnar Bjarna Gamalíelssonar í 8 ár; Bjarni var skólameistari á Hólum 1576—86. Arngrímur sigldi 17 ára gamall með ráði og tilstilli Guðbrands biskups til Kaupmannahafnar, og var þar 4 ár á háskólanum undir tilsjón Jóhanns Haggeus'ar, kennara í rökfræði; 1589 fór Arngrímur heim aptur með beztu vitnisburðum,[3] og varð þá þegar skólameistari á Hólum; litlu síðar (líklega 1590) tók hann prestsvígslu og gegndi dómkirkjuprestsembættinu, jafnframt því er hann var skólameistari; um sömu mundir fékk hann, að því er menn ætla, bæði Miklabæ í Blönduhlíð og Melstað í Miðfirði,

[1]) Ingólfur I., bls. 72.

[2]) Um æfi Arngríms Jónssonar er eg hér nokkuð langorður, af því engin íslenzk æfisaga þessa merkismanns er til á prenti, það eg veit. Heimildarrit þau, sem eg hefi notað, eru þessi helzt: *Finnur Jónsson*: Historia ecclesiastica Islandiæ III., bls. 443-49; Annálar Björns á Skarðsá; rit Arngríms sjálfs, einkum Apotribe virulentæ et atrocis calumniæ. Hamb. 1622. 4to. Epistolæ *O. Wormii*. Havniæ 1751. *Jón Ólafsson* frá Grunnavík: Um þá lærðu Vídalína. Add. B. U. H. nr. 47 A. Fol. afskript í hndrs. Jóns Sigurðss. 68. fol. Biskupaæfir *Jóns Halldórssonar*, hndrs. J. S. 70. Fol. Presbyterologia *Hálfdáns Einarssonar* í Biskupsskjalasafninu nr. 67. Fol. *J. Thorchillii*: Specimen Islandiæ non barbaræ, hndrs. J. S. 4to, nr. 333; ýmislegt um Arngrím er líka í sama safni í nr. 300, 380. 4to og víðar.

[3]) Í bók Jóns Þorkelssonar »Digtningen paa Island« stendur, að Arngrímur hafi orðið skólameistari 1587, en það er prentvilla.

og hafði kapellána til að þjóna þeim brauðum, meðan hann dvaldi á Hólum. Skólameistaraembættinu gegndi hann þangað til 1598, nema hvað Jón Einarsson þjónaði því embætti fyrir hann 1593, er Arngrímur fór utan. Arngrímur sigldi þrisvar, fyrst til háskólans, síðan 1592 fyrir Guðbrand biskup í málum hans við Jón lögmann, og í þriðja sinn 1602 í erindum sjálfs sín og biskups.

Árið 1598 giptist Arngrímur Jónsson í fyrsta sinn, Solveigu Gunnarsdóttur; hún var hverri konu fríðari sýnum og kölluð »Solveig kvennablómi«. Faðir Solveigar, Gunnar Gíslason, var fyrst ráðsmaður á Hólum og síðan sýslumaður í Skagafjarðarsýslu;[1] hann dó 1605, 77 ára að aldri; segir Hálfdán Einarsson, að hann hafi verið grafinn að Miklabæ í Blönduhlíð og þar hafi verið latneskt grafletur yfir hann, er Arngrímur tengdasonur hans hafði sett. Móðir Solveigar var Guðrún Magnúsdóttir Jónssonar biskups Arasonar.

Á sama ári bar það við, að Gvendur Loki var grafinn upp, og var Arngrímur við þá sögu riðinn; sést á því, hve hjátrúin þá var farin að magnast, jafnvel hjá beztu og lærðustu mönnum þjóðarinnar. Gvendur Loki var húsgangskarl, illorður og leiðinlegur; hann vildi ná hreppsvist í Hjaltadal, en Þorkell Gamlason ráðsmaður á Hólum og hreppstjóri bægðu honum frá; hétzt hann þá við Þorkel og hans niðja; dó nokkru seinna uppi í Skagafjarðardölum og var grafinn í Goðdölum. Þorkell átti unga dóttur, er Sigríður hét; hún varð skömmu síðar undarlega veik og fékk aðsóknir og ónáðir miklar, og var það kennt Gvendi Loka. Eina nótt vakti Arngrímur prestur Jónsson hjá henni um stund, og hafði hana í fangi sér með guðsorðalestri og góðum bænum; kvaðst hann þess vænta, að vondur andi mundi henni enga ónáð veita, meðan hún væri sér í höndum; varð það og eigi þann tíma og þótti brugðið venju. Litlu síðar reið Arngrímur prestur leið sína norður tröðina frá staðnum;

---

[1]) *Bogi Benedictsson*: Sýslumannaæfir I., bls. 353-59.

féll þá undir honum hesturinn og svo hann sjálfur, og fékk hann áverka af steini í andlitið og bar örið alla æfi síðan; þóttust sumir hafa séð Loka hrinda hestinum, Þá tóku Hólamenn það ráð, sem menn áður höfðu haft við þá, er heitazt höfðu, að þeir riðu upp að Goðdölum; var Loki grafinn upp og afhöfðaður, og Sigríður látin ganga milli bols og höfuðs, og svo var búkurinn brenndur. Batnaði Sigríði síðan, þó veikleg væri, en hún varð ei gömul. Óvinir Hólamanna lögðu þeim þetta mjög til lýta, eigi síður Guðbrandi biskupi en Þorkeli ráðsmanni, og ætla menn þó, að Guðbrandur biskup hafi engu um valdið og eigi hafi verið um ráðizt við hann; þó er sagt, að Gvendur Loki hafi drepið kýr fyrir biskupi, en hann keypti aðrar og kvaðst kaupa mundu, meðan nokkur fengist í Skagafirði; létti þá kúadauðanum.[1] Óvinir Guðbrands biskups báru fregnir um þetta fyrir konung, biskupi til ófrægðar, og því var gefin út tilskipunin 25. febrúar 1609; segist konungur hafa frétt, að Íslendingar sumir leggi það í vana sinn, að grafa upp dauða menn, skera af þeim höfuðið og brenna þá síðan, og bannar konungur það stranglega.[2]

Þegar Arngrímur var nýgiptur, flutti hann sig að Melstað, og bjó þar alla æfi síðan, þó opt hafi hann orðið að vera lengi í burtu sökum starfa sinna við biskupsstólinn. Það er sagt, að Arngrímur Jónsson hafi verið lítill búmaður; þegar síra Erlendur Ólafsson tók við brauðinu eptir síra Arngrím 1648, voru þar t. d. engin hús fyrir hross. Arngrímur hafði svo mörgu að sinna, að það var ekki undarlegt, þó hann stundaði miður búskapinn; Arngrímur var hinn starfsamasti rithöfundur bæði á íslenzku og latínu, og liggur fjöldi rita eptir hann; hann

---

[1]) Annálar Björns á Skarðsá, bls. 165. Árbækur Espólíns V. bls. 89.

[2]) *M. Ketilsson:* Forordninger og aabne Breve II., bls. 250. Lovsaml. for Island I., bls. 171-72. Magnús Ketilsson trúir því auðsjáanlega, að afhöfðunin sé heillaráð gagnvart slíkum aptur-göngum.

varð um mörg ár að annast biskupsstólinn, vígja presta, vísitera kirkjur og vera að öllu leyti í biskups stað; auk þess átti hann í sífelldum málaferlum bæði fyrir Guðbrand biskup og sjálfan sig; sökum þessa hefir Arngrímur um miðbik æfi sinnar sjaldan verið heima, en optast á ferðalögum. Þó nú búskapurinn hafi, ef til vill, gengið tregt, þá hafði Arngrímur hins vegar töluverðar tekjur á ýmsan hátt, svo hann hefir varla átt við mjög þröng kjör að búa, enda gat hann sett börn sín til mennta, þó þau væru mörg. Með Solveigu Gunnarsdóttur átti Arngrímur þrjú börn: 1. Jón, sem giptist Ólöfu Jónsdóttur lögmanns Sigurðssonar; þau voru skilin með dómi; Jón bjó fyrst á Ökrum, svo í Sælingsdalstungu. 2. Gunnar, dó barnlaus; 3. Helga; hún var seinni kona Björns sýslumanns Magnússonar í Bæ á Rauðasandi; þeirra sonur var hinn alkunni lærði guðfræðingur síra Páll Björnsson í Selárdal. Fyrri kona síra Arngríms, Solveig Gunnarsdóttir, dó 22. júní 1627.

Eins og fyrr var frá sagt, var Arngrímur náskyldur Guðbrandi biskupi, og hafði biskup í alla staði annazt hann sem faðir; málastappið út úr eigum Jóns Sigmundarsonar var Arngrími því einnig viðkomandi, enda var Arngrímur önnur hönd biskups í þeim málaferlum. Óvild sú, sem biskup varð fyrir af deilum þeim, er hann átti í, bitnaði því ekki síður á síra Arngrími. Þó málaferli þessi séu fjarstæð efninu, verð eg þó stuttlega að drepa á þau, því þau höfðu svo mikla þýðingu fyrir líf Arngríms, og urðu að sumu leyti orsök til mótspyrnu þeirrar og óvildar, sem Arngrímur mestan hluta æfi sinnar átti við að stríða, og voru vísindastörf hans því minna metin af mörgum löndum hans en annars hefði verið. Árið 1590 gerðu þeir Guðbrandur biskup og Arngrímur frændi hans á alþingi tilkall til tveggja jarða, Hóls og Bessastaða í Sæmundarhlíð í Skagafirði; hafði Jón Sigmundarson, afi Guðbrands biskups, en langafi Arngríms, átt þær jarðir, en Gottskálk biskup hafði tekið þær af honum, þá fyrir 86 árum; höfðu bræður tveir, Markús og

Jón Ólafssynir (kallaðir Stóradals-bræður), haldið þær; kom málið undir dóm Lárusar Kruse höfuðsmanns, en þó var ekkert aðgert í það sinn, því þeir bræður vildu engin skjöl leggja fram fyrir þessum jörðum. Arngrímur prestur skaut þá málinu til konungs; kom þá út 1591 konungsbréf til Hinriks Krags höfuðsmanns um, að láta síra Arngrím ná rétti sínum af erfingjum Gottskálks biskups og dæma málið, hvort sem þeir legðu fram bréf fyrir jörðunum eða ekki. Þá tók höfuðsmaður mál þeirra Arngríms undir dóm 24 manna. Þá voru af mótmælendunum lögð fram hin alræmdu »morðbréf«, falsbréf, sum undir nafni Gottskálks biskups, gerð þeim Guðbrandi og Arngrími til skaða og skapraunar. Eitt bréfið var um Hól og Bessastaði, og í því sagt, að Björg Þorvaldsdóttir, kona Jóns Sigmundarsonar, amma Guðbrands biskups, hefði fengið þær Gottskálki biskupi fyrir það, að hún hefði eytt miklu fé fyrir stólnum; annað var um Jón Sigmundarson, að hann hefði að ófyrirsynju drepið Ásgrím bróður sinn í kirkjugarðinum í Víðidalstungu og drekkt tveim börnum sínum, öðru í soðkatli, en hinu í Gljúfurá. Guðbrandur biskup sagði þegar, að bréfin væru fölsk og uppspunnin sér til ófrægðar, en hann fékk þó engu framgengt fyrir ofríki Jóns lögmanns, og stefndi þá hver öðrum fyrir konunginn og ríkisráðið. Sigldi þá Jón lögmaður og tókst um leið á hendur að bera fram fyrir ríkisráðið ýms opinber mál, er snertu landsstjórnina, og fékk hann alþingi til þess að samþykkja, að hver skattbóndi skyldi leggja fimm álnir til farar þessarar. Af hendi Guðbrands biskups fóru þeir utan Arngrímur Jónsson og Guðmundur Einarsson frá Útskálum, sem líka var náfrændi biskups; þeir Arngrímur fóru til Hamborgar og svo um Holtsetaland og gegn um Danmörku til Hafnar; kynntist Arngrímur á þeirri ferð mörgum tignum og lærðum mönnum, t. d. Filip Nicolai, Dedekennus, Chytræus, o. m. fl. Jón lögmaður bar mikinn róg fyrir konunginn um biskupa og klerka, og reyndi Arngrímur að bera það á móti, er hann gat, en þá vildi svo illa til, að Jóhann

Bucholt, sem áður hafði verið hér höfuðsmaður, mikill vinur Jóns lögmanns, en óvinur Guðbrands biskups, var kvaddur til vitnis af stjórnarráðinu, og átti hann að bera um þessi mál og skera úr þrætunum; Bucholt var í öllu samdóma Jóni lögmanni og ófrægði Guðbrand biskup og klerka hans mjög fyrir stjórninni. Arngrímur fékk því engu áorkað. Gaf konungur þá út tvö ávítunarbréf til biskupanna, en skipaði höfuðsmanni Hinrik Krag að láta 24 manna dóm dæma málið á alþingi. Um sumarið komu þeir til þings, Guðbrandur biskup og Jón lögmaður, en Arngrímur kom eigi til landsins fyrr en eptir þing. Guðbrandur vann sigur á þinginu, að því leyti að »morðbréfin« voru dæmd upplogin falsbréf, ónýt og að engu hafandi, og voru klippt í sundur og fengin biskupi, svo að þau yrðu ekki Jóni Sigmundarsyni né afkomendum hans til neinnar hneisu; en svo var mikið ríki Jóns lögmanns, að ekki gat Guðbrandur haft hendur í hári þeim, er bréfin höfðu gert, og eigi náðu þeir Arngrímur heldur jörðunum Hóli og Bessastöðum; Guðbrandur biskup varð meðfram að vægja sökum þess, að hann hafði í kæruskjali sínu til stjórnarinnar verið mjög harðorður um Jón lögmann og Jón Magnússon á Svalbarði föður hans, en gat ekki sannað; hafði hann meðal annars borið Jóni Magnússyni á brýn galdra og fjölkynngi.[1]

Árið 1595 tóku þeir Guðbrandur og Arngrímur aptur upp málið um Hól og Bessastaði, en náðu eigi jörðunum að heldur, mest vegna stóryrða biskups um einn af mótstöðumönnum sínum, og fengu þeir aldrei jarðirnar. Þegar Guðbrandur biskup hafði fengið falsbréfin í hendur, ritaði hann og lét prenta bæklinga um þau, og spunnust út úr því ný málaferli og æsingar; mest kvað

---

[1]) Í bréfi Guðbrands biskups til ríkisráðsins er svo komizt að orði: »Í annan máta kunngjöri eg yður, hvernig Jóns lögmanns faðir hefir meðkennt upp á sig allra handa galdra og hefir þá brúkað í langa tíð, og það, að hann hafi þar með mörgum manni skaða gjört». Hndrs. J. Sig. nr. 523. 4to.

þó að bæklingi þeim, er Guðbrandur biskup gaf út 1608,[1] þá var Jón lögmaður dáinn; en biskup er mjög harðorður um hann, og dróttar falsbréfagerðinni að þeim Stóradalsbræðrum; ámælti hann í riti þessu mörgum embættismönnum og leikmönnum fyrir ranglæti og misjafna dóma. Var Guðbrandur mjög ákafur og óvarkár í orði, og fékk hann af bæklingi þessum mikla óvild margra manna, og gerðu þeir honum alls konar árásir, svo biskup komst enn í mörg málaferli bæði út úr þessu og öðru, og var Arngrímur jafnan skjaldsveinn biskups og aðstoðarmaður. Um þenna seinasta morðbréfabækling var dæmt að fullnustu af 24 manna dómi á alþingi 1620, og gat biskup sjálfur ekki komið sökum veikinda, en Ara Magnússyni, tengdasyni hans, tókst óhöndulega að verja málið, og hefir hann, ef til vill, ekki fram fylgt því eins röggsamlega, af því hann var bróðursonur Jóns lögmanns; flestir höfðingjar, sem í dóminum sátu, voru og frændur og vinir Jóns lögmanns og fullir heiptar og gremju gegn Guðbrandi biskupi; féll málið því á biskup; dæmdu þeir ritið róg og biskup til konungs náðar eða ónáðar, eptir því sem honum litist, en mæltust þó til, að konungur vægði honum sakir elli hans og veikleika og dugnaðar þess, er hann hefði sýnt við útbreiðslu guðsorðs hér á landi. Dómur þessi var auðsjáanlega ákaflega ranglátur, því þó Guðbrandur biskup væri æði harðorður um mótstöðumenn sína, þá hafði hann fulla ástæðu til að reiðast yfir þeirri rangsleitni, er honum hafði verið sýnd, er hann ekki náði rétti sínum yfir höfundum falsbréfanna,

[1]) »Sönn undirvísun um þau ómannlegu, hæðilegu og óviðurkvæmilegu morð- og manndrápsbréf og nokkra aðra gjörninga, sem skrifaðir og lognir hafa verið upp á Jón Sigmundsson löngu eptir hans dauða og afgang. Hólum 1608«. Guðbrandur gat ekki með vottum sannað falsið upp á höfundana; hann safnaði þá með aðstoð manna sinna öllu »upplaginu« af þessum bækling og brenndi. Þegar málið kom til dóms 1620, þá fékkst ekkert exemplar af bókinni handa réttinum, en þá er sagt, að einn þeirra, sem í dóminum voru, hafi murrað nokkuð fyrir munni sér og hafi þá dottið eitt eintak fram úr ermi hans. J. Sig. hndrs. nr. 523. 4to.

þó bréfin væru dæmd á þingi upp login í illum tilgangi. Með því Guðbrandur biskup var þá orðinn gamall og sjúkur og átti örðugt með að eiga í þessu þrasi, þá sendi hann dótturson sinn, Þorlák Skúlason, utan á konungsfund til þess að biðja konung vægðar; hafði hann þá verið mjög affluttur og rægður af óvinum sínum, en fyrir milligöngu góðra manna varð sú endalykt á, að konungur gaf Guðbrandi kost á, annaðhvort að láta málið ganga til hæstaréttar eða gjalda 1000 dali; kaus biskup seinni kostinn, því hann var þá orðinn leiður á málaferlum og hrumur af elli; þó galt hann aldrei nema lítinn hluta sektarinnar.

Óvild sú, er Guðbrandur biskup varð fyrir, bitnaði einnig á Arngrími. Báðir þessir menn stóðu í vísindalegri þekkingu, framkvæmdum og ritstörfum langt fyrir framan Íslendinga þá, sem uppi voru um aldamót 16. og 17. aldar, og höfðu menn hér á landi því ekki vit á að meta verk þeirra að verðugleikum, en dæmdu þá eingöngu eptir þeim þrönga sjóndeildarhring, er þeir sjálfir fengu litið yfir; smásmuglegur kritur, öfund og sérgirni blekktu líka sjónir manna, sem opt vill verða hjá litlum þjóðum. Í formálanum fyrir riti Arngríms gegn Davíð Fabricius kvartar Guðbrandur biskup undan því, að Íslendingar meti það alls ekki við Arngrím, hve drengilega hann hafi varið Íslendinga gegn árásum útlendra illhryssinga; segir hann, að landar Arngríms séu vanþakklátir og ofsæki hann með hatri og öfund; þó láti fáeinir hann njóta sannmælis, t. d. þeir, er orkt hafa kvæði um hann, sem prentuð eru í sumum bókum hans. Aptur á móti var Arngrímur í hinu mesta áliti utanlands, í Þýzkalandi, Danmörku, Hollandi og víðar; með ritum sínum hélt hann uppi heiðri Íslendinga meðal fjarlægra þjóða; flestir útlendingar höfðu áður haldið, að á Íslandi byggju eingöngu fífl og skrælingjar, en Arngrímur sýndi með ritum sínum, að hér voru menn á þessu fjarlæga landi, sem í þeirra tíma lærdómi stóðu jafnfætis fræðimönnum á meginlandi Európu. Auk þess endurreisti Arngrímur íslenzka

sagnfræði, og opnaði fjársjóðu fornaldarinnar, sem íslenzkar bókmenntir síðan því nær eingöngu hafa lifað á. Íslendingar kunnu ekki að meta þetta, enda segir máltækið, að fáir séu spámenn í sínu föðurlandi. Á seinni árum Arngríms var þó hugsunarhátturinn farinn að breytast; þá voru komnir fram margir ungir menntamenn íslenzkir, sem unnu íslenzkum fróðleik og virtu Arngrím fyrir það, sem hann hafði gert.

Þegar Guðbrandur biskup sýktist af hálfvisnun 1624 og lagðist í kör, varð Arngrímur »officialis« og tók við allri stjórn kirkjunnar og biskupsdæmisins; löngu áður (1596) hafði konungur leyft Guðbrandi biskupi að hafa Arngrím sér til aðstoðar við embættið, en 2. júlí 1624 gaf Holger Rosenkrantz út bréf á Bessastöðum, um, að Arngrímur Jónsson skyldi veita biskupsembættinu forstöðu; átti Arngrímur að hafa umsjón með kirkjum og prestum og visitera kirkjurnar; hann átti einnig að hafa yfirumsjón yfir skólanum; Arngrími var og boðið í viðurvist ráðsmannsins, skólameistara og dómkirkjuprestsins, að safna saman öllum bréfum og skjölum dómkirkjunnar og stólsins og leggja þau í góða geymslu, unz »guð gerði enda á biskupsins sjúkdómi eptir hans þægilegum vilja, þó að biskupsins myndugleika og embætti í allan máta óforkreinktu, svo lengi sem hann vildi því sjálfur forstöðu veita«. Árið 1626 fékk Arngrímur konungsbréf um að vígja presta og vígði hann alls 6 presta, meðan hann þjónaði embættinu; fyrstu kararár Guðbrands biskups, vígði Oddur biskup Einarsson í Skálholti 3 presta að norðan. Fyrir ómak sitt fékk Arngrímur Jónsson 50 jóachimsdali að launum og afgjald af 7 jörðum Hólakirkju. Meðan Arngrímur gegndi biskupsembættinu, þjónaði Illugi Ingjaldsson fyrir hann á Melstað; en þegar Arngrímur aptur tók við brauðinu, varð Illugi að hverfa frá og giptist um það leyti, en var embættislaus um tíma; lét Arngrímur sér mjög annt um, að útvega Illuga gott brauð og gekk það treglega í fyrstu.[1]

[1]) Epistolæ O. Wormii. Havniæ 1751, bls. 302-303, 318.

Seinna fékk Illugi Tjörn á Vatnsnesi; hann var haldinn margkunnugur.[1]

Eptir andlát Guðbrands biskups var um sumarið (20. ágúst) haldin fjölmenn prestastefna á Flugumýri í Skagafirði, til þess að kjósa nýjan biskup; ætluðu allir, að Arngrímur mundi verða kosinn; hann stóð næstur sökum aldurs, embættis og lærdóms. Arngrímur tók þá fyrst að afsaka sig og teljast undan jafn vandasömu embætti, og halda menn, að það hafi eigi verið með fullri alvöru. Norðlingar vissu, að Arngrímur var ráðríkur og ákafur í að fylgja fyrirætlunum sínum og því var þeim ekki um, að hann hlyti embættið; héldu, að hann mundi verða mörgum örðugur, er hann væri setztur í völdin; þó vildu þeir ekki á hinn bóginn ganga í berhögg við hann með beinni óvináttu; urðu fegnir undanfærslu síra Arngríms og létust því taka þessa undanfærslu hans gilda; samsinntu honum og sögðu, að hann svo vitur maður vissi, hvað réttast væri, að þó embættið væri virðulegt, þá fylgdu því þó miklar og þungar áhyggjur og kusu þeir því næst í einu hljóði Þorlák Skúlason til biskups.[2]

Síra Arngrímur giptist í annað sinn 1628 Sigríði dóttur síra Bjarna Gamalíelssonar á Grenjaðarstað; var hann þá 60 ára að aldri, en hún 27 ára; áttu þau saman 9 börn og fæddist hið síðasta 16. ágúst 1646, og var Arngrímur þá fullra 78 ára. Af þeim hjónum eru komnir margir merkismenn og koma sumir þeirra við þetta rit. Þessi börn þeirra komust á fullorðinsaldur: 1. Þorkell prestur í Görðum á Álptanesi, 2. Þorlákur prestur á Staðarbakka, 3. Bjarni prestur á Höskuldsstöðum, 4. Guðbrandur sýslumaður í Húnavatnssýslu,[3] 5. Solveig, giptist

---

[1]) Árbækur Espólíns VI., bls. 56.

[2]) Jón Grunnvíkingur ber Pál Vídalín fyrir því, að Halldóra Guðbrandsdóttir hafi fengið prestana á prestastefnunni til þess að kjósa síra Þorlák, þó Guðbrandur biskup hefði helzt viljað hafa Arngrím. Hndrs. J. Sig. 124. fol. (v).

[3]) Guðbrandur Arngrímsson brann inni með konu sinni Ragnheiði Jónsdóttur á Lækjamóti í Víðidal 1719, 79 ára gamall; hann

Jóni Jónssyni Árnasonar frá Narfeyri, 6. Ingibjörg, átti Gísla hinn eldra son Jóns Halldórssonar á Fróðá, og 7. Hildur, er giptist frænda sínum, Jóni Þorlákssyni í Víðidalstungu; þeirra son var Páll lögmaður Vídalín. Arngrímur Jónsson tók sér fyrstur ættarnafnið Vídalín og báru margir ættmenn hans það eptir hann.

Arngrímur Jónsson bjó á Melstað til dauðadags; var hann jafnan heilsugóður, en þó fór hann nokkuð að finna til ellilasleika seinustu árin og þjáðist þá við og við af skyrbjúgi og gikt; kvartar hann um lasleika sinn í bréfum til vinar síns Ola Worms og spyr hann til ráða; ræður Worm honum til þess, að nota skarfakál við skyrbjúgnum, en segir að mörgum hafi gefizt vel á móti gikt, að hafa á hendi hring úr rostungstönn. Arngrímur sendi honum þá tannarbrot, en það var svo hart, að eigi var hægt að vinna; líklega hefir tönnin verið gömul og steingjör; 1641 sendir Worm Arngrími rostungstannarhringi,

var gæflyndur maður, og er sagt, að hann hafi haft heldur mikið konuríki; hann var skáld gott og var bendlaður við ýmislegt málaþras og galdramál. Sonur hans var Þorlákur sýslumaður í Ísafjarðarsýslu († 1707); hann orti Úlfarsrímur. Jón Ólafsson frá Grunnavík segir svo frá, að sá orðrómur hafi legið á, að Þorlákur væri í raun réttri sonur Galdra-Páls, er bjó í Ánastaðakoti á Vatnsnesi; um afdrif Galdra-Páls segir Grunnavíkur-Jón þessa sögu, er eg set hér, af því hún lýsir hugsunarhættinum og menntunarástandinu á 17. öld: »Páll Jónsson, móðurfaðir minn, þá búandi í Kirkjuhvammi, átti mál við Galdra-Pál, að gjört hefði sér galdraveiki og glettingar mörgum. Tók þá Guðbrandur hann sem annan fanga heim til sín að Ási, en þá hann færði hann til alþingis; skyldi Ragnheiður hafa skipað honum, að muna sig um, að færa Pál heim aptur jafngóðan. Páll var dæmdur til eldsins, og er sagt hann hafi beðið að heilsa heim konunni og barninu; hann skyldi hafa rétt sitt skeggjaða höfuð út úr eldinum og sagt: »sjáið nú mitt sakleysi«. Tókst samt, þó tregt veitti, að brenna hann og eigi fyrr en skórnir voru af honum leystir; en í öskunni fannst hjartað óbrunnið. Bað böðullinn, er Hafliði hét, Guðbrand að ljá sér hníf til að saxa það, en þá hraut ögn eða slindra úr því upp í auga böðlinum og varð hann einsýnn síðan; en Guðbrandur vildi eigi aptur hafa hnífana, sem silfurskeptir voru«. Addit. B. U. H. nr. 47. Fol. Jóns Sigurðssonar handritasafn, nr. 68. Fol.

en skipið kom eigi fram.[1] Arngrímur hélt þó líkams- og sálarkröptum, meðan hann lifði. Um vorið 1648 gekk landfarsótt fyrir norðan og úr henni andaðist Arngrímur Jónsson 27. júní 1648, áttatíu ára gamall. Í bréfi til Ola Worms segir síra Einar Arnfinnsson á Stað í Hrútafirði: »Arngrímur sálugi dó sitjandi í rúminu eins og Símon; hann kallaði saman ástvini sína, til þess að hvetja þá til þolinmæði í trúnni og lauk orðum sínum með sálmi; hann hallaði sér því næst hægt aptur á bak eins og hann ætlaði að sofna og á sama augnabliki andaðist hann«.[2] Arngrímur var grafinn í kirkjunni á Melstað, kvennamegin, fyrir framan kórdyr og var þar hengt á vegginn fyrir ofan grafletur með gyltum stöfum og mynd hans hjá og var hurð fyrir. Arngrímur hafði sjálfur samið grafletur í latneskum ljóðum og hafði Oli Worm látið grafa það á töfluna.[3]

Sigríður, ekkja Arngríms Jónssonar, bjó fyrsta árið á Melstað; hún var skörungur í framkvæmdum og skapmikil; segir Jón Grunnvíkingur, að hún hafi viljað, að einhver sona síra Arngríms fengi brauðið, en er síra Erlendur Ólafsson fékk Melstað, lokaði hún kirkjunni og náði síra Erlendur eigi að fremja embættisgjörðina um sumarið og prédikaði úti í kirkjugarði. Sigríður hafði fulla ástæðu til að vera óánægð með brauðveitinguna, því Arngrímur hafði löngu áður fengið loforð kanslarans danska fyrir því, að enginn skyldi verða tekinn fram yfir syni hans, til þess að fá brauðið eptir hann.[4] Frá Melstað flutti Sigríður sig að Torfustöðum og bjó þar nokkur ár, en 1659 eða 1660 flutti hún sig suður að Görðum til Þorkels sonar síns og dó þar.

---

[1]) Epistolæ O. Wormii, bls. 336-37, 340, 350.

[2]) Epistolæ O. Wormii II., bls. 1069.

[3]) Grafskriptin er prentuð í Epist. Wormii I., bls. 348-49.

[4]) Sveinn Jónsson á Barði vildi líka ná í Melstað eptir Arngrím og biður Ola Worm 1643 að útvega sér loforð hjá kanslaranum fyrir embættinu, en þá var búið að lofa Arngrími, að synir hans gengju fyrir. Epist. Wormii II., bls. 630.

Arngrímur lærði var fríður maður og höfðinglegur; mynd af honum á 28. ári, teiknuð af Dedekennus, er framan við bókina »Specimen Islandiæ historicum«. Arngrímur varð nokkuð feitlaginn, en bar sig vel; menn segja að hann hafi verið fremur drembilegur og þóttalegur í fasi og framgöngu;[1] hann var skrautmaður og er sagt um hann, að hann hafi látið syni sína ganga í kápum[2] þegar á unga aldri. Arngrímur var gott latínuskáld og var hinn fyrsti Íslendingur eptir siðaskiptin, sem orti til muna á latínu; eptirmæli hans eptir Guðbrand biskup Þorláksson eru prýðisfögur; hann orti líka töluvert á íslenzku,[3] en ekki þótti mönnum eins mikið til þess koma. Páll Vídalín dóttursonur hans líkti skáldskap afa síns við óheflaða staura, rekna saman með ryðguðum járngöddum.[4] Margir af afkomendum síra Arngríms voru ágætlega skáldmæltir.

Arngrímur Jónsson er vanalega kallaður Arngrímur hinn lærði og það er enginn efi á því, að það er rétt-

---

[1]) Jón frá Grunnavík segir þessa sögu því til sönnunar: »Einu sinni á alþingi var síra Arngrímur að ganga einsamall fram og aptur um lögréttueyrina, en síra Hallgrímur Pétursson lá þar uppi í hallanum og var að tala við ýmsa menn og gamna sér við smádrengi, og sá síra Arngrím niðri á eyrinni; orti hann þá stöku þessa:

Eins og forinn feitur, fénu mögru hjá,
stendur strembileitur stórri þúfu á,
Þegir og þykist frjáls, þetta kennir prjáls,
regir hann sig og réttir upp róuna til hálfs,
sprettir úr sporum með státi og sparðar af gravitáte«.

Í kvæðum Stefáns Ólafssonar I., bls. 74-75 er vísan prentuð og eignuð síra Stefáni, en mér þykir allt eins líklegt, að það sé rétt, er Jón Grunnvíkingur segir, að hún sé eptir Hallgrím Pétursson; en í sjálfu sér er nú samt þýðingarlaust, eptir hvern hún er; hún sýnir hugmyndir sumra um Arngrím.

[2]) Á mynd þeirri af Magnúsi prúða og börnum hans, sem áður var í Haga á Barðaströnd, en nú er á Forngripasafninu, eru börnin líka í kápum.

[3]) Sbr. *Jón Þorkelsson*: Digtningen på Island, bls. 473-79.

[4]) Árni Magnússon sagði um kvæði Arngríms: »Arngrimo demas carmina, major erit« (takirðu kvæðin af Arngrími, verður hann meiri maður).

nefni. Eptir því sem þá gjörðist, var Arngrímur mjög lærður maður; í þeim fræðum, sem menn á 16. og 17. öld helzt stunduðu, var enginn hjer á landi hans jafningi; hina fornu latnesku höfunda þekkti hann ágætlega og miðaldafræði þau, sem þá tíðkuðust, kunni hann upp á tíu fingur. Enginn Íslendingur í þá daga þekkti jafn vel hinar latnesku bókmenntir þeirra tíma, og er furða, hvernig hann, afskekktur uppi á Íslandi, hefir getað kynnt sér svo mörg rit lærðra manna, er þá voru uppi erlendis. Samgöngurnar í þá daga voru ekki miklar; eitt skip kom þó vanalega á ári á hverja af hinum stærri höfnum, en framan af 17. öldinni voru opt hafísar, svo skip náðu eigi höfnum fyrr en á haustin; sum fórust, sum tóku víkingar á leiðinni. Það sést vel á bréfaskriptum þeim, sem fóru á milli Arngríms og Ola Worms, hve samgöngurnar hafa verið örðugar og sjaldgæfar; bréf og sendingar fórust opt á skipbrotum eða víkingar taka skip með farmi og öllu, er á var. Mjög var örðugt að ná í nýjar bækur og komust þær ekki hingað til lands, fyrr en mörgum árum eptir að þær komu út. Oli Worm keypti bækur í Kaupmannahöfn fyrir Arngrím og sendi honum með kaupmönnum; þeir borguðu í peningum í Höfn, það sem Arngrímur þurfti að láta fyrir bækur og annað, en sjálfur galt hann þeim í vörum í kauptíð; peninga var á Íslandi ómögulegt að fá; jafnvel ríkustu menn höfðu sjaldan nokkur peningaráð.[1] Það hefir hjálpað Arngrími til þess að fylgja með tímans straumi, að hann þekkti marga menn í útlöndum og skrifaðist á við þá. Hér á Íslandi hefir Arngrímur eflaust hlotið viðurnefnið »hinn lærði« fyrir þekkingu sína í eldri og yngri latneskum ritum, en í útlöndum var hann mest metinn fyrir kunnáttu sína í íslenzkri sögu og fornfræðum. Rit Arngríms eru opt full af tilvitnunum og greinum úr fornum höfundum og úr

[1]) Magnús prestur Ólafsson í Laufási kvartar undan því í bréfi til Ola Worms 28. ágúst 1632, að samgöngur á Norðurlandi séu svo illar, að hann varla einu sinni eða tvisvar á ári geti skrifazt á við síra Arngrím á Melstað. Epist. Wormii I., bls. 363.

ritningunni; átti það stundum varla við efnið eða var að eins til óþarfra málalenginga; en það var tízka lærðra manna í þá daga, að sýna lærdóm sinn á þennan hátt.

Arngrímur Jónsson er hinn fyrsti Íslendingur, sem stundaði sagnfræði og fornfræði Íslands, og öll rit hans eru að mestu leyti sögulegs efnis; af því hann ritaði á latínu, varð hann brátt kunnugur erlendis, og vakti hann fyrstur með bókum sínum áhuga útlendra og innlendra fræðimanna á sögu og fornfræði Norðurlanda, svo sumir útlendingar fóru jafnvel að læra dálítið í íslenzku. Árið 1596 býður konungur Íslendingum að láta af hendi við Arngrím afskriptir af fornritum, bréfum og skjölum; átti Arngrímur að snúa þeim á dönsku og senda sagnaritara konungs Niels Krag, sem ætlaði að rita sögu Danmerkur og um afreksverk konunganna.[1] Miklu seinna (1625), skrifar Christian Friis kanslari Arngrími og biður hann að útvega sér rit um sögu Noregs. Fyrir þessi störf sín fékk Arngrímur árleg afgjöld af Hallbjarnareyrarjörðum. Á þenna hátt gat Arngrímur náð í mörg handrit, sem hann notaði við ritstörf sín; líklega hefir Arngrímur sent einhver íslenzk handrit til Danmerkur, en þó hefir hann víst varla látið mjög mörg af hendi rakna. Hinn ágæti danski vísindamaður *Oli Worm* (f. 1588, d. 1654) vakti áhuga manna á fornfræði í Danmörku; hann hafði hið mesta álit á Arngrími, hafði fræðzt mikið á ritum hans og skrifaðist lengi á við hann, og leitaði upplýsinga hjá honum um ýmislegt, er snerti sögu, fornfræði og rúnir. Í bréfi til síra Jóns Árnasonar í Vatnsfirði talar Worm um lát Arngríms og um þá aðstoð, sem hann hafi veitt sér; segir Worm, að löngunin til þess að fást við fornfræði, hafi dofnað mikið hjá sér, síðan Arngríms missti við, en hann segist treysta Íslendingum til að halda áfram í þessa stefnu, einkum Brynjólfi biskupi Sveinssyni.[2]

---

[1]) *Magnús Ketilsson:* Forordninger og aabne Breve II., bls. 206-207.

[2]) *Olai Wormii* et ad eum doctorum virorum epistolæ. Hafniæ 1751, bls. 1102.

Bækur Arngríms bárust víða um Európu, og varð hann því víðfrægari en flestir Íslendingar aðrir, og alstaðar er hann lofaður fyrir lærdóm sinn, þar sem hans er getið í ritum. Arngrímur skrifaðist einnig á við marga fræðimenn í útlöndum og sumir sendu honum bækur. Í riti Arngríms »Apotribe Calumniæ« eru prentuð bréf frá þessum útlendu merkismönnum, frá Páli Matthíassyni, Niculás Krag, Jonas Jacob Wenusinus, og Niculás Theophilus í Kaupmannahöfn, frá Johannes Frederus og David Chythræus, sem voru háskólakennarar í Rostock, og frá Philippus Nicolai í Hamborg; auk þess hefir hann eflaust skrifazt á við marga aðra. Sumir þessir menn voru kunningjar hans frá námsárunum; sumum hafði hann kynnzt á ferðum sínum; auk þess þekktu hann fjölda margir af ritum hans, og bera allir mikla virðingu fyrir lærdómi hans og gáfum. Sögurit Arngríms og áhrif hans á söguvísindi og bókmenntir Íslands og Norðurlanda koma ekki beinlínis við þessu riti, og því sleppi eg að tala um það, enda væri vonandi, að einhver sögumaðurinn eða fornfræðingurinn tæki rögg á sig og ritaði um það.

Náttúruvísindi og stærðfræði hefir Arngrímur alls ekki fengizt við; hugur hans er allur við sögu og fornfræði, enda sagði Gísli biskup Oddsson 1635 um Arngrím, að hann í ritum sínum um Ísland hefði hoppað þurrum fæti yfir öll náttúruvísindi.[1] Náttúruvísindin voru þá rétt nýlega farin að lifna við, og hjá mörgum lærðum mönnum, sem ekki beinlínis voru náttúrufræðingar, voru hugmyndirnar um náttúruna enn þá mjög blandnar hjátrú og kerlingabókum; menn gripu það sem var næst hendinni, og tóku sögusagnir alþýðunnar gildar, án þess að rannsaka eða leita að ástæðum: Oli Worm og Arngrímur skrifast stundum á um ýmislegt, er lýtur að náttúrufræði, og Arngrímur sendir Worm stundum náttúrugripi, því Worm átti mikið gripasafn. Til dæmis um hugsunarleysi manna í þeim greinum, set eg hér þrjár spurning-

[1]) Epistolæ O. Wormii, bls. 595.

ar, er Arngrímur sendir Ola Worm 11. ágúst 1638. 1. Hvernig stendur á því, að sjáaldur kinda sýnist vera kringlótt um flóð, en aflangt um fjöru? 2. Hvernig víkur því við, að ef ker er barmafyllt með hvallýsi, hákarlslýsi eða sellýsi, þegar hásjáað er, þá lækkar í kerinu, þegar aptur fjarar út? 3. Hvernig stendur á því, að hrútar, sem á vetrum helzt vilja liggja á vinstri hlið, leggjast heldur á hina hægri á vorin, þegar sól gengur inn í hrútsmerki?[1] Oli Worm svarar fyrstu og annari spurningunni svo, að slíkt muni standa í sambandi við áhrif tunglsins, því það hafi áhrif á alla vökva, svo ostrur, krabbar og kræklingar eru fullir af vökva með vaxandi tungli, en þurrir og uppþornaðir með minnkandi. Um þriðju spurninguna segir hann, að líklega sé eitthvert samband milli hrútsins á jörðu og hrútsins á himni!.[2] Svona var nú röksemdaleiðslan í þá daga; engum datt í hug að rannsaka grundvöllinn, hvort hann var á rökum byggður, og leiddu svo, eins og eðlilegt var, skakkar ályktanir úr rammskökkum undirstöðugreinum. Slík trú á áhrif tunglsins á vökva líkamanna var algeng bábylja á miðöldunum, og er ekki enn horfin sumstaðar.

Í landafræði er í sjálfu sér lítið að græða á bókum Arngríms lærða; þar eru svo að segja engar nýjar upplýsingar; hann hrekur orð fyrir orð með góðum rökum og mikilli málsnilld skrípasögur útlendra höfunda um Ísland, og gefur þannig útlendingum réttari hugmynd um það, sem áður hafði verið skrifað um, en hann bætir fáu nýju við, og ritar enga vísindalega landlýsingu; í sögulegum fræðum ryður hann nýjar brautir, en í landfræðinni rígbindur hann sig við hið gamla. Eiginleg Íslandslýsing er ekki til eptir Arngrím; hefði hann gefið út þess konar rit, mundi eflaust að miklu leyti hafa tekið fyrir

[1]) Epistolæ O. Wormii bls. 331-32. Til er enn sú alþýðutrú á Íslandi, að flóð og fjara sjáist í kindarauganu, og menn halda almennt, að tungl og straumar hafi áhrif á sjúkdóma, vessa líkamans o. fl.

[2]) Epistolæ O. Wormii, bls. 333.

skröksögurnar um Ísland, því þá hefðu menn haft einhverja samanhangandi, rétta lýsingu að grípa til. Vinir Arngríms í útlöndum biðja Arngrím að rita Íslandslýsingu, en hann sinnir því ekki. Í bréfi frá Johannes Frederus, háskólakennara í Rostock, 1594 stendur t. d. þessi kafli: »Eg hefi með ánægju lesið Íslands-vörn þína (Commentarius de Islandia), og ættjarðarást sú, er lýsir sér í þinni lærðu og lipru vörn, er lofsverð, en mér hefði þótt vænna um, hefðir þú fremur fengizt við samanhangandi landlýsingu Íslands og minnzt meira á stjórnar- og kirkjusögu, en eigi eingöngu fengizt við að þerra í burtu annara óhreinindi, sem óþægileg hafa verið fyrir föðurland þitt«.[1] Philipp Nicolai segist mjög sakna íslenzkrar landlýsingar, og biður Arngrím að útvega sér uppdrátt af Hólabiskupsdæmi og mynd af Hólum, og vill hann láta prenta það í »Crymogæa«.[2] Samt sem áður byrjar með Arngrími nýtt tímabil í landfræðissögu Íslands; bókmenntirnar vakna úr löngum dvala og Íslendingar fara sjálfir að hugsa um sögu landsins og landfræði þess; af bókum hans fá útlendingar betri hugmyndir um landið en áður, og nú þurfa útlendir fræðimenn, er vandvirkir vilja vera, ekki eingöngu að styðja sig við skröksögur sjómanna og kaupmanna; þeir geta sótt fróðleik sinn í bækur eptir Íslendinga sjálfa. Þó var tíðarandinn svo, að það átti langt í land, að menn alveg losuðu sig við skrípasögurnar; þær ganga aptur hvað eptir annað; hvernig sem fróðir og sannorðir fræðimenn brytja niður illþýðið, þá rís það jafnóðum upp aptur, og illa menntaðir ferðamenn tyggja upp eldgamlar vitleysur jafnvel fram á 19. öld.

Arngrímur lærði ritaði margar bækur og útlagði ýmsar guðsorðabækur á íslenzku.[3] Hér skulum vér að eins

---

1) Apotribe Calumniæ, bls. 82.

2) Apotribe Calumniæ, bls. 101, 105-6.

3) Rit Arngríms eru talin í kirkjusögu Finns biskups III., bls. 447-48 og í bók Jóns Þorkelssonar, Digtningen på Island i det 15. og 16. Århundrede, bls. 472-74. Hin latnesku rit hans eru prentuð

fara nokkrum orðum um þau rit, er snerta landfræði Íslands. Í því efni er hið fyrsta rit Arngríms »Brevis commentarius de Islandia« langþýðingarmest. Í þessu riti hrekur hann skakkar frásagnir margra landfræðinga um Ísland, og leiðréttir flestar missagnir um Ísland, sem þá voru í útlendum bókum, en einkum snýr hann sér að ljóðunum eptir Gories Peerse, úthúðar honum og dæmir rit hans úalandi og úferjandi, og er opt æði harðorður. Bókin er tileinkuð Kristiáni IV.; þar næst kemur formáli eptir Guðbrand Þorláksson. Guðbrandur biskup getur þess, hver tilgangur bókarinnar sé, að leiðrétta ýmislegt skakkt, er útlendir höfundar segi um Ísland; segir hann þeir fari eptir skröksögum sjómanna og öðru þvílíku, en harðorðastur er hann um Gories Peerse, og kallar rit hans óþrifalegt og ógurlega vanskapað fóstur, og segir hann ljúgi hinum verstu löstum upp á Íslendinga, og telur hann slíkt Þjóðverjum ómaklegt, er svo lengi hafi haft ábata af verzluninni við Íslendinga. Segir Guðbrandur, að sér hafi lengi gramizt skröksögurnar um Ísland, en nú hafi Arngrímur Jónsson eptir áeggjan sinni skrifað þennan bækling til þess að verja föðurlandið fyrir eitruðu biti nokkurra þorpara. Ritinu sjálfu skiptir Arngrímur í tvo aðalkafla; er fyrri kaflinn helzt um landið, hinn seinni um þjóðina. Alstaðar prentar hann í hverjum kapítula kafla úr ritum erlendra höfunda með breyttu letri og hrekur þá jafnóðum. Höfundar þeir, sem hann helzt snýr sér á móti, eru Gories Peerse, Münster, Frisius, Kranz og Saxó, og höfum vér hér fyrir framan minnzt á frásögur þeirra um landið. Í fyrsta hluta ritsins leiðréttir hann ýmislegt, er menn hafa sagt skakkt um hnattstöðu landsins, um nafn þess og um hafísinn, og andmælir þeirri skoðun manna, að Ísland sé Thule; hann hrekur bábyljur manna og skröksögur um fitu fénaðarins, og sýnir, hve vitlausar og hlægilegar sögurnar séu um draugaganginn og um kvala-

1 Kaupmannahöfn, Hamburg og Leiden; í þeim eru margar prentvillur, af því útlendingar urðu að annast prófarkalestur.

staði í hafísnum og Heklu; hann nefnir enn fremur margs konar kynjasögur aðrar um uppsprettur, hvali, skrímsli, o. fl. Í seinni hluta ritsins hrekur hann skröksögur manna um íbúana og háttsemi þeirra, og er einkum reiður við Gories Peerse, sem von var.[1] Arngrímur talar þar fyrst um trúna, og segir sögu kristninnar á Íslandi; telur svo upp biskupana og getur um helztu æfiatriði þeirra; síðan talar hann um kirkjur á Íslandi og húsaskipun, og hrekur frásagnir þeirra Kranz, Münsters og annara, er segja, að Íslendingar búi í hellum neðanjarðar og byggi sér hús úr hvalbeinum; getur enn fremur um fæðu manna og búning, um verzlunina og ýmislegt fleira, og hrekur alstaðar hina fyrri höfunda.[2] Hvergi er í ritinu samanhangandi lýsing á landi og þjóð; þar eru að eins sundurlausar greinir um sitt hvað, enda er það eðlilegt, því ritið er deilurit, en eigi landlýsing; þó gátu menn í þá daga lært margt af riti þessu, og það hefði að minnsta kosti átt að verða til þess að halda niðri fornum skröksögum og bábyljum.

Næsta rit Arngríms var »Crymogæa«; það er nokkurs konar ágrip af sögu Íslands; sú bók kom í fyrsta sinn út 1609 í Hamborg og var opt gefin út aptur, enda er hún mjög merkileg.[3] Þar fengu útlendingar í fyrsta sinn

[1]) Þar sem hann talar um þá menn, er svívirt hafi Íslendinga, kemst Arngrímur svo að orði: »Ex quorum numero scurra ille fuit, qui rhythmis aliquot, in gentis nostræ contumeliam, Germanica lingva editis, nomen suum immortali dedecori consecravit«. Brevis Comm. de Isl. fol. 48 b.

[2]) Brevis Commentarius de Islandia. Hafniæ 1593. 8vo; bókin er líka prentuð með enskri þýðingu hjá Hakluyt l. c. I., bls. 515-590. Margir hafa notað úr henni kafla, t. d. La Peyrere, H. Megiserus o. fl.

[3]) Crymogæa sive rerum Islandicarum libri III. Hamburgi 1609. 4to; aðrar útgáfur voru prentaðar 1610, 1614, 1618, 1620, 1625, 1641 og 1650. Síra Jóhann Jónsson í Otrardal lagði Crymogæu út á íslenzku og er sú þýðing til í handritasafni landsbókasafnsins nr. 157. 4to. Philipp Nicolai sá um prentunina í Hamborg og stóð lengi á henni ýmsra hluta vegna. Ekki fékk Arngrímur ritlaun, en prentarinn tók hana til prentunar með með því skilyrði, að Arn-

vitneskju um sögu Íslands, um hina merku fornöld Íslendinga og um fornritin. Í byrjun bókarinnar er ýmislegt smávegis, er snertir lýsing landsins; þá talar hann um tungu Íslendinga, um siði og hætti fornmanna, um stjórnarfyrirkomulagið, um goðafræðina og um kristni og biskupa. Í öðrum kafla eru útdrættir úr Íslendingasögum og þáttum um fornmenn; og í þriðja kafla segir frá því, hvernig landið komst undir Noreg; nefnir hann þar konunga þá, er ráðið hafa fyrir Íslandi, og telur eptir annálum ýmsa viðburði, er gerzt hafa, á stjórnarárum þeirra.

Eins og fyrr hefir verið getið gaf Arngrímur út »Anatome Blefkeniana«,[1] til þess að hrekja níðrit Blefkens. Í þessu riti tætir Arngrímur frásögn Blefkens alla í sundur og fer um hann mörgum háðslegum smánarorðum. Í fyrri kafla bókarinnar kryfur Arngrímur Blefken eins og hræ, tekur fyrir ýmsa parta líkamans, höfuð, heila, brjóst og maga, og lýsir því, hverskonar óknyttir og ólyfjan búi í öllum líkama hans; hefir þetta eflaust í þá daga þótt fyndið, en er í sjálfu sér ekki mjög sannfærandi. Þó þessi kafli að efninu til sé ekki merkilegur, þá sýnir hann þó liðleik og lærdóm Arngríms í ritdeilum; þó mundi slíkur ritháttur á vorum dögum þykja bæði sérvitur og smekklaus. Í seinni partinum fer Arngrímur gegn um allt rit Blefkens, hrekur vitleysurnar í hverjum kafla fyrir sig, og sýnir að bókin er ekki annað en upptuggur af kynjasögum eldri höfunda, sem Blefken hefir fært í stílinn og svo logið inn í. Guðbrandur ritaði formála fyrir bókinni og höfum vér getið um, hvernig hann sannar, að Blefken ekki gat hafa komið til Íslands á þeim tíma, er hann segir. Íslendingar hafa, sem eðlilegt var, mjög reiðzt þvættingi Blefkens og eru aptan við rit Arngríms prentuð 10 níðkvæði um Blefken á latínu og tvö á íslenzku. Eins og fyrr hefir verið getið, skrifaði Arn-

grímur keypti sjálfur 100-200 eintök. Apotribe Calumniæ, bls. 100-101.

[1]) Anatome Blefkeniana. Hólum 1612. 8vo. Hamburgi 1613. 4to.

grímur líka rit á móti Fabricius.[1] Framan við þetta rit er einnig formáli eptir Guðbrand biskup og hefi eg áður drepið á hann. Rit þetta er stílað sem bréf til höfundarins, og sýnir Arngrímur þar, að Fabricius hefir að mestu leyti þýtt bók Blefkens, og til þess því glöggar að sýna samræmið, prentar hann jafnhliða kafla úr Blefken á latínu og kafla úr riti Fabriciusar á þýzku. Framan við þetta rit eru latínsk kvæði eptir Magnús Ólafsson í Laufási og Georg Dedeken í Hamborg. Hið seinasta rit Arngríms var »Specimen Islandiæ historicum«. Þessi bók[2] er eiginlega mest rituð til þess að sanna og sýna, að Ísland hafi verið óbyggt, er Norðmenn fundu það, og geti því ekki verið Thule eins og Pontanus heldur; höfum vér áður (í 1. kapítula) getið þessarar ritdeilu. Í fyrri hluta bókarinnar segir Arngrímur nákvæmlega frá landnámssögu landsins og telur upp landnámsmenn í hverjum fjórðungi, en í seinni hlutanum snýr hann sér sérstaklega að Thule og fer nákvæmlega gegn um alla hina fornu grísku og latínsku höfunda, er nefnt hafa Thule; hrekur Arngrímur Pontanus með hinum mesta lærdómi og hinum hvössustu rökum.

[1]) Epistola pro patria defensoria, scripta ad Davidem Fabritium. Hamburgi 1618. 4to.

[2]) Specimen Islandiæ historicum et magna ex parte chorographicum. Amstelodami 1643. 4to.

# Viðaukar.

Hér að framan hefi eg getið flestra hinna merkari rita, er snerta landfræðissögu Íslands frá því á landnámstíð fram að 1600. Síðan þetta bindi var prentað 1892 hefir nokkuð bætzt við og fundizt og mun eg hér með fáum orðum geta um hið helzta. Um Heklu er mjög víða getið í fornum bókum, eins og sést hér að framan; leyfi eg mér að bæta hér við nokkrum köflum um Heklu-undrin úr ritum, er síðan hafa komið fram á sjónarsviðið, nokkrum greinum, er snerta almenna lýsingu landsins og fáeinum athugasemdum um landabréf.

Prófessor Konrad Maurer[1] hefir fyrstur bent á annál *Alberich's* munks og frásögn hans um píslarstaði í íslenzkum eldfjöllum, þar er og mjög merkileg lýsing á íslenzkum eldgosum, ein hin elzta, sem til er. Alberich munkur frá Troisfontaines var uppi um miðja 13. öld; hann getur um bardagann við Fodvig (1134) og mannfallið, sem þar varð[2], síðan bætir hann við: »Þá sáu smalar á Íslandi (Hysselandia) á hinum sama degi sálir þeirra fljúgandi í líkingu svartra hrafna og annara fugla af ýmsu tagi og æptu þeir: vei! vei! oss; hvað höfum vér gjört? vei! vei! oss; hvað hefir hent oss? Aðrir ógurlega stórir fuglar eins og gammar ráku þá á undan sér og hrintu þeim að smölunum ásjáandi í hið íslenzka víti; einn af þeim, er horfðu á þetta, varð síðar munkur af reglu Cisterciensa og sagði bræðrunum opt frá því, sem hann hafði

1) *K. Maurer:* Die Hölle auf Island (Zeitschrift des Vereins für Volkskunde 1894, bls. 257—258).

2) Eigi er að furða, þó þessi atburður hafi haft töluverð áhrif á klerka, sem í þá daga voru mjög auðtrúa, því mælt er, að í bardaganum við Fodvig hafi fallið 6 biskupar og 60 klerkar af lægri vígslum.

séð; en á klerkastefnu hjá Cistercium vitnuðu ábótar frá Danmörku, að allt þetta væri satt«. Því næst lýsir Alberich Heklu og segist fara eptir bók Herberts nokkurs frá Clairvaux[1]. Set eg hér aðalefni þessarar frásagnar, hún er alltof staglsöm til þess að útleggja hana alveg orðrétt. Herbert getur um »hið íslenzka víti í fjalli því, sem kallað er Eclafeld, og segir, að meðal Norðurlanda sé stór ey, sem kölluð er Hysselandia, þar hafa menn tekið kristna trú og eru henni hollir. Á eyju þessari er fjall nokkurt ógurlega stórt, svo það tekur yfir mikinn hluta landsins; þeir, sem þar búa, ætla að undir fjallinu og í því sé hið mesta helvíti. Fjall þetta er allt holótt eða þó fremur holt að innan og er allt brennandi og logandi og gýs sífeldum eldi, sem eyðir fjallið og læsir sig um það utan og innan allt niður að rótum og jafnvel út fyrir þær. Viss merki sjást til þess, að hinn hræðilegi eldur lifir og ólmast eigi að eins undir fjallsrótunum heldur og undir mararbotni. Hinn nafnfræga eldfjallsketil á Sikiley kalla menn vindauga vítis; eins og opt hefir verið fullsannað dragast þangað daglega sálir fordæmdra, dauðra manna til brennslu, þessi ketill er þó, eptir því sem sagt er, eins og lítil eldstó í samanburði við hið ógurlega hyldýpi á Íslandi. Innan í þessari hræðilegu íslenzku fjallsgjá er eldsbruninn svo mikill, að eldbylgjurnar og eldstöplarnir, sem allstaðar rísa, ná alveg upp í skýin, og er þeim slotar, rísa nýir og nýir eldstólpar, fjallið er svo æðisgengið, að himininn sýnist allur í einum loga. Auk þess sjást innan í eldhnöttunum björg stór sem fjöll, þau kastast frá innýflum fjallsins upp í loptið með miklum ákafa af ofsa eldsins, en falla svo aptur niður af þyngd sinni og velta niður í hin neðstu undirdjúp. Eigi finnst mér mega þegja yfir því, að þessi vítiseldur stundum, þó það sé sjaldan, brýzt út fyrir takmörk sín. Á vorum tímum gaus eldurinn eitt sinn upp með slíkum ákafa, að hann eyddi mestallt landið í kring, hann brenndi eigi að

1) **Herberti Liber Miraculorum Clarevallensis.**

eins bæi og byggingar, heldur einnig jurtir og tré að rótum og jafnvel sjálfan jarðveginn. Það er undravert til frásagna, að nokkur grjótfjöll og einnig málmfjöll bráðnuðu af eldinum að innan eins og vax og runnu niður svo að dalirnir fylltust allstaðar af leðjunni og fjalllendi urðu að sléttum. En hinir bráðnu klettar, er runnu út um allan jarðveginn, hörðnuðu, er eldinum slotaði, og þá varð yfirborð jarðarinnar eins og marmaralagt eða steinlagt stræti; héruð, sem áður voru byggileg og frjósöm, urðu að eyðimörku. Þegar þessi æðandi eldur með óseðjandi græðgi hafði eyðilagt landið og allt, sem á því var, bættist við enn þá hræðilegra undur, að eldurinn rann út í nálægt haf og er hann komst út í hafsdjúpið, tók eldurinn að brenna og eyða vatninu með ótrúlegum ákafa allt niður í undirdjúpin. Auk þess bar eldurinn með sér stór fjöll og hálsa, er hinn gráðugi logi hafði snúið við, svo land varð þar sem sær hafði verið; fjöllin bárust út í hafsauga og er þau höfðu á löngu svæði fyllt sjóinn algjörlega og gert hafsdjúpið jafnhátt ströndinni, þá breyttist særinn í þurrt land, svo að þar sem áður hafði verið vatn, varð nú fastaland um 12 mílur. Enn fremur eyddist í þessum bruna ágæt borg nokkur og mannmörg, þar var ágæt höfn, sem eyddist, er sjórinn hækkaði. Hingað nær frásögn herra Herberts«[1].

Það er auðséð af þessari lýsingu, þó hún sé mærðarleg og barnaleg, að höfundurinn hefir fengið allnákvæmar fregnir um eldgos á Íslandi; lýsingin er grautarlegt sambland af lausafregnum um Heklu og Kötlugos; þar sem talað er um hraunin og eldganginn er líklega átt við Heklu, en þar sem höfundurinn segir frá fjöllum og hálsum, er snúizt hafi við og flotið út í sjó, þá er líklega átt við jökulhlaup úr Kötlu. Þegar Katla gýs, brotnar jökullinn, sem liggur ofan á eldgjánni, og ógurlega stórir

1) Chronica Albrici Monaci Trium Fontium. (Monumenta Germaniæ historica. Ed. G. H. Pertz. Tom. XXIII. Hannoveræ 1874, bls. 829—830).

jakar kastast með vatnsgusum og eldgangi út á sandana og út í sjó; eins og alkunnugt er hafa jökulhlaupin borið svo mikinn aur og grjót í sjó fram, að ströndin hefir færst mjög langt út; þegar Katla gaus 1660 báru jökulhlaupin svo mikinn sand í sjó fram, að þar sem fyrr var fiskað á 20 faðma djúpi, varð eptir þurr fjörusandur og ströndin óx þúsund faðma út á við. Við Kötluhlaup til forna eyddust margir bæir og frjósöm héruð urðu að eyðimörku; nokkru eptir landnámstíð rann stórkostlegt hraun úr Eldgjá á Skaptártungu-afrétti niður í Álptaver[1], um það eru óglöggar sagnir í Landnámu; það er ekki óhugsanlegt, að fregnir um öll þau ósköp, sem í fornöld gengu á af eldgangi úr Kötlu og nágrenni hennar, hafi borizt til útlanda, geymzt og afbjagazt hjá munkum suður á Frakklandi.

*Fransiscus Irenicus* frá Esslingen (1518) getur um Heklu (Hechelberg) á líkan hátt sem aðrir eldri höfundar, hann segir að þar sé víti og hreinsunareldur og þar séu gammar og kolsvartir hrafnar á flugi; fjallið allt kveður við af grátlegu veini, sem heyrist í mílu fjarska; ennfremur segir hann, að þar séu tvær uppsprettur, önnur nístandi köld, hin ógurlega heit og er ekki nema 8 feta millibil á milli þeirra. Íbúarnir í nánd láta þessi ósköp sér að kenningu verða og eru því guðhræddari en aðrir menn.[2]

*Georgius Agricola* (1490—1555) var nafnfrægur steinafræðingur á sínum tíma, hann getur um Heklu og heitar uppsprettur, er breyta hlutum í stein, svo að hin ytri mynd helzt, þesskonar uppsprettur segir hann að séu skammt frá Heklu. Þar sem Agricola talar um Heklu, tvítekur hann þá sögusögn, að eldurinn eyði vatni, en brenni ekki hamp; hann getur um þrjú eldfjöll á Íslandi eins og Sebastian Münster: Heklu, Krossfjall og Helga(fell). Ná-

1) Andvari XIX. bls. 89—92. Geografisk Tidsskrift XII. bls. 217—220.

2) Exegesis Historiæ Germaniæ. Nürnberg 1518. Ymer 1889 bls. 142.

lægt Heklu eru brennisteinsnámur og er brennisteinninn hér um bil hin eina verzlunarvara íbúanna og með honum borgar landið skatt sinn; Íslendingar selja kaupmönnum brennistein fyrir lítið verð og flytja þeir hann í heilum skipsförmum til útlanda. Þegar Hekla ólmast mest, drynur hún eins og hræðilegar þrumur, þeytir úr sér stórum björgum, gýs brennisteini og ösku svo mikilli, að hún þekur landið í kring svo eigi er hægt að búa í 20 mílna fjarlægð. Gjárnar gleypa þá lifandi, er vilja grennslast eptir eðli brunans og því nálgast fjallið; gjárnar eru margar og svo huldar ösku, að enginn getur varazt þær nógu vel.[1]

*Pétur Palladius*, hinn alkunni Sjálandsbiskup, getur um trúna á helvíti í Heklu á miðri 16. öld og í sálmum frá 17. öld er einnig getið um píslarstaðinn í Heklu,[2] þesskonar hugmyndir hafa jafnvel komizt inn í danska alþýðutrú og hafa til skamms tíma jafnvel haldizt víðar í útlöndum.[3]

Í landfræðissögunni hér að framan (bls. 59) hefi eg að tilvísun K. Maurer's nefnt handrit af Solinus frá 13. öld, þar er Íslands getið á þessa leið: »Yslande. Hafísinn á þessari eyju rekst saman og kviknar þá í honum af sjálfu sér, og þegar kviknað er í honum, brennur hann eins og tré. Hér eru vel kristnir menn, en á vetrum þora þeir ekki að fara út úr neðanjarðarholum sínum sakir hins mikla kulda. En fari þeir samt út, nístast þeir svo af kulda, að þeir upplitast af frostbólgu, svo að þeir verða eins og holdsveikir menn. Ef þeir snýta sér, þá dettur af þeim nefið og kasta þeir því frá sér með sjálfum hornum«.[4]

---

1) *Georgii Agricolæ* de ortu et causis subterraneorum lib V. o. s. frv. Basileæ 1546. Fol., bls. 35, 116, 119, 157—58, 163, 226.

2) *Finnur Jónsson:* Historia ecclesiastica Islandiæ II. bls. 694. Klausturpósturinn IV. 1821. bls. 42—46.

3) *K. Maurer* í Zeitschr. d. Vereins f. Volkskunde 1894 bls. 264—265.

4) **Archiv der Gesellschaft für ältere deutsche Geschichtskunde.**

Nordenskiöld getur um bók þá, er heitir »Rudimentum Noviciorum«, hún er gefin út í Lübeck 1475, þar er Íslands getið sem hér segir: »Um Yselandia. Iselandia er yzta land í Norðurálfu og liggur fyrir norðan Norvegia. Á hinum fjarlægari takmörkum er landið þakið sífelldum jökli, enda nær það til norðurs yfir strönd úthafsins; þar er hafið frosið sakir ofmikils kulda. Austan að landinu liggur hið efra Skytland, að sunnan Norvegia, að vestan Írlandshaf, að norðan hið frosna haf. Landið er kallað Yselandia, sem þýðir ís-land; þar er sagt að séu snjófjöll samfrosin í harðan jökul. Þar finnast krystallar. Í því landi eru líka hvítabirnir mjög stórir og grimmir, þeir brjóta ísinn með klónum og gjöra margar vakir og stinga sér niður í sjóinn gegnum þær. Undir ísnum veiða þeir fiska, draga þá upp um götin, sem nefnd hafa verið, draga þá til strandar og eta þá. Landið er ófrjósamt að því er snertir jarðarávexti, nema á fáum stöðum, þar geta hafrar þó varla vaxið í dölunum. Gras og tré vaxa að eins þar sem menn búa og í þeim héruðum framleiðir landið villidýr og fæðir stórgripi. Landslýðurinn lifir því mestmegnis á fiski, dýraveiðum og kjöti, sauðfé getur ekki lifað þar sakir kulda og þessvegna verjast íbúarnir kuldanum og hylja líkama sinn með feldum villidýra og bjarna, sem þeir veiða; annan klæðnað geta þeir ekki haft, nema hann sé aðfluttur. Þjóð þessi er mjög feitlagin, sterk og ákaflega hvít; hún er gefin fyrir fiskveiðar og dýraveiðar.«[1] Á

Herausgeg. von G. H. Pertz. Hannover 1838. VI. bls. 888—89. Næst á undan þessari klausu (bls. 884—87), er í sama tímariti prentuð skrá um hvali í Íslandshöfum eptir einhvern Hartenius, nöfnin eru bjöguð, en auðsjáanlega tekin úr Konungsskuggsjá eins og K. Maurer hefir bent á (Die älteste Cetologie. Zeitschr. f. deutsche Philologie IV. 1873. bls. 81—82). Hvalatal þetta er mjög gamalt og er á handriti af sögu Brimabiskupa, er nær til 1395.

1) Rudimentum Noviciorum, seu epithoma in sex partes juxta mundi ætates divisum. Lübeck 1475. Fol.; blað 91 b—92 a og bl. 87 b. Sbr. Ólafur Davíðsson: Tímarit XIV. bls. 174. Í bókinni er og kringlukort grænlitað og er þar Ísland neðst á vinstri

öðrum stað í bókinni, þar sem talað er um Norwegia, stendur þessi grein: »Þar eru uppsprettur, sem breyta algjörlega í stein öllu, sem í þær er látið, skinni eða tré«.

Í bréfi frá Raimondo di Sancio til hertogans af Milano 18. desember 1497 er þess getið, að þeir *John Cabot* hafi mjög undrazt fiskmergðina við Labrador og New-Foundland og segja þeir, að þaðan geti Englendingar framvegis fengið svo mikinn fisk, að þeir þurfi ekki framar að fara til Íslands, en þaðan sé nú mjög mikil verzlun með harðfisk.[1] Í ferðasögusafni Sam. Purchas[2] er prentað bréf frá einum af förunautum *Hudsons*, ritað norðaustan á Íslandi í maí 1610. Bréfið hljóðar þannig: »Hvítasunnudag vorum við á norðausturenda Íslands, við lifðum þar í svo miklu bílífi, að eg held eg hafi aldrei átt betra á Englandi. Íbúar þessa lands eru mjög fátækir og lifa aumu lífi, samt fundum vér þar mikla gnægð fiska og lostæta fugla. Seinni hluta dags drap eg þar eitt sinn svo marga fugla, að öll skipshöfnin, 23 menn, höfðu til hátíðabrigðis nóg í eina máltíð af eintómum rjúpum, svo eg ekki telji spóa, lóur, stokkandir, urtandir og gæsir. Eg hefi séð tvær laugar á Íslandi og fór eg í aðra. Vér höfum ákveðið að reyna allt sem frekast er unnt, og liggjum hér að eins til að bíða byrjar og hressa oss áður en vér leggjum í ísinn; ísinn er nú að koma frá vesturströndinni og vér höfum séð af honum heilar eyjar, en guði sé lof, vér höfum ekki verið í neinni hættu. Að lokum bið eg ykkur alla að biðja fyrir oss. Íslandi 30. maí 1610«.

Í 7. kapítula hefi eg talað um Ísland á útlendum landabréfum fram á miðja 16. öld, var það ætlun mín að rita að eins stutt og almennt yfirlit yfir kortagjörð

---

hönd, yzt við kringluröndina milli Nrowe og Galicia, en Dacia er litlu innar.

1) *Henry Harrisse*: The Discovery of North America. London 1892. 4. bls. 9.

2) *Sam. Purchas* his pilgrimes in five bookes. III. Part London 1625. Fol., bls. 609.

miðaldanna og geta hinna allra helztu landabréfa, er eg þá hafði kost á að skoða. Þegar ekki er hægt að láta eptirmyndir kortanna fylgja bókinni, er þýðingarlaust að telja öll landabréf og lýsa þeim, lesandinn er litlu nær, en frásögnin verður leiðinleg og grautarleg, lá því næst að geta að eins korta nokkurra úr hverjum aðalflokki, en sleppa hinum ómerkilegri. Veturinn 1891—1892 hafði eg þó ekki næg tæki til þess að rita eins vel um landabréfin eins og eg vildi, sakir bókaleysis í Reykjavík. Síðan hefir Ólafur Davíðsson í tímariti bókmenntafélagsins 1893 talið allmörg kort, er Nordenskiöld nefnir, og bætt við nokkrum kortum úr öðrum söfnum, eru sum þeirra allmerkileg, en sum ómerkileg; þó telur hann ekki nærri öll forn kort, er snerta Ísland, sem ekki var heldur von. Til viðbætis mun eg hér í stuttu máli nefna nokkra uppdrætti, er geta Íslands, þá, er mér þykir mestu varða, hina geta þeir, er fást við kortasögu, séð í bókasöfnum; eptir lögun þessarar bókar á bezt við að gjört sé að eins yfirlit og getið hins helzta. Að telja öll nöfn á kortunum yrði allt of langt mál, enda eru mörg nöfnin alveg óskiljanleg; það gæti þó ef til vill verið nógu gaman fyrir fróða menn, að reyna á þeim getspeki sína, en það á ekki við í þessu riti.

Nöfnin Ísland og Thule sjást á mörgum kringlukortum frá 11. 12. 13. og 14. öld, en flestir eru uppdrættir þessir þýðingarlitlir fyrir landfræðissöguna, þeir eru allir með kringlulagi eða sporöskjulagi, þar eru eyjar í útsænum fram með meginlandsröndinni og eru flestar auðsjáanlega settar af handahófi með lítilli þekkingu. Ein af hinum merkustu heimskringlum frá miðöldunum er *Ebstorfer*-kortið frá seinni hluta 13. aldar; þar er Yslandia sporöskjulöguð ey alveg fjarðalaus í útsænum.[1]

Á kringlukorti *Richards Haldingham* (1300) eru fyrir norðan Orcades þrjár eyjar í útsænum við kringlu-

1) Die Ebstorfer Weltkarte im Auftrage des historischen Vereins für Niedersachsen herausgegeben von Ernst Sommerbrodt. Hannover 1891.

röndina Ultima Tile, Ysland og Farese.[1] Mörg önnur kort eru til af svipaðri gerð; Íslands er t. d. getið á heimskringlu frá 11. öld í British Museum, á 3 eða 4 öðrum kringlum frá 13. öld, sem geymdar eru á sama stað, tveim kringlum frá 14. öld[2] o. s. frv. Ísland er optast eyja í útsænum og takmarkast af beinum strykum. Á heimskorti bræðranna *Pizigani* 1367 er »insula sialanda« norður frá Skotlandi, en efasamt er, hvort eyja þessi á að vera Ísland.[3] Á heimskorti eptir *Andreas Walsperger* (1448) er Svecia ey milli Danmerkur og Noregs. Yzt á vestasta tanga Noregs er nafnið Yslandia og þar bærinn pergen (Bergen) og svo Nydrosia; austar stendur þessi grein: »Hér sjást opt andar í mannslíki og skemmta þeir mönnum og eru þeir kallaðir tröll (trolh).«[4] Kort þetta snýr öfugt, suður niður.

Nordenskiöld hefir meðal annars gefið út uppdrátt af Norðurlöndum, sem geymdur er í Warschau í bókasafni *Zamoiski's* kanslara[5]; uppdráttur þessi er gjörður hér um bil 1467 og mjög merkilegur; segir Nordenskiöld, að hann sé fyrirmynd eða frummynd Donis-kortsins 1482 og margra annara uppdrátta. Ísland er á þessum uppdrætti sporöskjulagað og 11 eyjar kringum ströndina. Nöfnin eru öll óskiljanleg nema eitt, Hólar (hollonsis). Eyjan Thile er á þessu, eins og mörgum öðrum kortum, sérstök milli Noregs og Orkneyja, en »ferensis« (Færeyjar) norð-

1) Útgefið af Rev. F. T. Hauergall 1869. London.

2) *De Santarem:* Atlas composè de mappemondes et de cartes hydrographiques du XI au XVII. siècle. Paris 1852. *Jomard:* Les monuments de la géographie au recueil d'anciennes cartes. Paris. Á sporöskjulöguðu heimskorti frá 13. öld í Brit. Mus. eru Noregur og Ísland eyjar fyrir vestan Norðurálfu og stendur skrifað á Íslandi: «Ysland. hic gens veridica ideo regnat sacerdos« og er það auðsjáanlega bergmál frá Giraldus Cambrensis.

3) Jomard, tab. 44—45.

4) Eine neue Weltkarte der vatikanischen Bibliothek herausgeg. von *K. Kretschmer* (Zeitschrift der Gesellschaft für Erdkunde zu Berlin XXVI. 1891. bls. 371—406. tab. 10).

5) *A. E. Nordenskiöld:* Facsimile-Atlas. Stockholm 1889. tab. 30, bls. 55.

austur af Íslandi, milli þess og Noregs. Island er með svipaðri gerð á uppdrætti, sem geymdur er í Brüssel í handriti af Ptolemeus frá árunum 1480—1485,[1] eins í Ptolemeus útgáfunni í Róm 1507[2] og víðar

Á *Laon*-kúlunni, sem gjörð er 1493, eru Islandia og Tile tvær stórar eyjar fyrir vestan Noreg.[3] Á korti frá 15. öld, sem geymt er í »Bibliotheca Ambrosiana« í Milano[4], heitir Ísland Fixlanda og sýnist þessi Fixlanda vera frummynd til Frislanda á Zeno-kortinu, Zeno hefir að eins tekið ýms færeysk nöfn frá Olaus Magnus og aukið þeim inn í, en svo auk þess sett uppdrátt Olaus Magnusar af Íslandi á sitt kort. Ýmsir fleiri uppdrættir eru með svipaðri gerð; á kortum eptir *Bartolomeus Olives* (1584) og *Matteo Prunes* (1586) heitir Ísland Frixlanda.[5] Á korti einu frá byrjun 16. aldar, sem geymt er í París,[6] eru engin nöfn á landinu, en þar er þessi klausa skrifuð: »Þessi ey er full af fjöllum og nærri alltaf stirðnuð af snjó og klaka, hún heitir eiginlegu nafni Islandia, en er á latínu kölluð Thile, hún liggur mjög langt frá Bretlandi til norðvesturs. Þar er sagt, að lengstir dagar séu 22 stundir eða meir og mjög stuttar nætur, af því eyjan er svo langt frá miðjarðarlínu, og er mælt, að hún sé lengst þaðan af öllum löndum. Sakir hins kalda og óstöðuga loptslags fæst þar enginn annar matur en fiskur þurkaður við kulda. Fisk þenna greiða eyjarskeggjar Englendingum í stað peninga, sem þeir ekki eiga, fyrir

1) Les monuments de la géographie des bibliotheques de Belgique Carte de l'Europe 1480—85 (4 cartes en 8 feuilles). Texte explicatif par Ch. Ruelens. Bruxelles.

2) *Nordenskiöld*: Facsimile-Atlas, bls. 27.

3) Sama rit, bls. 73 og 74.

4) Bidrag till Nordens äldsta kartografi utgifna af svenska sällskapet för Anthropologi och Geographi. Stockholm 1892. tab. 5.

5) Sama rit, tab. 7 og 8.; sbr. *K. Kretschmer*: Die Entdeckung Amerikas. Berlin 1892. Atlas. tab. 4. Olives (1514) Prunes (1553). Á korti Aloysius Cesanis 1574 er bæði Fixlanda og Ixlanda (s. st. tab. 28) tvö sérstök lönd.

6) Sama rit, tab. 6.

korn, mjöl og aðrar nauðsynjar; eru Englendingar vanir að sigla þangað árlega til þess að flytja burtu fiska þessa. Þjóð þessi er að sögn Englendinga vilt, ómenntuð og hálfnakin og býr hún í mjög lágum húsum neðanjarðar. Um sjóinn þar er ekki hægt að sigla í 6 mánuði, af því hann er frosinn«.

Á korti eptir *Salvat de Palestrina* 1503—1504 (í safni Kunstmann's) er Ísland svipað eins og á Doniskortinu og 13 eyjar umhverfis það, þar eru og á landinu ýms bjöguð nöfn, flest óskiljanleg; á öðru korti í sama safni eru 8 eyjar kringum landið og hjá því er settur hvítur fáni með rauðum krossi (ekki dannebrogsflagg); samskonar merki er líka á korti *Pedro Reinel's* 1505[1] og á portúgölsku korti[2], sem gjört hefir verið fyrir 1520; merki þessi eiga ef til vill að þýða, að landið sé kristið. Í safni Nordenskiölds er Íslands getið á mörgum gömlum kortum frá 16. öld, landið er sett í Norðurhafið, fjær eða nær Grænlandi, og engin nöfn nema landsnafnið sjálft, svo er t. d. á kortum eptir *Schöner* (1515), *Petrus Apianus* (1520), *Orontius Finæus* (1531), *Sim. Grynæus* (1532), *Antonio Floriani* (um 1550), *Hieronymo Girava* (1556), *Petrus Martyr* (1587), *Myritius* (1590), *Cornelius de Judæis* (1593) o. s. frv. Á heimskorti í Ptolemeusútgáfu Venetia 1561 er Ísland nafnlaust en mjög langt og eins stórt eins og Bretland, heimsskautsbaugur snertir suðuroddann.[3] Á þessum kortum flestum er annars lítið eða ekkert að græða. Talsvert óvanaleg lögun er á Íslandi á kúlukorti frá árunum 1530—40, sem geymt er í þjóðbókasafninu í París *(le globe doré)*, landið er þar nokkurn veginn ferhyrnt og firðir inn í það að norðan,

---

1) *Kunstmann*: Atlas zur Entdeckungsgeschichte Amerika's. München 1859. tab. 1—4.

2) *K. Kretschmer*: Die Entdeckung Amerikas in ihrer Bedeutung für die Geschichte des Weltbildes. Berlin 1892. Atlas. tab. 12. Þetta kort er annars mjög líkt kortunum í safni Kunstmanns.

3) *Nordenskiöld:* Facsimile-Atlas, tab. 45.

en tvær eyjar fyrir vestan það, milli Grænlands og Íslands.[1]

Í eyjalýsingu eptir *Benedetto Bordone* (1534)[2] er á fyrsta blaði sérstakt kort af Islanda og ekkert annað nafn á því; eyjan er aflöng, sporöskjumynduð með grunnum fjörðum eða þó heldur bogadregnum víkum inn í allar hliðar, en kringum landið liggja 8 smáeyjar reglulega kringlóttar. Á árunum 1547—49 lét *Hinrik* konungur annar á Frakklandi mála kort á skinn; þar er Ísland milli Grænlands og Labrador, og er lögun landsins ekki mjög fjarri lagi; þar sýnist votta fyrir Breiðafirði og eyjunum þar, þar er líka Grímsey og Vestmannaeyjar, Reykjanes og Geirfuglasker[3]. Að framan (bls. 133—34) hefi eg getið korts þess, sem fylgir »Kosmografíu« *Seb. Münsters* 1598, það er sjálfsagt lagað eptir uppdráttum þeim, sem þá voru nýlega komnir út, en sjálfur hefir Münster ekki verið jafnfróður um lögun og legu Íslands eins og útgefendur bókar hans seinna urðu. Seb. Münster gaf út landafræði Ptolemeusar í Basel 1540, þar er nafnið Island austast á stóru nesi, er gengur vestur úr norðurenda Noregs fyrir norðan hafsbotna alla leið til Ameríku, og er í því nesi einnig innibundið Grænland allt og »Terra nova sive Bacalhos«. Þar sem Ísland ætti að vera er löng eyja, sem heitir Thyle[4]. Í hinni fyrstu útgáfu af landafræði Münsters 1544 er Ísland þó orðið sjálfstætt og sérstakt land vestur frá norðurhluta Noregs; landið er þar langt og mjótt frá suðvestri til norðausturs og ber nokkurn keim af korti Olaus Magnusar, vestan til er þar mynd af Heklu með logandi eldi við ræturnar (Heckl' berg) og að norðaustan er fjallahrúga sérstök, langt vatn

1) *Henry Harrisse*: The Discovery of North America. London 1892, tab. 21, bls. 562—68.

2) Isolario di Benedetto Bordone. Vinegia 1534.

3) *Jomard*: Les monuments de la géographie. tab. 23—24.

4) *Nordenskiöld*: Facsimile-Atlas, tab. 44.

er í miðju landi, á seinni útgáfum t. d. 1554 stendur ekkert fjall og ekkert nafn[1].

Vér höfum fyrr talað um *Gerhard Mercator* og getið um það, hve mikla þýðingu hann hafði fyrir framfarir allar í kortagjörð. Íslands er getið á ýmsum uppdráttum hans og skal hér nefna nokkra, sem eg hefi séð. Á hinu hjartamyndaða korti Mercators 1538 er Ísland aflöng eyja frá suðri til norðurs uppi við Grænlandsströnd, og sker heimsskautsbaugur nyrðri endann[2]. Seinni uppdrættir hans sýna allmiklar framfarir, því þá voru kort Olaus Magnus'ar og Zeno's komin fram á sjónarsviðið. Á Europukorti G. Mercators, sem gefið er út í Duisburg 1554, ber Íslands-uppdrátturinn auðsjáanlega mikinn keim af korti Olaus Magnusar; á korti þessu eru ýms nöfn og mörg þeirra nærri sanni. Vestan í landið gengur stór flói með mörgum eyjum, og heitir hann »Hanafiord sinus«; hjá nafninu »Snauel jokel« stendur: »þetta þýðir snæhöfði, því hann er allt af hvítur af snjó«. Nyrzti fjörðurinn að vestan heitir »Wolfssund«, á miðju landi eru vötn eins og hjá Olaus Magnus[3]. Heimskort Mercators 1569 er nokkuð líkt kortinu 1554, og ber einnig keim af Olaus Magnus og Zeno; landið er breiðara að vestan, en mjókkar til norðausturs; þar er kross af 5 fjallgörðum og hinn sjötti með álmu út úr gengur út undir Langanes; á kortinu eru all-mörg nöfn og flest vel skiljanleg, við Heklu (Hekelfort) stendur: »þeytir ávallt úr sér reyk, opt líka logum«. Suðvestur af Íslandi er Icaria, Frisland stórt land sunnar. Heimsskautsbaugur gengur sunnarlega

---

1) Cosmographiæ universalis lib. VI. Basel 1554. bls. 830.

2) *Nordenskiöld*: Facsimile-Atlas, bls. 91. og tab. 43.

3) Drei Karten von Gerhard Mercator herausgegeben von der Gesellschaft für Erdkunde zu Berlin. 41 Tafeln. Berlin 1891. Á þessu blaði stendur meðal annars: »Scotie Islandieque circumscriptionem et Insulas intermedias magna fide pictas accepimus a perito nauclero, qui multis itineribus hoc mare pervestigavit«.

yfir mitt landið[1]. Í kortasafni Rumolds Mercators 1595 er ný útgáfa af norðurlandakorti G. Mercators mjög endurbætt, lögun landsins er skárri og nöfnunum hefir æðimikið fjölgað, líklega hefir landsuppdráttur Guðbrands biskups haft einhver áhrif á þetta kort[2].

Á heimskorti eptir *Abraham Ortelius* 1570 er Ísland mjög ólögulegt, og gengur þrískiptur hali norðaustur úr því; heimsskautsbaugurinn gengur sunnarlega um landið mitt[3]. Í sama kortasafni er líka norðurlandakort og á því annar uppdráttur af Íslandi, ólíkur hinum og miklu fullkomnari, og kortið er all-nákvæmt að því er nöfn snertir, enda er það hrein og bein eptirmynd af korti Mercators 1569. Kort eptir *Vaz Dourado*[4], sem gjört var um sama leyti (1571), er af allt öðru sauðahúsi, og nöfnin allt önnur, svipuð nöfnunum á kortum í Kunstmanns safni, sem eg hefi áður nefnt; lögun landsins er þó ekki mjög afskræmisleg; stór fjörður með eyjum gengur vestan í landið. Í eyjalýsingum *G. F. Camatii* (1571—1574) er sérstakt kort af Íslandi[5], og sýnist það að miklu leyti tekið eptir uppdrætti Olaus Magnusar. Á kortinu eru þrjú aðal-fjöll: Helgafell, Hekla og Krossfjall, og er eldur og óskapnaður (chaos) undir þeim öllum, þar eru klettar og ker, vötn, tjöld, tré, kofar og ís rekandi í hafinu, allt

1) Drei Karten von Gerhard Mercator. Berlin 1891. Sbr. einnig Jomard tab. 76—77. A. Heyer hefir lýst kortum þessum í Zeitschrift für wissenschaftliche Geographie. Weimar 1890. Band VII. bls. 379—389, 474—487, 507—528. I Orbis terræ compendiosa descriptio eptir Rum. Mercator 1587, í Nordenskiölds Facsimile-Atlas tab. 47 og víðar eru eptirmyndir af korti G. Mercators 1569.

2) Um nöfnin á Mercatorskortunum sjá ritg. Ó. Davíðssonar í Tímariti bókmf. 1893. bls. 164—166.

3) *A. Ortelii* Theatrum orbis terrarum. Antverpiæ 1570.

4) Kunstmanns Atlas zur Eutdeckungsgeschichte Amerikas. München 1859. tab. XI.

5) *G. F. Camatio:* Isole famose, porti, fortezze, e terre maritime sotto poste alla Serma Sigria di Venetia ad altri Principi Christiani et al Sig. Turco, nouamente poste in luce Venetia 1571 —74.

er svipað því, sem er hjá Olaus Magnus. Í horni kortsins stendur þessi klausa: »Islandia, íseyja, liggur í norðurhafinu og er lengst frá suðri til norðurs, hún er svo stór, að hún er nærri 200 mílur á lengd; sumir ætla, að það sé Thile eða Thule, þar segir Plinius, að um sumarsólstöður, er sól fer gegnum Krabbamerki, sé nærri engin nótt, en um vetrarsólstöður er þar nærri enginn dagur, að því er Solinus segir. Landið framleiðir úlfa, birni, hrafna og fálka, sem sagt er að séu hvítir; mælt er, að þar séu andar, sem augljóslega bjóða mönnum þjónustu sína; auk þess eru þar eldar, er eyða vatni, og í sjónum hvalir stórir sem fjöll, hvalirnir heita á þeirra tungu trolhval, það er ekki hægt að hræða þá eða leika á þá nema með lúðurhljómi, og með því að kasta trétunnum í sjóinn; þeir sökkva skipum«. Í annari eyjalýsingu, eptir *Porcacchi* 1576, er líka kort af Íslandi, það er mjög líkt Zenokortinu, og flest hin sömu skrípanöfn á því, sjórinn kringum landið er allur frosinn, en þó vakir í ísinn hér og hvar[1]. Í sjókortasafni *L. I. Wagenaer's* 1583 liggur Ísland milli $65\frac{1}{2}^{0}$ og $69^{0}$ n. br. og er kringlótt með skorum inn í á allar hliðar, þar eru all-mörg nöfn á höfðum og fjörðum, og þó þau séu bjöguð, má skilja flest; höfundurinn hefir haft mjög óglögga hugmynd um lögun landsins, en hefir farið eptir einhverju fjarða- og nafnatali; hér koma fyrir ýms nöfn, sem ekki hafa sézt á kortunum fyrr. Þegar nánar er að gáð, eru allar líkur til, að Wagenaer hafi farið eptir fjarða- og hafnatali *Laurits Benedict's* 1568, nöfnin á kortinu eru hér um bil hin sömu og þar, nema hvað þau eru miklu færri. Hér finnst mér eiga vel við, að geta um sjómannafræði L. Benedict's, því henni hefir fyrr verið lítill eða enginn gaumur gefinn, og er hún þó merkileg, að því er Ísland snertir. L. Benedict segist hafa ritað bókina eptir fyrirsögn hinna

1) L'isole piu famose del mondo descritte da Thomaso Porcacchi da Castiglione. Venetia 1576.

2) Speculum nauticum. Spiegel der Zeevaerdt doer Lucas Ianss. Wagenaer 1583. Lugd. Batav. 1586.

vitrustu og reyndustu sjómanna og er það auðséð, að nákunnugir menn hafa sagt honum frá siglingum til Íslands; á kortum þeim, sem þá voru til, gat hann ekkert grætt, og þó segir hann stefnur og fjarlægðir allar kringum Ísland milli höfða og hafna nærri sanni, hann telur einnig fjölda af örnefnum, og þó að flest þeirra séu bjöguð, má þó hæglega þekkja þau öll. L. Benedict hefir ef til vill haft þekkingu sína frá Hollendingum eða Þjóðverjum, því að hann lýsir sigling þaðan til Íslands en ekki frá Danmörku. Heimildarmenn Benedicts hafa þekkt landslag fram með ströndum á Íslandi, það er auðséð á lýsingu hans, þar segir t. d. að fram með Síðu allt í Mýrdal sé flatt land fram með sjó, en fjöll hið efra, Reykjanes (Robenes) segir hann sé flatur, svartur höfði, Geirfuglasker segir hann sé þrjú, tvær eyjar 2 mílur frá landi en hin þriðja 4 mílur undan, uppi á Hestfjalli við Hestfjörð segir hann séu hvalbein; sú saga heyrist enn á Vesturlandi, annars er það alþýðutrú, að hvalbein liggi uppi á háum fjöllum hér og hvar á Íslandi. Benedict telur flestar hafnir og firði á Íslandi og marga höfða, hann getur og um nokkrar eyjar t. d. Viðey (Vido), Vestmannaeyjar (Vebeny) og Grímsey (Grinse), tvo dali nefnir hann líka, Víðidal (Videdal) og Vatnsdal (Vasdal) o. s. frv.[1]. Skýrsla hans er hin lang-fullkomnasta lýsing á ströndum Íslands, sem var til á 16. öld, áður en kort Guðbrands Þorlákssonar kom út 1595.

Síðan þetta bindi landfræðissögunnar kom út vorið 1892, hefir landfræðisfélagið í Stockhólmi látið prenta uppdrátt Íslands eptir G. Mercator 1595[2]; uppdráttur þessi er mjög líkur Orteliusarkortinu, er kom út sama árið[3];

1) *L. Benedict*: Sökartet offuer Øster oc Vester Söen. Kiöbenhaffn 1568, 4°, 11. og 12. blað.

2) Bidrag till Nordens äldsta kartografi. tab. 9.

3) *A. Ortelii* Theatrum orbis terrarum 1595; á Norðurlandakorti í sömu útgáfu er Ísland með gamla laginu eins og hjá Olaus Magnus; en á næsta blaði á eptir (103) er hinn nýi Íslands uppdráttur.

uppdrættirnir báðir eru eflaust eptirmyndir af korti *Guðbrands* biskups *Þorlákssonar*. Hvenær frumrit Guðbrands biskups hefir komizt til Vedels er mjög óvíst; hafi Ortelius stungið uppdráttinn 1585 eins og á honum stendur, hefir Guðbrandur biskup hlotið að gjöra frummyndina nokkrum árum fyrr, og það getur vel verið, að hann hafi þegar verið búinn að teikna kortið, er hann fór til Danmerkur til vígslu 1571; síðan hefir Vedel skinnað það upp, látið teikna það betur o. s. frv., en við það hafa mörg nöfnin ruglazt, af því Vedel hefir ekki skilið þau, en Guðbrandur hefir ef til vill ekki skrifað þau sem læsilegast, óglögg er t. d. hönd hans á nöfnunum á korti því, er hann gjörði yfir Norðurhöf 1606; síðan hefir Vedel sent Orteliusi eptirmyndina, en Ortelius hefir svo breytt því, sem honum sýndist, til smekkbætis og prýðis hefir hann síðan sett á kortið allskonar skrímslamyndir, eins og þá var tízka, og skrifað á það klausur úr fornum bókum, hjátrúarsögur og þesskonar; ef til vill hefir Vedel sjálfur verið búinn að setja eitthvað slíkt á uppdráttinn eins og t. d. um orminn í Lagarfljóti o. fl. Á Mercatorskortinu er skrípamyndunum sleppt og flestum klausunum. — Hvenær Guðbrandur Þorláksson hefir mælt hnattstöðu Hóla er óvíst, menn hafa getið þess til, að hann hafi gjört það 1585, rétt áður en Ortelius lét stinga kortið, en ekkert annað er víst, en að hann hefir gert það einhvern tíma fyrir 1593, þegar »Commentarius« Arngríms lærða kom út. Þegar betur er athugað, snertir hnattstöðumælingin ekkert uppdrættina; líklega hefir Guðbrandur biskup teiknað kort sitt löngu áður en hann mældi hnattstöðu Hóla. Á báðum kortunum er Ísland sett of norðarlega eins og títt var á hinum eldri kortum, á Mercators korti liggur landið milli $64^1/_2{}^0$ og $68^0$ 6' n. br., á Orteliusar korti milli $64^0$ og $67^3/_4{}^0$ n. br., hjá Mercator eru Hólar á $67^0$ 18' n. br., hjá Ortelius á $67^0$ n. br., en nú mældi Guðbrandur biskup hnattstöðu Hóla og fann $65^0$ 44', og eptir þeirri mælingu setur Þórður Þorláksson breiddarstig Islands á sínu korti 1668. Guðbrandur biskup hefði ekki

teiknað kort sitt á skakkt stiganet, hefði hann vitað betur og hefði hann sett hnattstöðu Íslands rétta á sitt kort eptir vissri mælingu, er mjög ólíklegt, að þeir Vedel, Mercator og Ortelius hefðu breytt því aptur.

Á korti Orteliusar úir og grúir sjórinn kringum Ísland allur af skrímslum, það eru flest afskræmislegir hvalir og eru sumar myndirnar líkar hvalamyndum Jóns lærða; í Þorlákshafnarflóa eru tvö naut að vaða í sjó út; við Langanes eru ótal hafísjakar að reka suður með, á þeim eru fjölda margir birnir, þeir eru allir mógráir á lit en ekki hvítir; þar sést og mikill rekaviður í sjónum fyrir sunnan ísinn og hvalsaukakögglar syndandi; er þetta allt tekið eptir uppdrætti Olaus Magnusar. Á kortinu sjálfu eru margar klausur og fáeinar myndir. Fyrir sunnan Eyjafjallajökul eru kýr á beit og eru kallaðar «sækýr», í klettum fyrir ofan eru hvítir fálkar og hrafnar. Þar er Hekla logandi og stendur skrifað við hana «Hekla er ofurseld sífelldum gosum og snjóum og þeytir úr sér steinum með hræðilegu öskri». Á sléttlendinu fyrir austan Þjórsá stendur: «hér eru svo fljótir hestar, að þeir hlaupa 20 mílur í einum spretti». Í fjöllunum við Lómagnúp eru myndir af tóum, sem bíta hver í skottið á annari og þar stendur skrifað: «kænleg veiðiaðferð refanna til að finna og ræna fuglahreiður». Við Lagarfljót stendur: «í þessu vatni er ormur af óvanalegri stærð, skaðlegur eyjarskeggjum, hann birtist fyrir minnisverð tíðindi». Kippkorn suður af Mývatni stendur: «ágætustu brennisteinsnámur» og er hér eflaust átt við Fremrinámur (ekki Hlíðarnámur), enda sóttu menn á 16. öld brennisteininn einmitt þangað. Suður af Hólum í Hjaltadal stendur: «menn, hundar, svín og kindur undir sama þaki». Uppi af Stafholti í Mýrasýslu nálægt Baldjökli er ölkelda, þar stendur: «ölkelda, sem einusinni flutti sig sakir ágirndar húsbónda síns».[1] Fyrir vestan Borgarfjörð stendur: «gjár,

---

1) Það hefir til skamms tíma verið alþýðutrú, að ölkeldur, hverar og laugar flyttu sig af ýmsum orsökum, t. d. ef saklauss manns blóð rann í þær o. s. frv. (sbr. Andvari XVII. bls. 45—46). Enn

sem fýla er úr». Í Ölfusi stendur: «sjóðandi uppsprettur»; hér er eflaust átt við hverana hjá Reykjum og í Hveragerði. Á Reykjanesskaga eru tvær lindir, önnur í Selvogi, er «breytir hvítri ull í svarta» og hin yzt á Reykjanestá, sem «breytir svartri ull í hvíta»; hin seinni lindin er einmitt sett þar á kortinu, sem Gunnuhver er og margir aðrir sjóðandi leirpyttir; við þesskonar leir- og brennisteinshvera gjöra hinar súru gufur margskonar litbreytingar og er því alls ekki ólíklegt, að einhverjar athuganir liggi til grundvallar fyrir þessum sögnum. Klausurnar um lindirnar á Reykjanesskaga standa líka á Mercatorskortinu óbreyttar, en annars er á þeim uppdrætti flestum skrípasögum sleppt. Milli Stafholts og Baldjökuls stendur að eins «ölkelda» (fons cerevisialis) og ekki meir; við Lagarfljót stendur á þessu korti að eins: «í þessu vatni hefir ormur óvanalega stór einu sinni sézt»; hinar fúlu gjár eru einnig nefndar. Á báðum kortunum eru fjöldamörg nöfn, en flest þeirra eru meira eða minna bjöguð. Fjöll eru sett um mest allt land fremur af handahófi, þó sést Suðurlandsundirlendið glögglega, öræfin og óbygðirnar uppi í landinu eru tiltölulega alltof litlar og af því verður landið miklu mjórra í hlutfalli við lengdina en vera ætti. Guðbrandur biskup hefir hugsað sér, að Áradalur væri í Vatnajökli nærri uppsprettum Jökulsár í Axarfirði, en á seinni tímum hafa menn hugsað sér, að Þórisdalur og Áradalur væri eitt og hið sama; Skaptá er látin koma úr Fiskivötnum og Hverfisfljót er kallað

---

ganga sagnir um það, að hverar í Geitlandi hafi flutt sig niður í Reykholtsdal (Andvari XVII. bls. 39) og gæti þessi klausa eptir legu sinni á kortinu vel átt þar við. Til grundvallar fyrir þessum sögnum liggja þau sannindi, að hverar og ölkeldur breytast opt við jarðskjálfta og eldgos af eðlilegum orsökum, sprungur í jarðskorpunni opnast og lokast og vatnið fær aðra rás. Hvað hverana snertir hjá Reykjum í Ölfusi, þá er það mjög eðlilegt, þó þeirra væri getið á 16. öld, því á þeirri öld gusu þeir einmitt ákaflega og líklega meir en Geysir og aðrir hverar hjá Haukadal gusu þá, en hverarnir hjá Reykjum breyttust mjög og sumir hurfu við jarðskjálftana, sem gengu, er Hekla gaus 1597.

Almannafljót, svo var það kallað í fornöld, en eptir kortinu má ætla, að nafn þetta hafi enn verið notað á 16. öld.

Allir hinir betri landfræðingar fara eptir korti Guðbrands biskups Þorlákssonar eptir að það kom út, þó uppdrátturinn bjagist nokkuð hjá þeim sumum. Á korti eptir *Villem Barents* 1598 er kort Guðbrands biskups auðsjáanlega lagt til grundvallar. Landið er þar langt og mjótt og vogskorið eins að sunnan og ýms nöfn af uppdrætti Guðbrands hafa verið sett á þetta kort fremur af handahófi.[1] Kortin eptir *Hall* (1605) og *Gatonbe* (1612), *P. Merula* (1621), *Purchas* (1625), *J. Speed* (1627) o. m. fl. styðjast að því er Ísland snertir líka við uppdrátt þeirra Orteliusar, en á seinni kortum t. d. eptir *Joris Carolus* (1634), *G. C. Flander* (1636, 1642, 1649), *Joh. Mejer* (1652), *Hendrick Donker* (1669), *G. Sanson* (1667, 1669) o. fl. eru sýnilegar framfarir, hvað lögun landsins snertir. Sumir, sem gáfu út kort um aldamót 16. og 17. aldar og nokkru seinna, hafa þó auðsjáanlega lítið eða ekkert vitað um hina nýju uppdrætti af Íslandi. Á korti eptir *Cornelius Wytfliet* (1597) gengur mikill fjörður suðvestan í landið og á nesinu fyrir sunnan standa nöfnin Ontwertnes (Öndverðarnes) og Stap (Stapi); þar eru og nokkur fleiri nöfn ekki mjög fjarri lagi.[2] Á korti *Richard Hacluyts* (1599) er Ísland sporöskjulagað og ber keim af Doniskortinu og á því eru ýms forn nafnaskrípi[3]. Á korti eptir *Matthias Quaden* (1608)[4] er Ísland skakkur ferhyrningur með nokkrum víkum að sunnan og austan, við suðurströndina er nafnið Islandt, við norðurströndina nafnið Thule, þar eru engin önnur nöfn. Kort *Resens*[5]

1) Beschryvinge van de drie seylagien door de Hollanders gedaen an de noordsyde van Norweghen, Moscovia, Nova Sembla, en de door de Weygats door *Willem Barents* 1598; útg. af C. L. Brinkman. Amsterdam.

2) *Nordenskiöld*: Facsimile-Atlas, tab. 51.

3) *Nordenskiöld*: Facsimile-Atlas, tab. 50.

4) *Nordenskiöld*: Facsimile-Atlas, tab. 49.

5) Medelelser om Grönland IX. tab. 1.

yfir Norðurhöfin (1605) er, eins og stendur á uppdrættinum sjálfum, ekkert annað en eptirmynd af einhverju gömlu korti yfir Hafsbotna, hina fornu landafundi Íslendinga og seinni uppgötvanir Cortereal's og annara, þar er öllu sullað saman og Zeno-öfgunum blandað innan um. Kort þau, sem liggja til grundvallar fyrir uppdrættinum, eru líklega eldri en Orteliuskortið 1595; Ísland er á korti Resens rispað upp af handahófi aflangt líkt og hjá Olaus Magnus og þó ekki eins, það er mjög ólögulegt og ekkert líkt því, sem vera á. Að því er vesturlönd snertir er uppdráttur Resens mjög svipaður korti Sigurðar Stefánssonar, en Ísland er á korti Sigurðar margfalt betra og réttara. Hér ætla eg ekki að fjölyrða meir um þessa gömlu uppdrætti, en gaman þætti mér, ef eg einhvern tíma seinna gæti ritað um landabréfin ítarlegar heldur en hér hefir verið kostur á í þessari bók.



## Leiðréttingar og prentvillur.

Bls. 28[19]: út les út í. — 32[11] ýrarfelli l. Ýrarfelli. — 41[22]: Ólafs konungs í Eiríkssonar l. Ólafs konungs Eiríkssonar. — 42[20] Jómsvíkingam l. Jómsvíkingum. — 43 7. nmgr. Langenbeck l. Langebeck. — 53[25] Skáldhelgarímu l. Skáldhelgarímum. — 69 2 nmgr. Casule l. Casula. — 72[17] mætti og til saman l. máttu og til saman. — 74 2. nmgr. Ísland í í Tímariti l. Íslandi í Tímariti. — 76[29] Árið 1568 l. Árið 1558. — 91[16] hann tekur í bók sína lýsingu l. hann tekur að mestu leyti í bók sína lýsingu — 92[32] Ptotlemeusar l. Ptolemeusar. — 94[21] suððuroddi l. suðuroddi. — 94[31] sjást í fyrsta sinn nokkur nöfn l. sjást nokkur nöfn. — 97 3. nmgr. Hamburgi 1626 l. Hamburgi 1622. — 100[27] þó líka af l. þó líka góðs af. — 107[2] áseilinn l. ásælinn. — 120[4] hinn megin l. hinu megin. — 144[29] þekkingunni um þá l. þekkingunni þá. — 159[22] 15. aldar l. 16. aldar. — 159[29] venditatur l. vendidatur. — 164[3—4] verzlunvörum l. verzlunarvörum. — 171[13] Bessastöðnum l. Bessastöðum. — 176[16] blómur l. blóðmör. — 180[16] heimalið barn l. heimaalið barn. — 191 1. nmgr. Megisters l. Megisers. — 192[18] Fabricus l. Frabricius. — 201 1. nmgr. má má margt l. má margt. — 203[12] ljóstra l. ljósta. — 209[22] Johann Páll Resenius l. Jóhann Pálsson Resenius. — 209[22—25] eptir annan; í Hamborg o. s. frv. .... tileinkaði honum bók eina l. eptir annan og Niels Hemmingsen; í Hamborg var hann einkum í vinfengi við Philip Nicolai, sem tileinkaði honum bók eina. — 216[1] Séra Jón Einarsson orti brag l. Séra Jón Einarsson í Stærra-Árskógi orti brag. — 219[5] heitazt l. heitizt. 229[2] á 28. ári l. á 24. ári. — 231[28] síra Jóns Árnasonar l. síra Jóns Arasonar.

